# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XXXVIII. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem bestir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephansson, skáld
Frú Stephanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1956

## A. Heiðursverndarar

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, landstjóri Canada
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

## B. Heiðursfélagar

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, New York
Prófessor Halldór Hermannsson, Cornell University, N. Y.
Prófessor Sigurður Nordal, sendiherra Íslands, Kaupmannahöfn
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D., Sydney, Australia
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Akureyri, Ísland
Jónas Jónsson, fyrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
Dr. Rúnólfur Marteinsson, Winnipeg, Manitoba
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, Reykjavík, Ísland
Gunnar B. Björnsson, Minneapolis, Minnesota
Vilhjálmur Þór, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. John C. West, fyrv. forseti Ríkisháskólans í North Dakota
Próf. Ásmundur Guðmundsson, biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, sendiherra, Stokkhólmi, Svíþjóð
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, yfirdómari, Bismarck, North Dakota
G. J. Oleson, Glenboro, Manitoba
Einar P. Jónsson, ritstjóri Lögbergs, Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, ritstjóri Heimskringlu, Winnipeg, Manitoba
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.

**C. Styrktarmeðlimir 1956**

M. Walter Johannson, Pine Falls, Man.

Próf. Finnbogi Guðmundsson

Mr. Björgúlfur Sveinsson

Mr. Jón Johnson

Miss Sæunn Bjarnason, Gimli, Man.

Mr. J. Myrman

Mr. F. E. Snidal, Steep Rock

Mrs. Kristín Thorsteinsson Gimli, Man.

In memory of the late Þ. Þ. Þorsteinsson and Dr. Sig Júl. Jóhannesson.

Mr. Grettir Leo Johannson

**D. Ævifélagar**

K. Valdimar Björnsson, Minneapolis, Minn. U. S. A.

Dr. Helgi P. Briem, Consul General of Iceland, Stockholm, Svíþjóð

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Icelandic Danish Consul Winnipeg, Man.

J. W. Johannson, leikhússtjóri, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy, hreppstjóri, Ósum, Húnavatnssýslu, Íslandi

Gunnar R. Pálsson, New York, U. S. A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr, P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

**E. Ársfélagar**

1. CANADA

**Cypress River, Man.**

Stefán Eiríksson

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**London, Ont.**

Christian Sivertz

**Markerville, Alta.**

Jakob K. Stephansson

**Montreal, Que.**

Mrs. H. L. Robson

**Osland, B.C.**

Kristján Einarsson

**Prince Rupert, B.C.**

Fríða Philipson

**Piney, Man.**

Jón Ásmundson
Mrs. B. E. Björnsson
Skafti V. Eyford
Victor Freeman
Kristinn Norman
P. S. Pétursson
Pétur Stefánsson
Mrs. Emma Thorvaldson

**Riverton, Man.**

Hallgrímur Jóh. Stadfeld

**Wapah, Man.**

J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. Gyða Hurst
J. A. Eastman

**Wynyard, Sask.**

Gunnar Jóhannsson
Jakob J. Norman

2. BANDARÍKIN

**Arlington, Va.**

Mrs. J. Sigmundson

**Boston, Mass.**

Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Kórmakur Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Kapt. Jóhannes Björnsson
Valgeir Einarsson
Jónas Hallgrímsson
Kapt. Thor Guðmundsson
Kapt. Gunnl. Illugason
Kapt. Guðm. Jóhannsson
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson
Pálmi M. Sigurðsson
Kapt. Óskar Gíslason
David Love
Ólafur Sigbjörnsson

**Cismont, Va.**

Próf. Frederic T. Wood

**Minneapolis, Minn.**

Björn G. Björnsson
Hjálmar Björnsson

**New Brunswick, N. J.**

Próf. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**New Haven, Conn.**

Yale University Library

**Oceanside, L. I., N. Y.**

Andrés Guðmundsson

3. DEILDIR

**Stjórnarnefnd „Fróns"**

Jón Jónsson, forseti
735 Home St.

Steindór Jakobsson, vara-forseti
800 Banning St.

Heimir Thorgrímsson, ritari,
627 Agnes St.

Ingi Sveinsson, v.-ritari
471 Home St.

Jochum Ásgeirsson, gjaldkeri
126 Lodge Ave.

Gunnar Baldvinsson, vara-gjaldkeri
987 Dominion St.

Benedikt Ólafsson, fjármálaritari
307 St. Ann Road

Einar Sigurðsson, vara-fjármálaritari
585 Home St.

**Ævifélagar**

Grettir L. Johannson, ræðismaður
Séra P. M. Pétursson
Guðmann Levy
Mrs. Anna M. Levy
Mrs. J. B. Johnson
Grettir Eggertson
Walter Johannson
Eric Ísfeld

**Meðlimaskrá Fróns 1956**

Harold Axdal
Hannes Anderson
Sigurður Anderson
Sigurveig Árnason
Sigríður Árnason
Jón Ásmundsson
Jochum Ásgeirsson
Ingibjörg Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Heiðman Björnsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Black
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
B. E. Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
Davíð Björnsson
Rósa Björnsson
O. G. Björnsson
Mrs. O. G. Björnsson
Guðmundur Brandson
Ingibjörg Butler
Dr. S. E. Björnsson
Marja Björnsson
Ólafur Björnsson
Jón Benediktsson
Jóhannes Christie
Jónína Christie
Friðmunda Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
Hólmfríður Danielson
H. F. Danielson
Gestur Davíðsson
Fríða Davidson
Lína Dunning
Ragnheiður Davidson
C. O. Einarsson
Arni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Dr. Valdimar J. Eylands
Kristinn Eyjólfsson
Þóra Etlestone
S. V. Eyford
Jens Elíasson
Hávarður Elíasson
Olavía Finnbogason
Fred Friðfinnsson
Ása Friðriksson
Victor Freeman
Þorvaldur Guðmunds
Ragnhildur Guttormsson
Halldór Gíslason
Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
J. S. Gillies
Mrs. J. S. Gillies
Ragnar Gíslason

Elma Gíslason
Þorsteinn Goodman
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Sigríður Gunnlaugsson
Kár Guðmundsson
Júlía Guðmundsson
Próf. Finnb. Guðmundsson
Mrs. Goodley
Ben Heiðman
Karólína Heiðman
Björn Hallsson
Kristín Hannesson
Rósa Hjartarson
Elín Hall
Jón Halldórsson
Páll Hallsson
Þorleifur Hannesson
Fanney Helgason
Thor Ottó Hallsson
Magný Helgason
Guðmann Hjörleifsson
Jón Hafliðason
Guðrún Hafliðason
Anna Halldórsson
T. L. Hallgrímsson
Ólafía Ísberg
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Þóra Johnson
Ingibjörg Johnson
Fred Jóel
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Ingibjörg Jóhannsson
Stefán Jóhannsson
Þórdís Johnson
Bertha Jones
Jóhanna Jónasson
Jónas Jónasson
Kristveig Johnson
Guðríður Johnson
J. G. Jóhannsson
Helgi Johnson
Þorlákur Johnson
Jón Jónatansson
J. Johnson
Ólína Johnson
Ásmundur Jónsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
K. W. Jóhannsson
Dr. Björn Jónsson
Jón Jóhannsson
Christine Jóhannsson
Hlaðgerður Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Steina Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
Gestný Kristjánsson
W. Kristjánsson
S. Kjartansson
Mrs. Una Th. Líndal
W. J. Líndal, dómari
S. M. Lawson
H. V. Lárusson
Dr. Áskell Löve
Ari G. Magnússon
Jóhann Magnússon
Jóhann Magnússon
Magnús Magnússon
Thorsteinn Myrmann
Kristinn Norman
Jakobína Nordal
Snorri Olson
Jónína Olson
Jón Ólafsson
Óli Ólafsson
Próf. Tryggvi J. Oleson
Elva Oleson
Seselía Oddsson
Sveinn Oddsson
Valgarður Oddsson
Benedikt Ólafsson
Mrs. B. Ólafsson
Kristín Ólafsson
Stefanía Paulson
Mrs. A. S. Pálsson
Hannes Pétursson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Þorvaldur Pétursson
Petrína Pétursson
P. S. Pétursson

Hannes J. Pétursson
Art Reykdal
Jóhannes Sigurbjörnsson
Pétur Stephanson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regína Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Björn Sigurbjörnsson
Matthildur Sveinsson
Guðm. A. Stefánsson
Ragnar Stefánsson
Hansi M. Sveinsson
Guðrún M. Sveinsson
Halldór M. Swan
Björgúlfur Sveinsson
Mrs. J. B. Skaptason
Einar Sigurðsson
Hreiðar Skagfeld
Kristín Sveinsson
Ingi Sveinsson
Björn Sigurbjörnsson
Helga Sigurbjörnsson
Mínerva Sædal
Magnús Stefánsson
Sigurbjörn Sigurðsson
Emma Thorvaldson
Þorgerður Þórðarson
Sóffanías Thorkelsson
Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Einar Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Jónas Þorvarðsson
Valdheiður Thorláksson
Þorbergur Thorbergsson
Geir Thorgeirsson
Thor Thorsteinsson
Reynir Þórðarson
Bára Þórðarson
Thor Viking
Ólöf J. Viking

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

ÞRÍTUGASTI OG ÁTTUNDI ÁRGANGUR, 1956

Ritstjóri: Gísli Jónsson




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1957

# Myndirnar



PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRESS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

DR. RICHARD BECK:

# Jakob Thorarensen skáld

## SJÖTUGUR

Jakob Thorarensen hefir nú í meir en fjóra áratugi skipað merkissess í hópi íslenzkra samtíðarskálda, og orðið fastari í þeim sæmdarsessi með hverri nýrri bók, sem hann hefir látið frá sér fara; tekur það jafnt til kvæða hans og smásagna, því að hann er snillingur á báðar þær greinar bókmenntanna.

Jakob átti sjötugsafmæli 18. maí 1956, og var þeirra tímamóta í ævi jafn mikilhæfs og sérstæðs rithöfundar og hann er, að sjálfsögðu, minnst með ýmsum hætti heima á ættjörðinni, svo sem í blöðum og tímaritum og Ríkisútvarpinu. Meðal annars gaf bókaútgáfan Helgafell út sérstakt afmælisrit honum til heiðurs, úrval úr kvæðum hans undir heitinu **Tímamót**, fallega bók og vandaða, og báðum til sóma höfundi og útgefanda. Ritar Kristján Karlsson bókmenntafræðingur gagnorðan formála að bókinni og lýsir þar í nokkrum megindráttum skáldskap Jakobs og lífsskoðun hans.

I.

Jakob Thorarensen er fæddur á Fossi í Vestur-Húnavatnssýslu 18. maí 1886. Hann á ekki langt að sækja skáldskapargáfuna, því að fræðahneigt fólk og skáldhneigt stendur að honum á báðar hendur. Í föðurætt er hann, eins og nafnið bendir til, í frændsemi við Bjarna skáld Thorarensen, en þeir Þórarinn langafi Jakobs og Bjarni voru bræðrasynir, og hefir ekki ólíklega verið til getið, að báðir sæki skáldgáfuna til sameiginlegra forfeðra sinna, langfeðganna þriggja og nafnkunnu: síra Einars í Eydölum, síra Ólafs á Kirkjubæ og síra Stefáns í Vallanesi. Í móðurætt eru þeir náskyldir Jakob og Stefán skáld Sigurðsson frá Hvítadal. (Sjá annars um ættir Jakobs hið mikla ættfræðarit síra Jóns Guðnasonar skjalavarðar: **Strandamenn**, Reykjavík, 1955).

Jakob ólst að mjög miklu leyti upp í Hrútafirði, en einnig í Reykjafirði á Ströndum, þar sem faðir hans, Jakob (Jens) Thorarensen, var bóndi og vitavörður að Gjögri. Hefir stórbrotið umhverfið norður þar, harðneskjulegt en tilkomumikið, sett svip sinn á skáldskap hans, og jafnframt mótað skaphöfn hans og horf við lífinu. Þarf ekki lengi að blaða í kvæðum hans eða sögum til þess að finna þeim ummælum næga stoð. Svipað má segja um fólkið, sem hann umgekkst og kynntist á æskuárum; það var, að vonum, mótað af óvægri baráttunni, sem það varð að heyja fyrir tilveru sinni, og af harla kaldranalegu en svipmiklu umhverfi sínu með hinum miklu andstæðum þess eftir árstíðum.

Önnur öfl heldur en umhverfið og fólkið, sem hann „lifði og hrærðist" með, áttu sinn þátt í að móta skáldið á æskuárunum, þegar hugurinn er opnastur fyrir áhrifum utan að. Dvöl hans, fyrst hjá móðurföður hans, Gísla Sigurðssyni, og seinna hjá afa hans og nafna, Jakob Thorarensen, varð honum, að eigin sögn, bæði minnisstæð og ávaxtarík. Gísli var gáfaður fróðleiksmaður og skáldmæltur vel, og hefir Jakob minnst þessa móðurföður síns fagurlega í kvæðinu „Afaminning" og lýsir honum meðal annars á þessa leið:

Hann mig fyrstu skilningsskref
skæddi og leiddi bæði.
Sindruðu á tungu sögur, stef,
söngvinmál og fræði.

Hvílík þekking — þú varst mér
þjóð og land og álfa;
sýndir meðfram gegn um gler
guð og eilífð sjálfa.

Á það loft bar ekkert ský:
Íslands heimamenning
dyggan talsmann átti í
allri þinni kenning.

Jakob Thorarensen, föðurfaðir skáldsins, var á hinn bóginn athafnamaður mikill og sterkur persónuleiki. Má því líklegt telja, að hann hafi blásið hinu verðandi skáldi í brjóst aðdáun á heillyndi og karlmennsku, en Gísli afi hans, með frásögnum sínum af sögulegum hákarla veiðiferðum, gróðursett í huga skáldsins hugmyndina að hinu aðsópsmikla kvæði hans um það efni.

Í æsku gekk Jakob, eins og vænta mátti, að algengri sveitavinnu, og sótti einnig sjó, ef svo bar undir. Árið 1905 fluttist hann til Reykjavíkur og hefir verið búsettur þar síðan. Eftir að hafa lokið trésmíðanámi (1910), stundaði hann þá iðn um allmörg ár, sérstaklega húsasmíði, og farnaðist vel, en hin síðari ár hefir hann helgað sig skáldskapnum og öðrum ritstörfum.

Hann er maður sjálfmenntaður, en víðlesinn bæði í íslenzkum og öðrum bókmenntum, og hefir aflað sér mikils og merkilegs bókasafns, ekki sízt í íslenzkum fræðum og bókmenntum. Og hinar mörgu og fögru bækur á bókahillunum í vistlegri vinnustofu hans eru þar ekki aðeins til skrauts; þær eru og hafa verið lesnar, og lesnar vel; enda stendur Jakob Thorarensen flestum skáldum vorum dýpri rótum og fastari fótum í jarðvegi þjóðmenningar vorrar og bókmenntaerfða.

Jakob er göngugarpur mikill og hefir árum saman lagt land undir fót á sumrum, með þeim árangri, að hann mun hafa ferðast um allar sýslur landsins. Hann hefir einnig ferðast um Noreg og Danmörku, og bera kvæði hans því vitni, að þessi sumarferðalög hans hafa orðið honum frjósöm um yrkisefni; má og vafalaust hið sama segja um efnivið í sögur hans beint og óbeint.

Jakob Thorarensen hefir verið gæfumaður mikill í hjúskaparlífi sínu. Fyrir réttum fjörutíu árum (1916) kvæntist hann Borghildi

Benediktsdóttur, Guðbrandssonar frá Broddanesi, en Benedikt var um langt skeið landsali vestur á Kyrrahafsströnd. (Um hann og ætt hans, sjá nánar **Strandamenn**, er fyrr getur). Er frú Borghildur glæsileg kona, og að allra dómi, sem til hennar þekkja, framúrskarandi húsfreyja; enda kann skáldið hana vel að meta, eins og sjá má fögur merki í kvæðum hans. Í kvæðinu „Borghildur", sem þrungið er af ást og aðdáun, farast honum þannig orð:

Blómskrýtt á földum vor sat að<br>
 völdum,<br>
vel hafði byggðin daggir gist,<br>
sviphreinn og fagur suðrænudagur<br>
sveitina alla geislum kysst.<br>
Sólakstri greiður var himininn<br>
 heiður,<br>
hjartkæra, er ég sá þig fyrst.

Gæfunnar leiðin lífs míns á heiði<br>
lengi var grýtt og þreytti mig,<br>
unz ástríki vafinn hátt var ég hafinn<br>
á hamingju minnar sigurstig.<br>
Hrópi minn óður, hve guð var mér<br>
 góður,<br>
að gefa mér vorið bjarta — þig.

Ætla ég einnig, að Þóroddur skáld Guðmundsson frá Sandi hafi rétt að mæla í eftirfarandi orðum úr afmælisgrein um Jakob Thorarensen sjötugan (**Morgunblaðið**, 18. maí 1956):

„Og ekki kæmi mér á óvart, þótt öll hans fegurstu kvæði um konur, allt frá „Ásdísi á Bjargi" til „Húsfreyjuhróðurs", væru í raun og veru til Borghildar kveðin. Sé þetta nærri sanni, á frú Borghildur með réttu drjúgan skerf þess hlýhugar og þakklætis, er Jakob Thorarensen mun finna að sér streyma úr öllum áttum á sjötugsafmæli sínu."

II.

Ungur að aldri fór Jakob að yrkja; hefi ég fyrir því ummæli Jens Benediktssonar blaðamanns um skáldið (í grein um hann í **Morgunblaðinu**, 24. des. 1944), er segir, að hann hafi ort í hjásetunni, þegar hann var drengur, og fer um það þessum orðum: „Orti hann þá sveitarbragi og bændarímur. Skammavísur man hann ekki til, að hann hafi gert, þótt margir tækju kannske sumar bögurnar í bændarímunum sem slíkar. Allur er nú þessi skáldskapur gleymdur og týndur."

Fyrstu prentuð kvæði Jakobs komu í **Óðni**, hinu góðkunna og gagnmerka tímariti Þorsteins skálds Gíslasonar, er flutti bæði þjóðlegan fróðleik og kvæði og sögur ungra höfunda; kynnti þá með þeim hætti þjóðinni og blés þeim samtímis byr í segl í rithöfundar viðleitninni. Vöktu þessi kvæði Jakobs þegar víðtæka athygli ljóðavina, því að augljóst var, að þar var á uppsiglingu sérstætt skáld, er fór eigin götur um hugsun og ljóðform, og líklegt var til nokkurra afreka í bókmenntum þjóðarinnar.

Þær vonir rættust í ríkum mæli þegar með fyrstu bók Jakobs, **Snæljósum** (1914). Í þessum kvæðum hans er hreinn og hressandi vindsvali, sjávarselta og brimniður, víðátta fjalla og heiðalanda; og það,

sem enn meira var um vert, lífi fólksins og harðri baráttu þess við náttúruöflin, er þar lýst með trúu raunsæi og í áhrifamiklum myndum. Eigi svo að skilja, að öll séu kvæðin jafn þung á listarinnar vog að bókmenntasnilld og gildi, heldur hitt, að í þessari fyrstu ljóðabók skáldsins eru sum snjöllustu og sérstæðustu kvæði hans, með glöggu merki þeirra einkenna, sem svipmerkt höfðu fyrstu ljóð hans: — frumleiki í efnismeðferð og orðalagi, málfarið rammíslenzkt og þróttmikið, raunsæi og bersögli, að ógleymdri kýmninni, sem ósjaldan verður að naprasta háði. Ýmsum fannst að vísu, og finnst víst enn, skáldið æði kaldranalegt í kveðskapnum, og ekki er því að neita, að Jakob er tíðum ærið hrjúfur á ytra borðinu, en hitt er jafn satt, að undir harðri skelinni slær tilfinninganæmt og samúðarríkt hjarta.

Og svo fastmótaður var Jakob sem skáld í fyrstu bók sinni, að fram á þennan dag heldur hann óbreyttum framantöldum megineinkennum sínum, jafnframt því sem hann hefir eðlilega með auknum árum vaxið að lífsreynslu, þroska og innsæi, og sjóndeildarhringur hans víkkað að sama skapi. „Hann hefir sem sé gert hvort tveggja, að fylgjast með tímanum og láta tímann skella á sér og flæða fram hjá sér,“ eins og Vilhjálmur Þ. Gíslason rithöfundur sagði réttilega um hann sextugan í afmælisgrein í **Eimreiðinni** (apríl-júní 1946).

Jakob Thorarensen hefir verið harla mikilvirkur í skáldskapnum, því að út hafa komið eftir hann ekki færri heldur en átta kvæðabækur, en auk **Snæljósa**, eru þær þessar: **Sprettir** (1919), **Kyljur** (1922), **Stillur** (1927), **Heiðvindar** (1933), **Haustsnjóar** (1942), **Hraðkveðlingar og hugdettur** (1943) og **Hrímnætur** (1951). Ótalin er þá vönduð heildarútgáfa rita hans fram að þeim tíma, **Svalt og bjart**, sem út kom í tilefni af sextugsafmæli hans (1946) á vegum Helgafells í Reykjavík, með athyglisverðum formálsorðum höfundar, ennfremur úrvalið **Tímamót**, er að ofan getur, að ógleymdum smásagnasöfnum hans, sem tekin verða til nokkurrar athugunar síðar í þessari greinargerð um skáldskap hans.

Jakob Thorarensen er löngu, eins og þegar hefir verið gefið í skyn, kominn í þjóðskálda sess fyrir svipmikinn og auðugan skáldskap sinn, en hitt er ekki nema lífsins og listarinnar lögmál, að hin mörgu hundruð kvæða hans eru misjöfn að gæðum og snilld; um annað fram ber þess þó að minnast með virðingu og þökk, hve margt er þar ágætra kvæða og snjallra, þrungin að þróttmikilli hugsun og klædd í glæsilegan búning máls og mynda.

Hann hefir ort fjölda skírskorinna og áhrifamikilla náttúrulýsinga, og ósjaldan er það hið hrikafengna og ógnum þrungna í íslenzku landslagi, sem dregur að sér huga hans, í kvæðum eins og „Stigahlíð“ og „Svörtuloft“, en þessi eru fyrri tvö erindi hins fyrrnefnda:

Æ, Stigahlíð, þér stekkur aldrei bros,
svo stóðst þú af þér margar kátar
aldir.

Í svipnum harða sést ei hik né los,
á svolavöngum allir drættir kaldir.
Þú þykir fálát — vantar viðmót gott,
en von er til að daufan þokka bjóðir:
Guð fékk þér engan undirlendisvott
að yfirgleðjast, líkt og barni móður.

Já, þú ert ófrjó, vingast vildir þó
við vorið fagra' á löngu horfnum
öldum,
og vorið brosti, en því var um og ó
að eiga þig og slá þeim grænu
tjöldum.
Loks gékk það frá, það gaf þér
engin blóm,
en grimm í skapi verður mörg
sú kona,
sem les í kjöl þann beiska dauðadóm
um daghvörf ásta og lífsins
gróðurvona.

Þetta kvæði er annars ágætt dæmi þess, hvernig jafnvel náttúruljóð Jakobs verða löngum annað tveggja: „náttúran persónugerð ellegar gædd einhverjum mannlegum eiginleika,“ eins og Kristján Karlsson bendir á í inngangsorðum sínum að úrvalinu **Tímamótum** úr ljóðum skáldsins.

Einhver svipmesta og um allt ágætasta náttúrulýsing Jakobs er þó kvæðið „Sogn,“ en þar er brugðið upp skýrri og skarpri mynd af norsku fjarða- og fjallalandslagi í öllum hrikaleik þess:

Noregs fjarða fjörður,
fjallaramma Sogn,
djúpið ægidjúpa,
deilt í rok og logn;
ofsagjósti ærist
aðra stund þinn sær,
hina lögur liggur
lygn og hvergi blær.

Gnapa fjöll og gnæfa;
grund ei mörg þar hlær;
hrikabrattinn hlíða
hauki einum fær.
En allar bjarga bríkur
blómleg ala tré,
eins og meiði á moldu
minnsta þörf ei sé.

En hér, eins og svo víða annars staðar í slíkum kvæðum hans, verður skáldinu hin ytri náttúra tilefni íhugunar um mennina og líf þeirra. Honum verður rík í huga áhrifin af þessu hrikafengna umhverfi á fólkið, sem elur þar aldur sinn og heyir þar sína lífsbaráttu, og dæmi þess fólks þá um leið áminning og eggjan til dáða:

Sömu dráttum dregin
dala þinna börn,
týgjuð bjargsins bratta
bæði í sókn og vörn,
sjást hér enn, — í svipnum
sízt er undanhald,
en um brún og enni
ögrar hamravald.

Veturinn á norðlægum slóðum, með myrkavaldi sínu og ægileik, hefir orðið honum efni kvæða eins og „Skammdegi,“ en hrikafegurð hins íslenzka vetrarkvelds í allri dýrð þess og töframætti er þó enn eftirminnilegar lýst í kvæðinu „Stirndur himinn,“ sem er hvort tveggja í senn hreimmikið og myndauðugt, með undirstraum djúprar íhygli:

Ljósið brimar, glæstra geima
gefur sýn af hlaði mínu.
Falda slættir hundrað hnatta

horfa við á fjörru sviði.
Milljón hnatta mun þó réttar';
mannaböl er fát við tölur.
Mergðin, tíminn, rögn og rúmið
reikningshaldi spannast aldrei.

Sýtinn hvergi er sólnabirgi
sjólinn dýri, er hnöttum stýrir,
loftin tindra í ljómaundrum,
ljósi brimar allur himinn.
Lífsins dýrð í ljóssins orðum
lærist bezt og huga festist.
Beindu, maður, hug til hæða,
heig þig djúpt og blúgur krjúptu.

Mildari drættir í svip náttúrunnar og árstíðanna fara þó eigi varhluta af athygli Jakobs, eins og sjá má í ýmsum vor- og sumarkvæðum hans, sem þrungin eru einlægri fagnaðarkennd, svo sem „Vorvísur" frá fyrstu árum hans og „Vornótt" frá síðari árum.

Þá hefir hann ort fjölda stórbrotinna sögulegra kvæða, þar sem hann klæðir holdi og blóði veruleikans svipmiklar og sérkennilegar söguhetjur eins og Guðrúnu Ósvífursdóttur, Hildigunni, Snorra goða, Sturlu Sighvatsson (í kvæðinu „Vígsterkur") og Þorgils skarða. Öll hitta kvæði þessi vel og eftirminnilega í mark um snjalla mannlýsingu, og eru upphafs- og lokaerindið í kvæðinu um Hildigunni glæsileg dæmi þess:

Líkt og fjall með elda æsta
undir hjálmi hvítasvells
rís í sögnum hrundin hæsta,
heimasætan stoltarglæsta,
salardísin Svínafells.
Þótti í svörum, þótti á hvarmi,
þó er sem úr augum bjarmi
vor í dýrð síns dýrsta pells.

Hildigunnar hyrjarbragur
hann er slunginn þáttum tveim:
annars vegar ástadagur
unnablár og himinfagur
— röðulhlýja í ranni þeim.
Hinum megin heiftin stranga,
hreggstormur af jökulvanga.
Báls og ísa ber hún keim.

Söguhetjur þær, sem umrædd kvæði fjalla um, og aðrir þeim líkir, karlar og konur, frá síðari árum, eru skáldinu vel að skapi, óvenjulegt fólk, mikilúðugt og heillundað, stórt í sorg og sigrum.

Af kvæðum Jakobs um íslenzkar fornkonur er kvæðið um Ásdísi á Bjargi, móður Grettis, sérstaklega fagurt og heillandi, hjartaheitur lofsöngur um móðurást og fórnarlund, og svo samfellt, að það nýtur sín því aðeins til fulls, að lesið sé í heild sinni.

Í sögukvæðum sínum tekst Jakob oft ágætlega að bregða upp launtrúum og minnisstæðum myndum af söguhetjum sínum í fáum en sterkum dráttum. Svipað má segja um minninga- og erfikvæði hans um þá samtíðarmenn hans, er hann hefir talið verðuga þess að minnast þeirra með þeim hætti, að það eru þá einnig menn, sem honum hafa verið sérstaklega hugþekkir vegna heilsteyptrar skaphafnar, manndóms og nytjastarfa í þjóðarþágu, menn eins og Björn Jónsson ritstjóri, dr. Jón Þorkelsson þjóðskjalavörður og Stephan G. Stephansson skáld, að nokkrir séu taldir. Sköruglegri kveðjunni til Stephans lýkur hann á þennan veg:

Stillt sé kvöld um stuðlahöldinn,
starfað hafði 'ann lengi og vel,
augun hvesst í áttir flestar
út um lönd í storm og él,
skyggn sem haukur, — hafði að auki
hjartað yrkt hins sanna manns,
einatt kennir íturmennis
elda, er brenna í þeli hans.

En Jakobi lætur eigi aðeins sú list að kveðja eftirminnilega í ljóði heilhuga forustumenn, sem hátt hafði borið á sviði menningar- og starfslífsins. Um Samson Eyjólfsson, gáfaðan og sérkennilegan ógæfumann, yrkir hann merkilegt kvæði, gagnorkt, hugsun hlaðið og samúðarríkt. Með sömu ágætum er kveðja hans til Eyjólfs Eyjólfssonar formanns, látlaust kvæði, þrungið hugsun og djúpri samúð, og verðugur óður íslenzkri sjómannastétt.

Og Jakob er einmitt sérstakur snillingur í því að bregða upp í kvæðum sínum ógleymanlegum mannlífsmyndum, er segja sögu hins ólíkasta fólks og túlka skaphöfn þess í björtum leiftrum sem bregða birtu á dýpstu sérkenni þess og örlagastundir. Þetta gerir hann í kvæðum eins og „Eldabuskan," „Skrattakollur" og „Hrefna á Heiði," sem löngu eru þjóðkunn og lærð af mörgum, og svipmerkt einkennum bókmenntalegs langlífis. Markviss kaldhæðni skáldsins eykur eigi ósjaldan á áhrifamagn lýsingarinnar. Í þessum mannlífsmyndum sínum, eigi síður en í sögu- og minningakvæðunum, lýsir hann oft stoltu fólki og stórbrotnu, örlyndu en fastlyndu. Mikil er Hrefna á Heiði í reisn sinni og bitur þóttakuldinn í orðum hennar, er hún hafnar bónorði glæsibúins og glóhnappaðs sýslumannsins:

Burt hún gekk í glæstum skrúða
göfuglyndis, — mærin prúða.
Mjúk á fæti' og fögur öll.

Eigi er lýsingin á Hrossa-Dóru í samnefndu kvæði síður tilkomumikil, en þar fara saman sálrænt innsæi, dramatiskur kraftur og stígandi í frásögninni og hreimmikið málfar, enda hefir þessi stórskorna lýsing réttilega verið talin einhver hressilegasta kvenlýsing í íslenzkum skáldskap síðari ára.

Í öðrum kvæðum sínum lýsir Jakob með skörpum og glöggum dráttum hversdagsfólki, „hetjum hins daglega lífs", öskukarlinum, búðarstúlkunni og sótaranum; og þó að góðlátlegrar glettni kenni í þeim lýsingum, er þar eigi djúpt á samúðinni. Við annan tón kveður í lýsingum hans á ónytjungum og öðrum þeim manntegundum, sem eru honum hvimleiðastar. Slíkt mannfólk gagnrýnir hann oft miskunnarlaust, og beitir þá tíðum fimlega vopni kaldhæðni sinnar, t. d. í kvæðinu „Útburður."

Karlmennska heillyndi, hreysti og manndómur, eru honum mest að skapi, og það er aðdáunin á þeim eiginleikum, sem kyndir undir í kvæðum eins og „Hinzti dagur," sem er ramaukin hrynhenda og stórbrotin lýsing á ofsaveðri og mannskaða á hafi úti; á það eigi síður við um hið mikla og margdáða kvæði hans „Í hákarlalegum," er sígillt mun reynast, því að þar er færð í sam-

bærilegan ljóðabúning raunsönn og áhrifamikil lýsing á lífskjörum og atvinnuháttum horfinnar kynslóðar og á hraustmennum, sem á opnum bátum gengu ótrauðir á hólm við vetrarbylji og æðandi sjó á dýpstu miðum:

Öruggt var þeirra áralag,
engum skeikaði vissa takið;
stæltur var armur, breitt var bakið,
og brjóstið harðnað við stormsins
slag.
Seigluna gátu' og vaskleik vakið
vetrarins armlög nótt og dag.

En þarna var ófalskt íslenzkt blóð,
orka í geði' og seigar taugar.
Hörkufrostin og hrannalaugar
hömruðu' í skapið dýran móð. —
Orpnir voru þeim engir haugar,
en yfir þeim logar hróðurglóð.

Jakob Thorarensen hefir, eins og framanskráð upptalning þeirra ber með sér, valið kvæðabókum sínum hressileg heiti; hann nefndi heildarútgáfu rita sinna Svalt og bjart (og áður eitt smásagnasafn sitt sama nafni), og er það að því leyti réttnefni, að heiðríkja og hreinviðri ráða löngum ríkjum í heimi kvæða hans, lognmollan er þar algerlega utangátta. Heiti nýjustu kvæðabókar hans, **Hrímnætur** (1951), sver sig í sömu ætt um veðurfar í skáldskapnum, og þar sem hér að framan hefir verið vitnað til eldri kvæða hans, sæmir ágætlega að fara nokkurum orðum um þessa nýjustu kvæðabók hans sérstaklega. Mætti ætla, að einhverra ellimarka gæti í þeim kvæðum skáldsins, þar sem hann hafði hálfnað sjöunda tuginn, er þau komu út, en því fer fjarri að svo sé.

Jakob er hér samur við sig um frumleik í hugsun og málfari, vandar vel gerð ljóðanna og tekur efni þeirra bæði sterkum tökum og oft snilldarlegum, svo að segja má um kvæði bókarinnar í heild sinni (en þau eru 43 talsins), að þau hafa öll eitthvað til brunns að bera, og mörg þeirra eru hrein ágætiskvæði.

Hann hefir áður, eins og getið hefir verið, ort fjölda svipmikilla og minnisstæðra náttúrulýsinga, og þessi nýjasta kvæðabók hans hefst einmitt á slíkri lýsingu, „Gist á víðavangi,“ og er það bæði fagurt kvæði og hreimmikið. Önnur tilkomumikil og prýðilega ort kvæði af sama toga spunnin eru „Að Geysi“ og „Hornstrandir,“ hið síðara mjög ramaukið og tilþrifamikið.

Glöggskyggnt er skáldið hér sem fyrri daginn á samband manns og moldar, áhrif hins hrikafengna umhverfis á skapgerð þeirra, sem þar heyja sitt harða stríð við trylld og mislynd náttúruöflin. Náttúrulýsingar þessar eru að öðrum þræði ættjarðarljóð, en hreinræktað kvæði af því tagi, og eitt allra ágætasta kvæðið í bókinni, er „Íslandsstef,“ ort í tilefni af lýðveldisstofnuninni 1944, kjarnmikil eggjan til dáða, þrungin djúpstæðri ættjarðarást:

Og nú, er fer þú, fóstran mæta,
að feta nýjan stig,
þá láttu ei tímans hlym né hraða
heimska og villa þig;
lát veittan oss að vísu byr
og viðunanleg kjör,
en vertu eins og oftast fyr

á eyðslusilfrið spör;
oss hentar naumast hófleysan
í hamingjunnar för.

En gef oss auðnugullið dýra
og gleði þeirrar ym,
er störfin vekja, en stöðva hvorki
storm þinn eða brim,
oss betra að hitna í barningi enn
en blása þurfi í kaun,
því stórviðrin þau stæla menn
að standast lífsins raun,
og Ísland geldur atorkunni einni
fyllstu laun.

Svo kjarnort er skáldið í kvæði þessu, eins og tilvitnanirnar bera vott, að sumar ljóðlínurnar verða hreinustu spakmæli, en það er háttur hinna beztu skálda. Annars staðar í sama kvæði segir hann spaklega:

Vor fortíð leggur leiðsögn til
og ljær oss reynsluþrótt.

Jakob Thorarensen er fastheldinn á fornar dyggðir og dýrkeypt menningarverðmæti þjóðarinnar, er hann vill eigi selja við sviknu gjaldi. Á þann strenginn slær hann í hinu prýðilega kvæði „Vorleysing.“ Og líkt er honum í hug, er hann yrkir sitt hugþekka kvæði um fjallagrösin og minnir kröftuglega á það, hver orku- og lífsuppspretta þau voru Íslendingum, „er hagsældin bjóst í burt“ og „þjóðin var flæmd á feigðarsnös í fáránlegu hungurstandi.“

Öll yfirborðsmennska, falsgyllingin innantóm, er Jakobi, hins vegar, ærið hvimleið, og lætur hann svipu háðnepju sinnar dynja óspart á þeim fyrirbærum mannfélagsins. Kvæðið „Forkólfur“ er ágætt dæmi þess, bráðsmellin lýsing á vindbelg, sem berst mikið á, eins og slíkum mönnum er títt, en loforðin á sandi byggð; þetta er síðasta erindið:

Þá gekk hann burt. — Hann var
greindur kveðinn.
En guð er beðinn
að ljá oss vernd fyrir voða sönnum
af vindgangsmönnum.

Önnur kýmnikvæði í seinustu bók hans, og þau eru mörg, hitta vel í mark og bera því vitni, að hann er jafn skygn og áður á hið skoplega í lífinu og hefir í engu glatað hæfileikanum til að lýsa því á sérstæðan og skemmtilegan hátt. Ádeilur hans almenns efnis eru einnig hinar markvissustu. Hann er t. d. kostulegur samanburðurinn á ofbeldisgömmunum og mjólkandi kúnum í kvæðinu „Mikill munur.“

En jafnframt því, að Jakob beinir hvössum skeytum sínum að yfirborðsmennskunni og öðrum veilum í mannlegu eðli, er hann, eins og ávallt áður, reiðubúinn að hefja til vegs manndóminn og drengskapinn, og lýsir sér þar ást hans á fornum dyggðum; þetta kemur fagurlega fram í góðkvæðunum „Skapfestukona“ og „Húsfreyjuhróður,“ sem eru hvort öðru betra.

Í sama anda eru ágæt minningakvæðin um skáldin Jón Magnússon og Guðmund Friðjónsson frá Sandi, er báðir voru höfundinum kærir og mjög að skapi vegna mannkosta þeirra og afreka á sviði bókmennt-

anna, og jafnframt íslenzkir inn í hjartarætur. Munu vinir Jóns taka heilum og þakklátum huga undir þessi fögru og sönnu lokaorð erfiljóðs Jakobs um hann:

Um þig stafaði ýmsa vega
eitthvað gjafa milt,
því mun afar þungum trega
þér til grafar fylgt.

Óneitanlega heldur Jakob Thorarensen vel í horfinu um ljóðagerðina í þessari nýjustu kvæðabók sinni, og með henni hefir hann enn á ný lagt drjúgan skerf til íslenzkra samtíðarbókmennta, og hún minnir jafnframt á það, hve vel hann skipar sinn virðulega sess á skáldabekknum.

III.

Skal þá litið nokkuru nánar á lífsskoðun Jakobs Thorarensens eins og hún kemur fram í kvæðum hans. Raunsæi og jafnvægi í hugsun svipmerkja skáldskap hans. Glöggskyggni hans á það, sem miður fer í lífinu, ranghverfu þess, á veilurnar í fari manna, finnur sér löngum framrás í kaldhæðni og þjóðfélags ádeilu, sem oft er bitur og vægðarlaus; en þegar betur er að gáð, er jafnframt löngum grunnt á samúðinni með olnbogabörnum lífsins og lítilmagnanum, og þarf eigi annað en minna á kvæðið „Hann stal“ í því sambandi. Og þessi samúð skáldsins nær til málleysingjanna, dýranna, sem eigi síður en mannanna börn heyja harða baráttu fyrir tilveru sinni, og eiga ekki ósjaldan í vök að verjast einmitt vegna mannúðarleysis mannsins sjálfs. Djúp siðferðiskennd og ádeila haldast því í hendur í mörgum kvæðum Jakobs, og má í rauninni segja, að ádeilan eigi rætur sínar í þeirri tilfinningu hans, samanofinni jafn sterkri réttlætiskennd hans.

Hann hefir hugsað mikið um vandamál mannlífsins, og skoðanir hans í þeim efnum eru ljósu letri skráðar í fjölmörgum kvæðum hans, sem þrungin eru íhyggli, bersögli, og gagnrýni, alltaf hreinskilin, og þegar allt kemur til alls jákvæð fremur en neikvæð. Raunsæi hans og efagirni, sem alið hafa honum í brjósti bölsýnið, er finnur sér útrás í kvæðum eins og „Skaflar,“ á ekki síðasta leikinn. Þó að trú hans á manndóm og mannúð, á lífið, land hans og þjóð, standi stundum höllum fæti, tapar hann henni aldrei til fulls; og þó að framtíðin sýnist honum oft þoku vafin og óviss, trúir hann á hana, eins og lýsir sér vel í kvæði hans „Ný tíð,“ enda þótt raunsæi hans og varfærni forði honum frá blindri öfgatrú í þeim efnum.

Jakob Thorarensen er hreinræktaður einstaklingshyggjumaður, en jafnframt gæddur sterkri persónulegri ábyrgðartilfinningu, og hann gerir miklar kröfur til manna um það að verða æðrulaust og hetjulega við lífsins kvöðum, með trúmennsku við hið bezta í sjálfum þeim og trúnaði í störfum. Þessi lögeggjan til frjósamra dáða er þungamiðjan í mörgum kvæðum hans. Kvæðið „Dagur“, efnismikið, táknrænt og áhrifamikið, er eitt hið allra svip-

mesta slíkra og annarra kvæða hans, en þessi eru fyrsta og næstsíðasta erindið:

Af hafi tímans kemur mikill knör
úr kafi sortans, traustur, glæstur,
fagur;
hann skríður létt og leggst í hverri
vör
að lífsins fjörum, — það er bjartur
dagur.
Sá prúði dreki flytur ljóssins farm
til folda og þjóða, og sterkur
lúðurhljómur
á lífið kallar, einn og sérhvern arm
til „útskipunar." — Knörrinn bíður
tómur.

Og störfum miðar, varan innbyrt er
af ýmsri gerð, og senn er drekinn
hlaðinn.
Þú segir til hver sending skal
frá þér,
því sólskin hlauztu og kvitta þarft
í staðinn
með vöku og starfi; fást um
farmrúm enn
í fleygi dagsins handa pinklum
þínum,
og lífsins eðli, að allir sannir menn
þar eitthvað leggi af getuforða
sínum.

En þó að siðferðis- og ábyrgðartilfinning hans sé eins djúpstæð og raun ber vitni, býr honum einnig í brjósti rík og fangvíð fegurðarást, og kemur það eftirminnilega fram í kvæði hans „Fegurð", þar sem hann lofsyngur fegurðinni í litum og hljómum og öðrum myndum hennar.

Sem aðrir vitrir menn, er hann sér meðvitandi takmörkunar mannlegrar skynjanar til þess að kanna til fullnustu leyndardóma alheimsins, en virðing hans fyrir höfundi lífsins og lífinu sjálfu í öllum myndum þess er beint og óbeint skráð í kvæðum hans; og því segir hann í lokaerindi ofannefnds kvæðis:

Dýpst í skauti dularhylja
drottnar kraftur huliðsvilja,
þess, er engir þankar skilja,
þangað daprast hverjum flug,
höndin sterka, er hnöttum ráðar,
hlýðnum lögum tíma og staðar,
— máttug tign, er megnast laðar
mína þrá og allan hug.

Annars ætla ég, að heilskyggn lífsskoðun hans, sem jákvæðari er í rauninni en sumir hafa látið sér skiljast, komi harla glöggt fram í þessum erindum úr kvæðinu „Við þökkum":

Við þökkum öll, að eigi
er alltaf látið fenna,
að svellin sjatna og renna
við sumaryl vors lands,
— að bjartar vonir brenna
í brjósti skammlífs manns.

En samt skal þakka, að sólin
ei sífellt nær að skína,
að allir dagar dvína,
og dimma fylgir nótt.
Í saknaðs rökkva sína
menn sækja dýrstan þrótt.

Hver ævivoð skal unnin
úr ótal fjörva-þráðum,
af dyggðum, syndum, dáðum
og djúpri gleði og sorg;
öll reist að spökum ráðum
skal reynslu vorrar borg.

Jakob Thorarensen er eigi persónulegt skáld í þeim skilningi, að hann flíkar sjaldan tilfinningum sínum í skáldskapnum; þær eru þar fremur sem falin glóð, og er það í fullu samræmi við norrænt lundarfar hans. Kvæði hans eru stórum merkilegri fyrir þróttmikla hugsun þeirra en tilfinningaeldinn, fyrir skarpar og kjarnmiklar lýsingar heldur en flug ímyndunarinnar. Hann er, með öðrum orðum, eigi ljóðrænt skáld. Eigi að síður er hann rímslyngur, hvort heldur hann yrkir undir gömlum háttum eða nýjum, og kveður oft dýrt. Hefir þegar verið vikið að nokkrum þeim kvæðum hans. En rímfimi hans lýsir sér ágætlega í vísnasafni hans **Hraðkveðlingar og hugdettur** (1943), og er þessi vísa um vetrarkomuna órækur vottur þess:

Stóru fetin stormur hvetur,
stiklað getur hnjúk af hnjúk;
sjaldan lét á borð vor betur
breiddan vetur hvítan dúk.

En ljóðform hans og kveðandi eru alltaf með sterkum persónulegum svip, og gildir hið sama um þróttmikið, auðugt og rammíslenzkt málfar hans, sem að vísu er stundum dálítið hrjúft. Eitt er víst, að ekki þarf að fara í grafgötur um höfundarmarkið á kvæðum hans; það leynir sér ekki.

Hann ann fornum dyggðum og þrautreyndum íslenzkum menningarverðmætum, og er andlega skyldastur 19. aldar skáldum vorum, og þá sér í lagi þeim Bjarna Thorarensen frænda sínum og Grími Thomsen, en fer þó mjög sinna ferða í skáldskapnum, því að hann er, eins og nægilega hefir sýnt verið, manna sjálfstæðastur í skoðunum, sterkur og sérstæður persónuleiki.

IV.

Þessari greinargerð er sérstaklega ætlað að fjalla um skáldskap Jakobs Thorarensens í bundnu máli, en hann hefir lagt á gjörva hönd fleiri greinar bókmenntanna en ljóðagerðina, sem ein hefði þó meir en nægt til að tryggja honum langlífi í íslenzkum bókmenntum. Jafnframt því, að hann hefir unnið sér heiðurssess sem eitt af frumlegustu og svipmestu íslenzkum skáldum sinnar tíðar, hefir hann með snjöllum smásögum sínum tekið sér sæti á fremsta bekk þeirra höfunda íslenzkra, er leggja stund á þá vandasömu grein bókmenntanna. Og þetta þurfti mönnum í rauninni eigi að koma á óvart, þegar í minni er borið, hver snillingur Jakob er í mannlýsingum sínum og frásögnum í kvæðum sínum. Rík athyglisgáfa hans, frásagnarhæfileiki, þróttmikill stíll, og ekki sízt ádeila hans og kýmni, njóta sín ágætlega í smásögum hans, sem margar hverjar eru með snilldar handbragði og hitta eftirminnilega í mark.

Hann hefir gefið út eftirfarandi fimm smásagnasöfn: **Fleygar stundir** (1929), **Sæld og syndir** (1937), **Svalt og bjart** (1939), **Amstur dægranna** (1947) og **Fólk á stjái** (1954), og auk þess eina sögu, er nefnist **Tvíveðrungur** (1949), sem handrit; alls eru það þá yfir 40 sögur talsins; en hitt er þó stórum meira um vert, hve vel þær vegast yfirleitt á gullvog listarinnar.

Menn þurfa ekki annað en lesa nýjasta smásagnasafn hans til þess að sannfærast um það, hverjum snildartökum hann hefir náð á vandmeðförnu smásagnaforminu í sögum eins og „Sómavendni,“ „Kölkun,“ „Andstætt viðhorf“ og „Víða liggja vegamót,“ sem eru hver annarri betri, og bera fagurt vitni frjórri hugkvæmni hans, kjarnmiklu og fastmótuðu málfari og djúpri sálrænni innsýni.

Annars er ágæta lýsingu á smásögum Jakobs að finna í snjallri afmælisgrein um hann sjötugan, „Meistari tveggja listgreina,“ eftir Helga Sæmundsson ritstjóra (**Eimreiðin**, apríl-júní, 1956), og er þar farið um þann þátt ritstarfa hans þessum réttmætu orðum:

„Þáttur ljóðagerðarinnar er aðeins hálf sagan af bókmenntastarfi Jakobs Thorarensens. Maðurinn hefir einnig samið smásögur með augljósum árangri óvéfengjanlegrar listar. Og íþrótt þeirra er sízt minni en kvæðanna. Beztu smásögur Jakobs eru meðal haglegustu smíðisgripa þeirrar listgreinar á Íslandi.“

Jakob Thorarensen endist og eldist ágætlega, eins og nýjasta kvæðabók hans og smásagnasafn sýna deginum ljósar. Mun því enn mega vænta bókmenntalegra happadrátta af hans skáldamiðum, því að trúr skáldköllun sinni sækir hann enn sjóinn í þeim skilningi og slakar hvergi á klónni, kröfuharður við sjálfan sig og aðra, minnugur þess, eins og hann segir í lokaorðum kvæðis síns „Í sjónauka,“ að:

Stórt að vilja og hátt að horfa
hækkar bezt vort manndóms gengi.

---

## ÍSLENZKT MÁL

Einhver sagði: Íslenzkt mál
opinberað getur
allt sem býr í okkar sál,
öllum tungum betur.

Því er ei aðeins unt að tjá
allt sem hugsast getur,
heldur sjötíu sinnum má
segja það altaf betur.

**Gutti**

GUTT. J. GUTTORMSSON:

# Jarðgöngin

Hamarsins svarta, háa tindsins
harla lágu klettagöngin
knúð er eimlestin inn að fara,
undirlögð sporbraut þar um vélar.

Ásahlymur og hjólaþytur,
hósti reykháfs og stunur teina
verða nú að niðurbældri
næturþrumu í iðrum jarðar.

Logar glatt undir lífsins katli,
liðast reykurinn meðfram gluggum
sortaþrunginn, þögull vottur
þess að lifir vel í kolum.

Þó sé myrkur á fyrir utan
inni er bjart í sálarvagni;
lampar undir lágri hvelfing
lýsa í honum sjálfum inni.

Vagninn lýstur upp að innan
— undir mælikeri að sönnu,
lýstum gluggum er að utan
eins og vaði tungl í skýum.

Ljóssins vant ef yrði inni,
eins og í Surtarhelli niðri,
ofan mundi rjáfur ríða
roflausrar nætur Dimmuborgar.

Hendi ei slys, og hinstu ferðar
hinsti kaflinn sé ei þessi,
skín þá inn um alla glugga
eilífa ljósið hinumegin.

Það er takmark — enginn endi —
upphaf nýrrar og betri ferðar
undir himinloftum lýstum
ljósi hinumegin grafar.

DR. J. P. PÁLSSON:

# PLÚTUS

(Eftir frásögn farandsalans)

I.

Í öllu umdæmi mínu kunni ég hvergi betur við mig en í Samson. Það er lítill bær nærri miðju ins mikla sléttlendis Vestur-Canada. Um það ógnarflæmi flæktist ég um heilan aldarfjórðung, í verzlunarerindum mínum, og hafði oft bækistöð í Samson. Nær sem ég var þar í námunda, taldi ég ekki eftir mér, einnar eða tveggja stunda keyrslu, til að mega njóta aðbúðar á Hótel Samson. Á þann hátt gerðist ég að hálfu leyti Samsoníti og var af bæjarbúum álitinn eins konar heiðursborgari. Var þetta næg ástæða til þess, að ég var forvitnari um sögu als, sem við Samson var kent, en nokkuð annað á sléttunni. Hér var heldur ekki af litlu að taka. Sagnir og munnmæli um þá Stein gamla Samson, stein yngra og Stein Samson þriðja, lágu á hvers manns vörum. Og voru konur ekki ófróðari en karlar. En saga Samsonfeðgana var saga héraðsins, og efni til stórrar bókar, þó stiklað væri aðeins á **Steinunum**, sem báru ofar öllum vaðlinum. Til þess að gera grein fyrir þeim og sér í lagi inu mannlega fyrirbæri, sem gengur undir nafninu Steinn Samson þriðji, verð ég að sækja heimildir mínar í annara ummæli, sagnir eða missagnir, skilning eða misskilning, ýkjur og ef til vill lygi, að ógleymdu **Blaðinu**. Úr slíku og þvílíku efni vinna sögumenn og sagnfræðingar. Og mér er ekki vandara um en þeim.

Eitt laugardagskvöld, síðla sumars, sat ég úti á svölum Samsonshótelsins. Undanfarið hafði gengið þessi þursteikjandi sólarhiti, sem oft legst á sléttuna í ágústmánuði. Sökum væntanlegrar uppskeru var öll verzlun í uppgangi, svo ég hafði selt reiðinnar fár, eða öllu heldur tekið pantanir fyrir því; og var kútuppgefinn löngu áður en dagur var að kvöldi kominn. Kvöldsvalinn var í aðsigi og sólsetrið að baki okkar. Þar rís sléttan í bogmyndaðri öldu, sem vaxin er ösp og undirviði og skýlir parti af bænum fyrir vindum vetrar og kvöldsól sumars. Beygjunni fylgir járnbrautin og röð kornturnanna, og sést einn þeirra til hvorrar hliðar frá svölunum. Framundan liggur sölutorgið. Þá hverfi heimila helztu borgaranna. Og ber það helgisvip af þremur kirkjuturnum. Síðan tekur lýsigulldúkur akranna við, lengra en augað eygir út í blámóðu fjarlægðarinnar.

Á svölunum sátum við þrjú, Indverjinn, Fóstran og ég, og blésum hitamæði dagsins. Við Dohk sinn hvoru megin framdyranna. Fóstran framar og á hlið við mig. Lengi sagði ekkert okkar orð. Sessunautar

mínir voru síður en svo málhvöt að eðlisfari. Bæði höfðu íbúðir í hótelinu og var ég þeim meir en málkunnugur; en aðeins með höppum og glöppum fékk ég þau til að skrafa við mig. Gerði ég þó mitt til, að veiða upp úr þeim eitt og annað, sem snerti sögu þeirra, Steins fyrsta, annars og þriðja. Lagði meira upp úr sögusögn þeirra, en öllum vaðlinum sem ég mætti, nær og ég minntist á Steinana við aðra Samsoníta.

Dohk er kaffibrúnn á hörund og dökkklæddur, á vestræna vísu, utan svartrar strókhettu, sem hann ber á höfði, jafnt innanhúss sem utan. Að vanda hélt hann sér í Búddastillingum, eða eins nærri þeim og mannslíkaminn kemst í vanalegum setustól; og varð vart dæmt, eftir útliti hans, hvort hann var lífs eða liðinn. En á fæti hefi ég aldrei séð mann léttari í spori og liðugri í hreyfingum. Ekki varð dæmt um aldur hans af ytra útliti. Og ekki merkti ég, að hann eltist þau tuttugu ár, sem ég hafði kynni af honum. En Fóstran var gömul og grá, mjög hægfara og sí-prjónandi og hafði nú hálf-prjónaðan sokk í takinu.

Úti á götunni er ys og þys laugardagskvöldsins. Sveitarfólkið þyrpist inn í bæinn í verzlunarerindum, eða til að skemta sér, sýna sig og sjá aðra. Þannig klykkir það út vikuna nær veður og efni leyfa og vekur skarkala með málæði sínu, hlátrum og bílaskrölti. Ég er þaulvanur þessari vikuloka háreysti og dreg bara ýsur, rétt eins og sæti ég undir aftansöng. Svo dettur allur hávaðinn í dúnalogn og ég ranka við mér. Sé ég hvar allir standa í sömu sporum og glápa þegjandi á undurmikinn glæsibíl, sem brunar eftir strætinu eins og kólfi væri skotið og nemur staðar við gangstéttina framan við hótelið.

Hár maður og höfðinglegur stígur út úr bílnum. Svo vel er hann búinn að betur sæmir Broadway en Samson. Enda lítur hann hvorki til hægri né vinstri, og strunsar fram hjá okkur inn í hótelið. Mér sýndist hann kinka lítillega kolli til sessunauta minna, en merkti ekki, að Fóstran og Dohk tækju undir þá kveðju hans, hafi hún nokkur verið. Að vörmu spori kemur svo höfðinginn út, með bankastjórann í eftirdragi og leggja þeir beint yfir götuna. Þar stendur bankinn og þar fara þeir inn. Bankastjórinn hafði íbúð í hótelinu svo ég var honum vel kunnugur. Hann hafði orð á sér fyrir að vera stirður í viðskiftum og ekki greiðvikinn umfram það sem skyldan bauð. Maður sem gat tekið hann með sér orðalaust og látið hann opna fyrir sig bankann á laugardagskvöld hlaut að eiga meira undir sér en einn glæsibíl. Og ég fór að hugsa um hver hann gæti verið. Fann að persónan mundi verða mér ógleymanleg en jafnframt því óljós. Minnismynd mín af honum líktist helzt steinlíkan af Dohk með glóðarmola í augnastað . . . Vitleysa! . . . Inar mjúku og hvötu líkamshreyfingar hans áttu ekkert skylt við styttumynd . . . „Hver er maðurinn?“ spyr ég upphátt, en fæ, vitaskuld ekkert svar, frá Dohk í Jógadvala og Fóstrunni í sokknum. Svo ég endurtek spurninguna og skerpi röddina. Steinþögn. „Þetta skyldi þó ekki vera ræningi

en sonur hans þeyst um landið eins og kólfi væri skotið. En svo kom fyrir, ef fyrirtækin voru flókin og stórkostleg, að þeir sameinuðu sálarkrafta sína. Óku þá báðir í sama bílnum og sat sonurinn ætíð við stýrishjólið. Þegar heim kom úr þeim ferðum, var fátt á milli feðganna. Og það leyndi sér ekki að Mr. Samson var andlega og líkamlega af sér genginn og naut varla svefns og matar.

Kvöld eitt, snemma í nóvember, var feðganna von úr einni slíkri ferð. Það var komið fram yfir þann tíma, er þeir höfðu gert ráð fyrir að koma heim. Bleytuhríð gekk seinni part dagsins og frost með kvöldinu, þó ekki birti í lofti. „Vegirnir valda því, að þeir eru á eftir áætlun," hugsaði Fóstran, en trúði því ekki. Hvorki mennirnir né höfuðskepnurnar höfðu nokkru sinni raskað áætlunum Samson-feðga, svo hún vissi til. Og það setti að henni óró og óljósan kvíða. Það bætti heldur ekki úr, að Steinn gamli var úti með seinna móti. Fóstran var vön einverunni og prjónaði hana vanalega af sér. En í þetta skifti varð prjónaskapurinn að lykkjuföllum. Loks heyrði hún ekið upp að húsinu og inn í bílskýlið og varð svo fegin að hún lofaði guð, bæði óafvitandi og upphátt. Svo opnast framdyrnar og Steini litli kemur inn. (Í hug Fóstrunnar var hann ætíð Steini litli). Hann leggur hurðina aftur eftir sér, fer úr regnkápunni, tekur af sér hattinn og hengir hvorttveggja upp á vissan snaga, sinn snaga, í fordyrinu. Á þetta horfir Fóstran agndofa og hreyfist ekki úr spori.

„Hvað gengur að þér, manneskja?"

„Hvar er Mr. Samson?"

„Settu matinn á borðið, svo ég geti étið og komist í rúmið."

„En hann faðir þinn?"

„Hann kemur ekki heim í kvöld." Og Steini litli settist við borðið og smurði brauðsneið. Þá gerði Fóstran rögg á sig og bar inn matinn.

„Afi þinn er enn ókominn heim."

„Ég veit það. Þú þarft ekki að bíða hans."

„Er hann með föður þínum? . . . . Hvar eru þeir?"

„Þeir eru í líkhúsinu." — Þá hneig fóstran niður í næsta stólinn, sem fyrir varð og kom ekki upp orði. En Steini litli lauk máltíðinni, þurkaði sér fínlega á servíettunni og gekk til hvílu.

Fóstran sat grafkyrr í stólnum, eins og hún hefði verið lúbarin til óbóta og komu ekki prjónarnir í hug, hvað þá annað skynsamlegra. Hugsanir hennar flæktust hver inn í aðra eins og band í hespu, þegar verst gerist. Og tími og rúm lentu í sama glundroðanum: Mrs. Samson lá á sæng í líkhúsinu . . . Steini litli var að stelast út með beztu skóna sína. Og Mr. Samson sá hvað verða vildi . . . En hann var í líkhúsinu . . . dauður . . . Og Steinn gamli var þar líka. Báðir dauðir í líkhúsinu . . . Og Fóstran skimaði í kring um sig, eins og hún væri þar líka . . . Undir morgun seig á hana svefnmók, sem hún vaknaði af á mínútunni — sínum vanalega fótaferðartíma. Vaninn sagði henni fyrir verkum. Gamall vani, því hún matreiddi morgunverð og bar á borð fyrir fjóra. Sjálf hafði hún ætíð borðað í

eldhúsinu. Og að vanda var Steini litli kominn að borðinu á slaginu klukkan sjö. Hvorugt mælti orð, þar til hann var staðinn upp: „Pakkaðu pjönkur þínar, Fóstra. Ég leigi íbúð handa þér í hótelinu og sendi mann til að flytja þig. Steinhúsum verður lokað á hádegi.“ Og að augnabliki liðnu heyrði Fóstran Stein litla aka á burt.

Á hótelinu og götum úti var uppi fótur og fit. Allir voru búnir að frétta um slysið, en ekki hvernig það atvikaðist. Hafði hver sína söguna að segja, þó enginn hefði verið sjónarvottur að því. Og getspeki Samsoníta lék lausum hala um bæinn og vakti þrætur og yfirleitt alt andlega lífið. Nákvæmar fréttir fengust ekki fyrr en eftir lögskipaða rannsókn og úrskurð tilskipaðs kviðdóms. Og var frásögn **Blaðsins** svo skýr og bragðlaus, að fólk hélt sér við fréttirnar sem það hafði skapað sér. **Blaðið** sagði „alla vegi glerhála um kvöldið“ (eins og menn vissu það ekki!). „Kvartmílu frá bænum sáu feðgarnir mann á gangi í miðri brautinni.“ (Því nefndi **Blaðið** ekki Stein gamla með nafni?) . . . „Dr. Samson, Ph. D. keyrði bílinn. Og er öllum kunn skygni hans og snarræði. En er hann vildi víkja til hliðar við manninn og verja hann árekstri, hlýddi bíllinn hvorki höndum né stýri, rakst á manninn, snerist hálfhring og valt út af veginum langt inn í akur“ . . . (Haldið að hafi verið fart á þeim?) . . . Líkskoðun sýndi, að Mr. Samson var hálsbrotinn og faðir hans allur bramlaður og margbeinbrotinn. En fyrir rás viðburðanna, eða guðs handleiðslu, slapp Dr. Samson, Ph. D., með því, að stökkva út úr bílnum um leið og hann valt um koll, og komst af skeinulaust“ . . . Blaðið flutti einnig langa og merka ritstjórnargrein um Samson & Co. og lofaði „meira síðar.“ Þótti Samsonítum lítið til koma og hölluðust heldur að skoðunum, sem getspakir menn höfðu myndað sér, áður en in svokallaða rannsókn kom í spilið. En ritstjórinn hafði ekki lofað upp í ermina sína.

Eftir útför Samsonfeðganna kom blaðið út á grænum pappír og lesmál þess í skáldlegum helgistíl. Hver dálkþumlungur þess var helgaður minning Samsons gamla, syni hans og sonarsyni ásamt útfararathöfninni, svo ekki var rúm fyrir bráðnauðsynlegustu auglýsingar. En eins og ritstjórinn fullyrti síðar, var útfarar-útgáfan ein óumræðileg auglýsing fyrir bæinn og alt annað, sem við Samson-nafnið var kent. Hverjum greftrunargesti var skenkt eintak af inni grænu útgáfu, í minning um athöfnina og Samson í víðtækustu merking. Og gestirnir voru í hundraða tali, ef ekki þúsunda. Þá bar að úr öllum áttum, nokkra svo hundruðum mílna skifti og báru þeir blómsveigi. En þeir merkja sorg og söknuð. **Blaðið** fullyrti að hér hefðu gerst tvö ný ofurmet: Kostnaður við útför þessa var meiri en við allar samanlagðar útfarir Samsoníta frá fyrstu landnámstíð, að meðtöldum blómum og gasolín; og blómin, sem Samsonítar sáu þennan dag, voru meiri, fegurri og margbreytilegri en þeir höfðu ræktað í görðum sínum síðan bærinn bygðist. Út yfir alt tóku þó andlegheitin. Og kvaðst ritstjórinn ekki

treysta sér til, að leggja met á þau. Æskti þess aðeins, að mega benda á presta bæarins, þrjá talsins. Hér embættuðu þeir allir við eina guðsþjónustu og skiftu bróðurlega með sér verkum. Prestur númer eitt flutti hjartnæma ræðu um Stein Samson, öldunginn og landnemann. Prestur númer tvö briléraði á Mr. Samson, athafna- og fjársýslumanninum, sem bæri að þakka efnalegt- og guðsríkis-gengi als, sem Mr. Samson hafði hönd á lagt. Prestur númer þrjú tók námsferil Dr. Samsons, Ph. D., sér til ræðuefnis og gerðist afar mælskur, svo konur grétu. Einnig útmálaði hann átakanlega sorg og söknuð þessa eftirlifandi Samsons-sonar og sonarsonar; en ábyrgðist honum og öllum, sem syrgðu þá framliðnu, himneska huggun í bæninni. Loks óf prestur númer þrjú saman allar ræðurnar, leyfði sér að bera ina látnu vini og Dr. Samson, Ph. D., saman við ina mestu auðhölda Ameríku og þótti vel til fallið, að heiðra þá með nafnbótinni: fyrsti, annar og þriðji . . . **Í athugasemd** kvaðst ritstjórinn ekki hafa númerað prestana eftir verðleikum. Það hefði prestur númer þrjú heldur ekki gert í sambandi við Stein Samson fyrsta, Stein Samson annan og Stein Samson þriðja.

Þau andleg áhrif, sem útförin hafði á sálir Samsoníta, má marka af því, að vikum seinna kom fyrir að menn gleymdu kreppunni mínútum saman; og konur settust að kaffiborðinu glaðar og reifar, mundu ekki fyrri en þær tóku fyrsta sopann, að þar beið þeirra bara bölvað skólp. Seyði af brendu byggi.

---

## HRINGHENDUR

Sléttur titra í tíbrár glóð,
teigar hita flóinn.
Vorsins glitrar geislaflóð,
gulli litar skóginn.

Sveipar gráan sinuvöll
sólargljái ljóminn;
jarðar láin litkast öll,
lifna strá og blómin.

Prýða hól og græna grund
grös í skjóli þíðu,
njóta róleg náðarstund
nú í sólarblíðu.

Sléttan blíða blómum skrýdd
björt og fríð að vanda,
akravíð og vötnum prýdd.
Vindar þíðir anda.

**Ásgeir Gíslason**

ÞÓRODDUR GUÐMUNDSSON frá Sandi:

# Ég heyrði hörpuslátt

Ég heyrði hörpuslátt,
fann heitan andardrátt
í hríð á dimmu kveldi.
Af sólþrá sungið var,
og sáran trega bar
mörg rödd hjá rauðum eldi,
sem enduryljar þó
þá ást, sem löngum bjó
við frost og vetrarveldi.

Ég heyrði hörpuslátt.
Í hlíð var sungið dátt
á hæð og mörgum kvisti.
Þar áttu ungar hlé
sitt undir grænu tré.
Og gleði skóginn gisti.
Svo tigin trjágrein hver
sig teygði og lyfti sér,
í líf og ljósveig þyrsti.

Ég heyrði hörpuslátt.
Úr hlýrri sólarátt
bar hljóm frá þúsund munnum.
Og fossinn fögnuð jók,
og fljótið undir tók
frá hlíð og yztu unnum,
sem glaðar léku létt
í leynd við sker og klett
að þangi, hlein og hlunnum.

Ég heyrði hörpuslátt.
Í heiðið fagurblátt
steig hjartans dýri óður
frá lofts og lagar hjörð
og laufi skrýddri jörð
til lífsins miklu móður,
jafnt lofgjörð eilífung
sem andvörp tregaþung
og von hins veika bróður.

Ég heyrði hörpuslátt.
Við hvern, sem átti bágt
lét huggun gígjan fala.
Hún stælti þrek og þor
og þeirra greiddi spor,
sem draum um dáðir ala.
Jafnt erni ofar fold
sem ormi lágt í mold
þær söngvalindir svala.

Ég heyrði hörpuslátt
og hvíslað undur lágt
af hug, sem dapra gleður,
nam haustsins ramma róm,
þá rokið banadóm
sinn yfir kalvið kveður,
jafnt barnsins bljúgu vers
sem bænarandvarp þess,
er hrumur helveg treður.

Ég heyrði hörpuslátt
um hverja vökunátt
og hljóm í draumum öllum.
Mín sál varð undri yngd
og unaðsröddum kringd
við klið af kátum bjöllum,
sem enduróma gaf
um aldurtilahaf
frá lífsins Ljósufjöllum.

# Svanir á Másvatni

Mér fyrnist aldrei sú fagra sjón,
hún fékk mér svo djúprar gleði
og sál minni ljóma léði,
er leit ég syngjandi svanahjón
á sundi um blikandi heiðarlón.
Það vakti mér vor í geði.

Þau voru sem keisarahjón með hirð
og hugrakka varðsveit kringum,
en fögnuð í fiðruðum bringum.
Þar umhverfis ríkti auðnarkyrrð
í ómælanlega blárri firð,
sem vígð mundi vættum slyngum.

Um litfríðra hlíða lyng og gras
fór laufblærinn mjúkum höndum
á vatnsins víðfeðmu ströndum,
í gróandi bjarkablöðum las
hann bænir og ljóð eftir Matthías,
sem lífsanda leystu úr böndum.

Þar sungu um Steingrím stör og reyr
svo sterkan, djarfan og ungan,
en dálítið þykkjuþungan:
Með orðsins brandi, sem aldrei deyr,
hann einvíg í guðanna ríki heyr
við svæfandi sálardrungann.

Og Jónas á þessu þingi var
og Þorsteinn og Páll og Einar
og fjölmargir fræknir sveinar,
en fagran gunnfána Grímur bar,
og Guðfinna og Hulda léku þar
á hörpur, svo hrærðust steinar.

Svo meistarinn Gröndal gígju sló
og Gestur og allir hinir
vors ættarlands óskasynir;

í skýjahöll sinni Bjarni bjó,
og Breiðfjörð þandi sinn hvíta jó
— allt söngva og svana vinir.

Mig glöddu himbrimans gömlu ljóð,
er Gjallandi, Trausti og Jóhann
þau kváðu við fífuflóann.
En Stephan handan um hrannarflóð
um háloftin flaug með Kvásis blóð
og lagði mér gull í lófann.

Og þarna vorboðinn Sigurjón sveif
í syngjandi þrasta röðum
og sólskríkja hjartans frá Hlöðum.
Með arnarins vængjum Hjálmar hreif
mig hátt upp í brattra fjalla kleif
frá spörva- og steinklöppustöðum.

En stjarna Hallgríms af himni skein
á hásal bláan og víðan
og gerði hvern fjallstind fríðan.
Og Háttalykill og Liljan hrein
mig leiddu í töfranna dvergastein.
Og ég er ei samur síðan.

Og þegar ég heyri nú svanasöng
um sumar á Mývatnsheiði
og lofgjörð frá lágum meiði,
þá greiðist mér lífsins gata ströng
við gínandi flug og hamraþröng,
um úthöfin — óskaleiði.

Því ljúfur er enn og opinn sjár
og enginn á stefnu vafi,
er ljósblær leikur í trafi.
Það svífur enn yfir sundi már.
Og suðrið andar á heitar brár,
en sól yfir hauðri og hafi.

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Tvö austfirzk skáld

## afi og faðir Páls Ólafssonar

I.

Það hefur öllum mönnum verið kunnugt um langan tíma, að Páll Ólafsson var bezta alþýðuskáld Austfirðinga líklega bæði að fornu og nýju, enda eitt hið bezta alþýðuskáld landsins á sinni tíð. Hitt hafa líka margir vitað, að hann var af skáldum kominn eystra, bæði var faðir hans Ólafur allgott skáld, og líka afi hans Indriði og afabróðir Hallgrímur í Sandfelli. Aftur á móti hefur skáldskap þessara föðurfrænda hans lítt verið á lofti haldið, eða ekki, svo menn hafa gengið þess fullkomlega duldir hve mikið Páll gat í raun og veru lært af þeim. Þó hefur Benedikt frá Hofteigi skrifað alllangan þátt af Hallgrími afabróður hans í Sandfelli með dálitlu sýnishorni af skáldskap hans, en Jón Ólafsson bróðir Páls birti flest sýnishorn af kvæðum sr. Ólafs Indriðasonar í **Nönnu.** Þar er prentað hið fallega kvæði „Skrúðsbóndinn“ sem líklegast er bezt kvæða þeirra, er á prent hafa komizt eftir sr. Ólaf, ef ekki bezt þeirra allra. Í þessari grein vildi ég gjarna gefa nokkur sýnishorn af kveðskap Indriða Ásmundssonar, afa Páls. Þau bera því vitni að hann hefur verið allgóður hagyrðingur, sízt minna skáld en Hallgrímur bróðir hans, þó hann virðist hafa ort minna. Sömuleiðis sýna þau að hann, þó aðfluttur væri í héraðið, gat haldið uppi eigi aðeins alvarlegri ádeilu og sálmatón heldur líka léttum kýmnikveðskap. Í því gátu þeir bræður Hallgrímur og hann því verið arftakar Stefáns Ólafssonar.

Indriði Ásmundsson bóndi og skáld (1750—1811) var sonur Ásmundar Helgasonar á Laugalandi í Eyjafirði og Önnu Þorkelsdóttur konu hans. Ásmundur var bróðir Jóns Helgasonar er sýslumaður varð í Hoffelli 1759. Talið er að Ásmundur hafi flutt með eða skömmu eftir bróður sínum í Hornafjörð og farið að búa á Setbergi um 1755/6. Þaðan flutti hann með börnum sínum að Hvalnesi í Lóni. Þar fór Indriði, sem var eldri en Hallgrímur, að búa á móti föður sínum 1780 og fékk þá Guðrúnar Jónsdóttur frá Hlíð í Lóni. Áttu þau einn son, Ásmund, en Guðrún dó þá af barnsförum. Í Móðuharðindunum 1783/4 kolfféll fé þeirra frænda á Hvalsnesi: af 120 ám lifðu tvær, en af þrettán hestum einn, svo sem Hallgrímur segir frá í æfidrápu sinni. Fór Indriði þá með Hallgrími bróður sínum austur að Geitdal í Skriðdal. Þar bjó Sólrún Jónsdóttir, ekkja Sigurðar Jónssonar bónda í Geitdal, síðari kona hans. Þangað réðust þeir bræður og kom svo, að ástir tókust með þeim Indriða og ekkjunni Sólrúnu, en

með Hallgrími og Ingibjörgu Sigurðardóttur, sem var af fyrra hjónabandi hans. Voru brúðkaup ráðin 1785 og fóru þeir bræður þá að sækja foreldra sína að Hvalnesi. En nóttina sem þeir komu að Hvalnesi andaðist Ásmundur faðir þeirra. Móðir þeirra fylgdi þeim austur, hún var eftir hjá Indriða syni sínum og andaðist hjá honum í hárri elli á Borg í Skriðdal. Þegar austur kom var búi skipt í Geitdal: tók Sigmundur Sigurðsson, bróðir Ingibjargar, við jörðinni, en Hallgrímur fékk Þorvaldsstaði og Indriði Borg í Skriðdal. Gerðist Indriði hreppstjóri í Skriðdal og fór tvisvar með sýslumannsvöld meðan valdsmanna skipti urðu í Suður-Múlasýslu. Bjó hann á Borg til dauðadags 1811. Sólrúnu konu sína frá Geitdal missti hann eftir tíu ára barnlausa sambúð og kvæntist þá í þriðja sinn Kristínu Andrésdóttur, ættaðri úr Vopnafirði. Sonur þeirra var sr. Ólafur prestur og skáld á Dvergasteini og Kolfreyjustað; honum var komið til dvalar og a. n. l. fósturs til Páls sýslumanns Melsted á Ketilsstöðum. Ásmundur Indriðason bjó á Borg eftir föður sinn, hans dóttir var Ólöf, skáldmælt kona.

Svo er skráð að kvæði eftir Indriða sé í þrem handritum á Landsbókasafni: Lbs. 178,8vo, Lbs. 485,8vo og ÍB (hdr. hins íslenzka bókmenntafélags) 940,8vo. Fyrsta handritið náði ég ekki í, en í öðru handritinu (eða JS 485,8vo?) er kvæði sem kallast „Yngismannalýsing eða Marklýsing ungra yngissveina“ talið vera eftir þá báða bræður Hallgrím og Indriða. En í þriðja handritinu eru þessi kvæði eftir hann:

1. Klæðaburðurinn nú á öldinni, 35 erindi.
2. Aldar ásigkomulag 2 erindi. Um sama efni 1 erindi.
3. Viðvörun til vanþakklátra 21 erindi. Um sama efni 3 erindi.
4. Bending blótsömum unglingum 1 erindi. Annað sama efnis 3 erindi.
5. Um nýju Messusöngbókina 36 erindi.
6. Viðbætir sama efnis 7 erindi.
7. Niðurlag þess sama 1 erindi.
8. Yngismannalýsing eða Marklýsing ósnoturra yngissveina, 35 erindi. Viðbætir 36—38 erindi. Eftir Indriða 39—44 erindi.

Eins og fyrirsagnir bera með sér eru þetta mestallt heimsádeilur, og sumar allt annað en léttar á bárunni, þótt okkur síðari tíma mönnum kunni að þykja broslegt, hvað fór í taugarnar á þessum manni, sem lifað hafði móðuharðindin og hefði því átt að eiga ærið umkvörtunarefni. Raunar gæti ég trúað, að „Viðvörun til vanþakklátra“ sé það kvæðið, sem helzt ber mark Móðuharðindanna, en sé svo virðist bóndinn löngu búinn að gleyma því, að hann flosnaði sjálfur upp úr Lóninu. Hann talar eins og bjargálna bóndi og eins og Stefán Ólafsson gerði á sínum tíma um flakkara og lausamannalýð. Það var ekki fyrr en Einar Jónsson á Stakahjalla kom til sögu að farið var að taka svari slíkra smámenna á Austurlandi á fyrra hluta 19. aldar.

Úr „Klæðaburði nú á öldinni.“

1. Sit eg oft með sinnis þrá
sútar berst við eiminn,
þegjandi nær þenki eg á
þessa tíð og heiminn.

2. Helzt þegar eg hugsa hér
um hvað eitt sér í lagi
straffsins ótti brjóstið ber
bið eg guð mér vægi.

3. Bágt er alla að telja og tjá
takta heimsins gráu
nú þó að eg ympri á
ofurlitlu og fáu.

4. Athöfn bæði og orðsnildin
er það meira en gáta
allt er þetta orðið senn
eftir **dönskum** máta.

5. Nýjan girnist sérhvör sið
sést á lofti **frakki**
kvör ambáttin keppist við
að klæðast dönskum **stakki.**

6. Mest er praktin mátalaus
menn það viti og skoði
setja líka **hatt** á haus
herrans móti boði.

7. Við þvílíku vara tók
vel með settu ráði
sjálfur guð í sinni bók
sem að Moses skráði.

8. Hvítalín þó kosti gjald
kaupstefnurnar viður
seimabrúr ei sjást með fald
sá er lagður niður.

9. Sjá má líka marga mær
mjög í fögru skinni
**hempulausar hlaupa þær**
heilagt guðshús inni.

10. Meður þessu má eg sjá
margan stígs bjóð hafla
**treyjur bláar** tekið fá
tæpast niður á **nafla.**

11. Hágikkirnir hrósa því
að hafa ei mussu stakka
**lafir hárið** augun í
allt um kring til hnakka.

12. Dönskum skóm er tyllt á tær
telst það spánnýr siður
buxur hylja bláar lær
beint á ökla niður.

13. Þó þær nokkurn auki yl
enn ei verma kjúkur
eru hnepptar utan til
eins og byskups múkur.

14. Öll spány er aðferð sú
eins og reglur flestar
gráir, bláir, grænir nú
ganga flestir prestar.

15. Frá og til um foldar beð
fimlega gjöra að ruxa
alröndótta ég hef séð
eins og jötunuxa.

16. Í reiðkápum þeysa þeir
þvers um jarðar línu
nú þær ekki nefnast meir
nafni gömlu sínu.

17. Hjólið að sé veraldar valt
víst sem margan furði
bágt er að telja affekt allt
í þeim klæðaburði.

18. Kroppurinn ber klæðaprjál
kræstur drykk og fæðum
lýður þörfnun sveltir sál
sviftist réttum gæðum.

19. Nú ráðleggja eg vil eitt
áður en skýlist fenni
skriftina menn skoði greitt
og skyggnist vel að henni.

20. Hvör og einn sem hefur hér
helga spádóms lista
Sóphóníe kanni kver
í kapítula fyrsta.

21. Þeim eg bendi þar til með
þarfleg er sú iðja
Esaíam athugið
í þeim hinum þriðja.

22. Hvað var það sem Júðum jók
élið straffs frábæra?
Machabea máls af bók
megum vér það læra.

23. Hvör sem þar fær glöggt að gáð
greitt á allar síður
að útlenzkum vér erum bráð
orðnir hvað sem líður.

30. Fyrir því að fram svo fer
fetaður vegur breiður
guð á himnum orðinn er
ákaflega reiður.

31. Ó, að tára fljótu foss
flyti af augum gerður.
Snú þú drottinn snú þú oss
snúið oss þá verður.

32. Eg þess bið af innstum yl
oss hvað sem vill þvinga
sjálfur guð hann sjái til
sinna vesælinga.

33. Guð alvaldur forði oss frá
að fremja það hið ranga
en vísi sjálfur veg þann á
sem vér eigum að ganga.

34. Einnig þar til leggi lið
að lifa í guðrækninni
hann oss síðan haldi við
með hægri hendi sinni.

Hinar hneyxlanlegu nýjungar í klæðaburði eru apaskapur Íslendinga um aldamótin 1800. Indriði er eins þjóðrækinn í þessu og Ólafur sonur hans og Páll sonarsonur, hann fær ekki betur séð en að Íslendingar séu, hvað sem líður, að verða bráð útlenzkra, hverfa í gin Dana, vegna apaskapar. Í þessum púnkti sér hans alveg eins og Rask og Sigurður Pétursson. En hann kann ekkert ráð annað en að snúa sér til drottins.

Vaknið upp allir vaknið hér
vors guðs í nafni gjöri sér
grátandi greitt umvenda
þenkið guðs reiði er þung og ströng
þar með eilífðin er svo löng
að aldrei tekur hún enda.

Hér er nokkuð úr „Viðvörun til Vanþakklátra:“ (undir Hrakfallabálkarlagi).

1. Margt veit eg um heimsins hyski
sem hafa hvörki ask né diski
aldrei þykist ár né síð
vandra sífellt víls með stefið
víst þó hafi nóglegt gefið
helg örlætishöndin blíð.

2. Það ef nokkur þá vill rengja
og þar um heldur ræðu lengja
sendur er tónninn svars af bý
sverja sig og sárt við leggja
samt máske í nafni tveggja
ekki fer svo illa á því.

3. Menn svo skuli meira vikna
megi það á sér brenna og stikna
myndað er svo munnsins tal
heyrt hef eg það með eigin
eyrum

af einum ekki heldur fleirum
ekkert þar um ýkja skal.

4. En vörðurinn ef verður kortur
og vilji áfalla nokkur skortur
vitlausir þeir verða þá
hrína, skrækja, æpa, ýla
um guðs blessun gjöra tvíla
eins og væri hana önga að fá.

5. Stökkva þeir um ýmsar álfur
eins og úr stíu sleppi kálfur
bjargar banns með sáran són
munnsins láta málið klingja
meðaumkvun svo kannske þvingar
miklu aumri menn um frón.

6. Þessu að búnu þeir heim kjagga
þrýstinn með af föngum bagga
bundinn nett að baki sér
búnir að hætta bónar rásum
borðsálminn þó aldrei lásu
sem mýmálugra siður er.

7. Sárlegt er það sorgarefni
sízt heyrist að guð þeir nefni
nema þá sverji nafn við hans
að hylja þar með hrekki drjúga
háskalega þegar ljúga
og afla sér svo andar banns.

14. Veit eg að mörgum eykur ama
eg sem hefi hér að framan
sagt af ýmsum synda þátt
það skulu verða þó að finna
þeir sem nokkuð um það sinna
að ígrunda heimsins hátt.

15. Þó er ei partur það tíundi
af því eg hefi séð og fundið
guðlauslega ganga til
og Satan hvörnin sínum prettum
sáir niður í öllum stéttum
þunglega um þetta bil.

Í þessu virðist mér heyrast sónn bænda og betri búenda yfir ástandi í landinu eftir Móðuharðindin og ef til vill kannske líka á styrjaldarárum Napóleons, þegar siglingar Dana hafa teppst til landsins að einhverju leyti. Að þessu mun Indriði víkja beint í „Aldar ásigkomulagi“: (undir lagi: Vorið langt, verður oft dónunum).

1. Aumt ástand
orðið í heimi er
vort föðurland
að fallinu hraðar sér
andstreymið á ýmsan veg
að vill nú þrengja
minnst þó af því megna eg
með orðum lengja;
vanast brauð
veðrum af stríðum
stríðsins nauð
stjakar fast lýðum
það guð bauð
því sízt vér hlýðum
synda straffið sárt fer að
fell eg Jesús frelsari trúr
að fótum þínum
vertu oss aumum verndar múr
ver háska og pínum.

2. Er nú öld
orðin mjög dyggðasnauð
í kærleik köld
kröftuga trúin dauð
er nú Mammon orðinn guð
yfirmenn tigna
stundað er upp á arð og auð
aumir meir hnigna
þeir gjöra nú graut
úr guðs klára orði

það er þraut
því guð minn forði
en vísa oss braut
ver sálarmorði
gái nú hvör að sjálfum sér
klingir senn það kvella hljóð
komið til dómsins
úrskurð heyra þá mun þjóð
þess alvalda rómsins.

Með grautargerð „úr guðs klára orði“ á Indriði vitanlega við Leirgerði, hina „Evangelisk-kristilegu Messu-saungs- og Sálma-Bók að konunglegri tilhlutun samantekin til almennilegrar brúkunar í Kirkjum og Heima-húsum og útgefin af því Konunglega íslenzka Lands-Uppfræðingar Félagi. Leirárgörðum 1801“ af hinum ódrepandi ljóssins vin Magnúsi Stephenssyni. En Indriði er þá ekki á því að vera upplýstur á þenna veg. Eins og fleiri yrkir hann langt kvæði „Um nýju Messusöngsbókina“ og er ekki neitt myrkur í máli í því:

1. Allir þó nýjan iðki söng
ótæpt þreyti sín raddar göng
brjóst beri býsna þraut
aldrei þá arka eg skal braut
eður þann baula ljóðagraut.

2. Andagt í hönum engin finnst
anda guðs er þar lítils minnst
and . . . ei innt á mót
andinn er beðinn ekki hót
andlaus fordild þar hefur
sinn fót.

3. Eddu kenningar eru þar
Eddu . . . í hvað aldrei var
Eddu verr orða þvol
Eddu umsnúið öfugt skol
Edduskotnum fram streymt
úr bol.

4. Andskotinn fyrr meir undan stal
áður þá við Krist átti tal
atriðis orðinu þá
fram bar þrefalda freistingu
forðum tíð í eyðimörku.

5. Svo er úr gömlu sálmunum
svift í burt orðum verðugum
rétt bygðum ritning á
eg ætla það mundu allir sjá
óblindir og rannsakað fá.

6. Grautur er versti gjörður
úr þeim
gruggugum meður smekk
og keim
orð sum hvör innleidd þar
greinum frá réttum grundvallar
guðs orði sem að samhljóðar.

13. Pharísear eg forðum finn
fræðir mig um það ritningin
fyrstir fordæmdu Krist
ei skyldi enn sú leikin list
og lærðir hafa það Consepti
misst.

14. Heimspekingana öpum enn
eftir svo dansar almúginn
bölvuðum blindleik í
honum verður og hætt við því
hann ef byrgja villunnar ský.

15. Sorglegt að hugsa um
sérhvað var
seremóníur umsnúnar
Kyrie í kór aflagt
að Credó gefið alllítt agt
ágirnd framar meting og pragt.

16. Eitt það hið bezta ætla eg sé
inntakið í því Kyrie
í Credó trú sína að tjá
þýða guðdómsins þrenning á
þenki eg öllum lagt vera uppá.

17. Hallelújá ei heyrist nú
helgunum á en regla sú
útlítur aumlega
mun það ei lengur þess þurfa
að þrenningin vilji oss
miskunna?

18. Siðvana vers að syngja af stól
soddan breytni ný venja fól
sem guðs menn settu til
þótti vel haga þá um bil
það er nú metið apaspil.

19. Præfetciuna að proma nú
prýði aflögð er venja sú
Sanctus ei sint er um
á heilögum drottins hátíðum
hafnað svo dýrstu siðvenjum.

20. Söngvísan Jesú minning mæt
í mínum huga eg það græt
helg þau ei heyrast ljóð
þá herrans Jesú hold og blóð
háverðugast meðtekur þjóð.

21. Litanían til síðu er sett
soddan nú prestum virðist rétt
blessaðar bænir þar
eru gjörvallar aflagðar
um þær ei framar sinnt er par.

22. Einnin líka nú aflagðir
eru nú bænadagarnir
fagurri á föstutíð
prestar til þeirra ei passa lýð
prædikunin svo aflegst um síð.

Í þessu sem nú hefur verið prentað, hefur Indriði rakið það sem hann saknaði mest úr gamla kirkjusöngnum, en af því að hann fjölyrðir um sönginn sjálfan, er líklegt að hann hafi verið söngmaður góður, eins og sr. Ólafur sonur hans mun líka hafa verið. Að hann hafi verið trúmaður mikill og heitur má líka ráða af yl þeim sem í er kvæðinu til hins forna siðar, minnir hann þar stundum á sr. Einar í Eydölum (líklega forföður sinn?) þar sem hann yrkir um kaþólskan sið. Enn það er hvorttveggja að Indriða þykir ljósberar samtímans vera í ætt við and-Krist, enda hefur hann allljósa hugmynd um það hvert þeir muni fara eftir dauðann:

23. Er nú að lifa orðið aumt
er stig til lífsins heldur naumt
er heimsins komið kvöld
er þar með tvíllaust efsta öld
er öll guðsdýrkan dauf og köld.

33. Þið sem hafið um þanka rann
þunglega hneykslað margan
mann
sársöltum meður söng
ályktun dóms mun ærið ströng
eilífðin þar með næsta löng.

Tvö önnur kvæði yrkir Indriði um sama efni, en þó að þau séu a. n. l. betur ort af því þau eru styttri, mun þeim verða sleppt hér.

Þá er komið að eina skopkvæðinu, sem eftir Indriða liggur „Yngismannalýsing, eða Marklýsing ósnoturra yngissveina". Er talið að þetta kvæði sé eftir þá bræður báða Hallgrím og Indriða, en lýsingin á við

unga og upprennandi menn í Skriðdal á fyrstu árum (?) 19. aldarinnar.

1. Margur vill nú festa fljóð
fáheyrt má það kalla
margur hefur magnað ljóð
af meira efni valla.

2. Falar núna faldabil
flærðar margur hjassinn
öngan hlut þó eigi til
og ekki spjör fyrir rassinn.

3. Eftir hvör svo öðrum hér
apar stúlkumálum
garpar staup þó gæfi mér
eg gæti ei ort fyrir skálum.

4. Ungra manna ágætt val
er hér hægt að finna
giftinga sem girnast hjal
gulls við spöng að vinna.

5. Einn er hér við brúði brass
bragnar að honum gái
meðalmanni rúmt í rass
rekarinn trúi eg nái.

6. Þótt kjái þeir eftir kvenfólki
kann því enginn neita
mesta í veröld mannleysi
mega þeir sumir heita.

7. Heimskir, þrjóskir, hortugir
hringsól má þeim unna
sumir latir, svikulir
en sumir allfátt kunna.

8. Ef þeir komast eiga á jór
annar við má bjarga
ellegar þúfa yfrið stór
undir lyftir marga.

9. Bera þeir sig við bagga mynd
bognar kjúka og liður
lamla (lum?) skjalda leysa vind
og láta síga niður.

10. Upp á flata falda eir
þó fáum auki þægðir
ef bakþúfu ei þurfa þeir
það eru nógar frægðir.

11. Krúnuna sumir klippa breitt
og kollinn beran sýna
innar í kórinn ganga greitt
í Grallarann vilja rýna.

12. Áhyggja þó ei sé stór
athæfi sitt að tugta
þegar þeir eru komnir í kór
kannske þeim megi frukta.

13. Þá vantar gæða og vizku safn
virðar mega það heyra
þrenningar þeir þekkja nafn
og það er nú lítið meira.

14. Letrin helg að lesa frí
lízt þeim döpur iðja
oft þeir mundu ei eftir því
eilífan guð að biðja.

15. Orð ef vildir af þeim fá
út af vísdóms keri
álíka þeir eru þá
eins og klumsa meri.

16. Líka fylgir lengi með
lundum greipar mjalla
ef eigi skal þeirra espast geð
orðinu sízt má halla.

17. Upp þeir sperra gómagil
geyst með orðum þungum
sem kjafturinn er klofinn til
og kvokin ofan að lungum.

18. Það er sumra þykkju tal
þessara heiptar skauða
undan láta eg aldrei skal
opinn fram í dauða.

19. Lifi eg sem lengst og verst
og líka úr hófi éti
óþægur sem allra mest
svo enginn stýrt mér geti.

20. Verri skal eg verða þá
ef við mig að er fundið
öngva spara þrjósku og þrá
þann hef eg eiðstaf bundið.

21. Sona orðum heyrði eg hér
haga einn unga manninn
lýðum það til lærdóms er
að laga bænir þanninn.

22. Gimbrarkind að græða sér
gæðing við að auka
þeirra hugur allur er
og eignast dokku-skauta.

23. Það á vel við þeirra geð
þess ef mætti njóta
og væri gott ef verra með
vildi ekki fljóta.

24. Hvar munu vera svo í sveit
samanvaldir kallar
er siðuga teygi róms af reit
ræðu skilnings hallar (halla?).

25. Ef þeir ættu bæinn bú
börn og foldu trefla
mín er annars meining sú
þeir myndu ei orð sín hefla.

26. Virðast mundi þankaþel
þundum glana lóna
seggjum fæstum sama vel
sína þurka skóna.

27. Eg held þá vildu hávan rétt
hafa brjótar skjalda
ef að þeir núna orð ónett
yfir borðum gjalda.

28. Þá vikan liðin væri frá
að vígsluna fremdi séri
hætt er við að hringaná
úr hálsliðunum sneri.

29. Þegnar fyrr af þægri dyggð
þjónuðu yfirmönnum
en vér nógan ama og styggð
af þeim núna könnum.

30. Þýðlega Laban það eg finn
þjónaði Jakobs tilti
harðdrægur þó húsbóndinn
hans um kaupgjald villti.

31. Einnin dyggur Abrahams þjón
allvel dyggða neytti
hlýðugur síns herra bón
hvörgi út af breytti.

32. Nú er vani annar á
Ísa kominn storðu
sérhvör lifir segjast má
að sinni vild og orði.

33. Þessir flýja þegnar flest
það sem heiðurinn nærði
hegrinn vatnið hatar mest
því hann ei sundið lærði.

34. Svo er dyggða menntin mæt
mönnum þessum dulin
og stundan orðsins sykursæt
seima njótum hulin.

**Viðbætir**

35. Þar um spyrja þýða má
þilju birtings ranna
hvörnig lízt þér hérna á
hrósun yngismanna?

37. Viltu hug þeim víkja frá
og verða þeirra kona
ætlar þú að eiga þá
ellegar vera sona?

38. Svoleiðis aftur svarið stár
samið þels af rótum:
betra er að vera bleikur nár
en bindast slíkum þrjótum.

**Eftir Indriða**

39. Helgum guð á hátíðum
hafa fæstir að því gáð
þá eigum vér með englunum
eilífs guðs að prísa náð.

40. En þeir fullir upp í háls
öls með pela í vösunum
ekki stirðir mjög til máls
mjúklega hampa glösunum.

41. Inn þeir sona kreika í kór
kinkra fast á hliðarnar
er það lukka að ennis bjór
af þeim burt ei fleginn var.

42. Fast að hálsi er knúti knýtt
kinnur blána so sem hel
líntau eg má líta hvítt
lízt þér stúlka ei á hann vel?

43. Enn eru rekkar aðrir þeir
oft voru til þess rökin ljós
fá sér vilja faldaeir
fáséð henni brugga hrós.

44. Hana kyssa og faðma fljótt
fagurlega að kvöldi dags
en þegar liðin af er nótt
á hún strax að fara í rass.

Hér vantar í handritið.

Eins og áður segir dó Indriði 1811, en Hallgrímur bróðir hans lifði fram til 1846. Páll Ólafsson er fæddur 1827 svo hann gat vel munað afabróður sinn, en ekki afann sjálfan. Þó er ekki víst að þeir hafi sézt mikið, úr því Hallgrímur var bóndi í Sandfelli, Skriðdal, en Páll fæddur og uppalinn í Fjörðum á Dvergasteini og Kolfreyjustað. Þó segir Jón bróðir Páls, að Páll hafi verið sendur til náms í Vallanes til sr. Sigurðar Gunnarssonar einhverntíma á árunum 1843—45 og hefur afabróðir hans í Sandfelli þá verið enn á lífi svo þeir hafa sennilega hittst. En ekki veit ég til að Páll hafi ort um Hallgrím. Svo er að sjá sem Jón Ólafsson hafi ekki haft hugmynd um að afi þeirra Indriði hafi verið skáldmæltur, annars þykir mér líklegt að hann myndi hafa getið þess í æfisögu Páls er hann skrifaði með öðru bindi **Ljóðmæla** Páls. 1900.

Þar sem Indriði bjó á næsta bæ við kirkjustaðinn Þingmúla, er rétt að svipast um eftir því hvort nokkrir af prestum þar, samtímis honum hefðu getað unnið sér til óhelgi með hinum nýja Leirgerðarsið. Þegar þeir bræður komu í Skriðdal, mun Björn Hallason (1734—1820) hafa verið prestur í Þingmúla. Hann var sonur séra Halla Ólafssonar í Þingmúla og fór þangað prestur, þegar faðir hans dó 1767 og hélt brauðið um tuttugu ár þar til hann fór (1787) að Kolfreyjustað. Þá tók við prestskap í Þingmúla sr. Jón Hallgrímson afabróðir Jónasar Hallgrímssonar skálds. Hélt hann staðinn til 1810, er hann veiktist og fór með dóttur sinni að Hofteigi og dó

þar 1815. Þessi prestur hefur verið mjög jafnaldri Indriða og veiktist ári áður en Indriði dó. Hann er ekki líklegur til að hafa hneykslað Indriða. Aftur á móti gæti eftirmaður hans og tengdasonur, sr. Sigfús Finnsson (1783—1846) hafa gert það. Hann var útskrifaður úr heimaskóla Geirs byskups Vídalín 1806, en vígðist vorið 1809 aðstoðarprestur að Þingmúla, og fékk brauðið sama ár og Indriði dó 1811. Næstu prestaköll eru Vallanes og Hallormsstaður. Þar voru á árunum 1801—11 sr. Jón Stefánsson skáld í Vallanesi (1783—1821) og sr. Gunnlaugur Þórðarson á Hallormsstað (1792—1830). Hvorugur þessara manna virðast mér líklegir til nýunga. Er þá ekki um aðra að gera en sr. Sigfús Guðmundsson á Ási (1799—1810) og Björn Vigfússon á Eiðum (1801—30).

II.

Ólafur Indriðason (1796—1861) var skáld og prestur, lengst á Kolfreyjustað. Hann var sonur Indriða bónda á Borg og síðustu konu hans, Kristínar Andrésdóttur. Hann lærði fyrst undir skóla hjá sr. Sigfúsi Finnssyni, presti í Þingmúla, næsta bæ við Borg, þá hjá sr. Guttormi Pálssyni í Vallanesi og loks hjá Páli sýslumanni Melsted (síðar amtmanni) á Ketilsstöðum. Hann vann og hjá sýslumanni að skriftum. Hann varð stúdent úr heimaskóla Geirs byskups Vídalíns 1819 með góðum vitnisburði, en var síðan áfram á Ketilsstöðum hjá Páli Melsted. Hann vígðist 1821 aðstoðarprestur til sr. Jóns (yngra) Stefánssonar í Vallanesi og gegndi prestakallinu eftir lát hans til fardaga 1822. Næsta ár var hann settur millibilsprestur að Hólmum í Reyðarfirði. Vorið 1823 varð hann aðstoðarprestur sr. Salómons Björnssonar að Dvergasteini og bjó þar, þar til hann fór að Kolfreyjustað 1833, en þar var hann prestur til æfiloka. Sr. Ólafur var tvígiftur. Fyrri kona hans var Þórunn Einarsdóttir frá Flögu í Breiðdal. Þeirra börn voru Anna, er átti sr. Siggeir Pálsson, sýslumanns Guðmundssonar á Hallfreðarstöðum, Ólafía, er átti Björn Pétursson á Hallfreðarstöðum, Páll, skáld á Hallfreðarstöðum, Anna Þórunn er átti Þorvald Jónsson frá Dölum, Fáskrúðsfirði. Seinni kona sr. Ólafs — þau giftust vorið 1849 — var Þorbjörg Jónsdóttir, silfursmiðs í Dölum. Þeirra börn voru Jón Ólafsson, ritstjóri og skáld, og Kristrún, er fór til Vesturheims og átti Svein Björnsson alþingismanns Péturssonar.

Eftir sr. Ólaf liggur allmikið prentað, einkum guðsorðabækur og sálmar. **Sjö föstuprédikanir** komu út í Viðey 1844, en fengu harðan dóm hjá Jóni Sigurðssyni í **Nýjum Félagsritum** 1845 (V, 121), svo harðan, að sr. Ólafur fann sig knúðan til að svara með sérstökum ritlingi: **Athugasemdir á móti dóminum,** Khöfn 1847. Eftir það kom út **Nýtt bæna- og sálmakver,** Rvík 1853 (og 1884) og **Andlegt Sálmasafn,** Akureyri 1857. Auk þess komu tuttugu og sex sálmar eftir hann í Viðbæti við hina eldri Messusöngsbók (1861) og tuttugu og fimm sálmar í **Sálmabók** 1871. Það er ljóst af þessu að hann, og líklega alþýðan sem keypti,

hefur metið sálmakveðskap sinn mikils, en hugmyndir hans um það, hvernig sálmar ættu að vera, setur hann fram í „Bréfi frá Austfjörðum“ í öðru bindi **Fjölnis** (1837, 38—48), í dómi um mislukkað sálmasafn eftir Stúrmshugvekjum.

Minna fékk sr. Ólafur prentað af veraldlegum kvæðum sínum, og voru þau þó, sum hver, sízt verri en sálmarnir.

Fyrsta prentað kvæði eftir hann var um skipsstrand á Starmýrarfjörðum, „Hvör skyldi hingað sigur sækja?“, en var leitt úr hlaði af Magnúsi Stephensen sjálfum með nokkrum velvildarorðum um höfundinn í **Klausturpóstinum** 1819, II., 143. Annað kvæði eftir Ólaf á að vera í næsta árs **Klausturpósti**, en ég hef ekki fundið það. Næst mun vera „Vetrarkoman í Austfjörðum 1836“ (Blítt er sumarið farið á flótta) prentað í **Fjölni** 1837, III, 33—4. Þá nokkur kvæði í **Nönnu** I—II (1878): „Staka“ (Ef þú missir maka eða vin), „Vitnisburður“ (Margrét dóttir Magnúsar), „Veðurvísa“:

Vorið nýtt og veðrið þýtt
víðast lognið dúna
sólskin hlýtt og sumar blítt
svo er úti núna.

„Dýið“ (Það er ekki að orða), „Kjörfundarhvöt“ (Þegar þið farið að þinga . . . þá takið þér svartan seppa / og sendið hann suður á þingið / og segið um leið og hann fer: / „Þó að þú svíkir, seppi! / úr sökinni erum vér.“) „Fyrir minni tveggja þjóðfundarmanna (1861,—51?)“ (Þér sómagæddu synir lands. . . öll yður heiðri Íslands þjóð . . . en háðunginni þeki þann / er þjóðrétt vorum traðka vann / og hans á hálsi trampi), „Fyrir minni Skrúðsbónda“:

Mjög er reisugt í Skrúð
þar sem bergrisans búð
inn í brimþveginn hamarinn klýfur;
hvolfið berginu mænt
þakið gulldeplað grænt
sést í grisjaðri bjargfugla drífu.

15 erindi.

Þetta er víst bezta kvæði sr. Ólafs, enda ágætt. Það er ort undir hætti Jónasar: „Nú er vetur úr bæ,“ en áhrif frá Jónasi eru oftar sýnileg í kvæðum sr. Ólafs, ekki sízt þeim beztu. Í öðru hefti **Nönnu** er „Ljóðabréf til Kammerráðs Páls Melsteð 18. júlí 1832“ um lát Sigríðar litlu dóttur hans (Mitt er hjarta herkjum í), „Öfundin“ (Margur öfundarauga renndi) og „Meinsærið“ (Eftir Oehlenschlager: Skoðaðu hvað er ósær eiður).

Kvæði og bréf sr. Ólafs eru í mörgum (yfir tuttugu) handritum í Landsbókasafni. Þannig er „Skrúðsbóndinn“ ekki alveg heill í „Ljóðmælasafninu Snotru“ með hendi Björns Ásmundssonar frá Stóra-Sandfelli og sonar hans, en sú bók hefur komizt í hendur Sigmundar Matthíassonar Long (Lbs. 2215, 8vo). Tólf kvæði eru í Lbs. 168, 8vo með hinni fögru hendi Páls stúdents Pálssonar, sem hefur verið óþreytandi kvæðasafnari á sinni tíð (1806—1877). Hann var austfirzkur að uppruna, sonur Páls sýslumanns Guðmundssonar á Hallfreðarstöðum í Hróarstungu og konu hans Malen Örum. En hann var fæddur á Seltjarnarnesi og var lengst af í Reykja-

vík, amtsskrifari. Eitt kvæði enn „Asnabálkur“ er enn með hans hendi í Lbs. 167, 8vo, en í Lbs. 166, 8vo skrifar hann upp hinar skemmtilegu níðvísur Þorsteins tóls til Indriða: „Þetta kofort með súrum sveita / samdi kallinn hann Þorsteinn tól.“ Tuttugu og fjögur kvæði eru í Lbs. 2140, 4to skrifuð upp af Sigmundi Matthíassyni Long, hinum mesta fræðaþul, sem Austurland hefur átt á síðustu öld annan en þjóðsagnasafnarann Sigfús Sigfússon. Er rétt að minnast þess að Sigmundur var Vestur-Íslendingur um alllangan tíma, þótt hann gæfi Landsbókasafninu safn sitt. En rétt er að geta þess, að í þessu safni eru „Skrúðsbónda vísur“ heilar, „Andeyjarvísur“ (Fagurt er í Andey úti) og „Erfiljóð eftir Mad. Þórunni Einarsdóttur“ (Sit eg einn þrátt og sýti), fyrri konu sr. Ólafs, hér heil. Í Lbs. 2126, 4to, líka með hendi Sigmundar Long, eru tvö ljóðabréf, eftir sr. Ólaf ort fyrir munn dóttur hans Kristrúnar til Sigurlaugar Guttormsdóttur í Stöð (22. marz og 1. apríl 1856).

En nú er komið að stærsta safni sr. Ólafs í Landsbókasafni og merkasta, vegna þess að það er hans eiginhandarrit: Lbs. 2360, 8vo. Þetta safn komst í eigu Jóns sonar hans, síðan til Sigríðar dóttur hans, en Ágúst H. Bjarnason gaf það á Landsbókasafnið. Í syrpu þessari eru slitur af gamalli ljóðabók eftir sr. Ólaf — nálægt hundrað blaðsíðum — allmörg einstök kvæði, allstór syrpa af sálmum, nokkuð stórt brot af þýðingu úr Ossian undir fornyrðislagi og annað styttra brot af frásagnarkvæði (um kvöldmáltíðarsakramenti?) þýtt?) undir hexameter og pentameter, stirðkveðið. Í gömlu kvæðabókinni eru 52 kvæði og brot, en 17 kvæði og brot eru aftan við hana (síðasta númerið 17 eru sálmar og sálmabrot á þrem örkum).

Í gömlu kvæðabókinni eru allmargar (13) grafskriftir og erfiljóð, þar á meðal eitt um lát Sigríðar liltu Melsteð, en ljóðabréf um lát hennar skrifaði hann Páli og var það prentað í **Nönnu.** Langmerkast af erfiljóðunum, er kvæðið er hann orti eftir fyrri konu sína, Þórunni, enn undir hætti Jónasar: „Ungur var eg en ungir.“ Það er hiti ósvikinn í þessum línum:

Ung þér gafstu mér ungum
enginn vissi það lengi!
tryggðir þróuðust þýðar
þrjá vetur fjóra betur;
sjö og tuttugu síðan
samlynd í blíðu og stríðu
leiddumst unz kramur kalda
kyssta eg þig missta.

Ári síðar er sr. Ólafi enn svo heitt um hjartarætur að hann yrkir annað kvæði á ártíð konu sinnar:

Hvörjum á eg að herma
harminn mér í barmi.

Skömmu síðar mun hann hafa kvænst aftur (vorið 1849). Ekkert af kvæðum hans minnist þess gleðidags, og yfirleitt hefur hann ort mjög fá brúðkaupskvæði (ein þrjú). Af kvennalofi er ekki mjög mikið í syrpu hans, eitt kvæði: „Kvennaprís.“

Ljóðabréf eru eins fá í syrpu sr. Ólafs eins og þau eru mörg í fórum Páls sonar hans: eitt til Sveins í Vestdal (Lbs. 168, 8vo), tvö

skrifuð fyrir dóttur hans til lítillar telpu í Stöð. Vel gat Páll byrjað að yrkja ljóðabréf af því hann sá pabba sinn gera það.

Hestavísur Ólafs eru eins fáar og þær eru margar hjá Páli: aðeins tvær um sama hestinn — og undir fornhætti að dæmi St. Ól. Sr. Ólafur hefur gaman að yrkja um heimilisfólk sitt í gamni og alvöru. Þar er ein vísa um Önnu dóttur hans, tvær um Pál. (lag: Kær Jesú Kristi St. Ól)

Örlát er Anna
og ofur hjartagóð
sæld það eg sanna
soddan eiga jóð.
Börnunum hún býtir
brauðið litla sitt;
hvað sem að henni hrýtur
hálft vill verða mitt.
Eg nær borða búinn er
borðaðu, segir hún, nú með mér
þrjá og fjóra fáðu þér
og fleiri spæni kvitt.

Um Pál: (lag: Hver veit hve nær er æfi endi)

Hver skyldi hafa frægri feður
fundið en eg í þessum heim?
Þótt Indriði sé ei lengur léður
(dó 1811)
á lífi held eg Pálum tveim.
Annar ráð, gleði, athvart mitt
(Páll Melsteð)
ei nema vonin peðið hitt
(f. 23. des. 1827).

Enn um Pál:

Hver hefur byggt þér hósti sæll
háls á Páli litla?
Að þú ert svo djarfur og dæll
drenginn minn að kitla
þér skal goldið grátt
með eiturflugu utan úr Spán
að þér seiði eg brátt
þú munt fara þá með smán
þína heim í átt.

Gaman er að vísu, sem sr. Ólafur hefur ort um vinnukonu sína á Dvergasteini, sem G(unna) A. D(óttir) hét: „Sjúkdómslýsing G. A. D.:

1. Eg hef í höfði hvin og pínu
harðlífi, kipping, naflaflog,
bögglandi er fyrir brjósti mínu
bólgið lífið og hart sem trog.
Uppkasta brot og augna rið
aflleysisdyntir við og við.

2. Þó Gunna segizt þanin kvalin
þunglega bæði dag og nótt,
hún stekkur samt sem hestur alinn
hvört sem hún vill með nógan þrótt,
rakar, vefur og rær á Horn
rífast þolir og skorpukorn.

Horn er með yztu hafmiðum út af Seyðisfirði. Hér þarf ekki lengra að leita fyrirmyndar Páls að „Eg hef svo margan morgun vaknað, magaveikur um dagna.“ En hátturinn er aftur sama sálmalagið: Hver veit hve nær er æfiendi. „Prjónagaldur Þuru“ á að ná tilgangi sínum með ýkju-lýsingu eins og margt austfirzku skemmtikvæðanna og gerir það sæmilega.

1. Lof syng eg Þuru, sem þörfust er hér,

Þakklætið henni og lofgjörðin
ber;
hennar af prjónlesi frægð mikil
fer,
fúna því ei skyldi hjá mér.

2. Eina sér nýlega bjó hún til brók,
við bandinu snart fyrir mánuði
tók,
höfuð, búk, fætur, lær handleggi
skók,
handagang mikinn og skrum
jók.

3. Af liðu vikurnar ein tvær og
þrjár,
aldrei hún Þura frá prjónunum
gár,
nema þá snöggsinnis breiddist á
brár
blundurinn léttur og dásmár.

4. Kappið þó vart henni væran
leið blund,
vakti margt kvöld fram á
sjöundu stund;
um níu á morgna, þó leið
væri lund,
léku henni prjónarnir í mund.

5. Af hennar vörum fékk orð
valla neinn,
öllum hún dögunum þagði
sem steinn;
til hennar þó talaði hrund
eða sveinn;
hann mátti skrafa þar aleinn.

6. Svitinn í dropum af drósinni
rann,
dausinn að neðan í setinu brann,
andlit af rauninni umturnast
vann,
um hana mokkaðist gufan.

7. Fjórða kom vikan, hún hélt
þessum hátt,
hnigna þó daglega tók nú
um mátt;
færst menn með kappinu berja
fram blátt,
brókin varð tuttugu og þrí-nátt.

8. Hefur hún síðan rétt heilsunni
svift,
höfðinu valla frá koddanum lyft.
Hvört sem mín ljóð geta í lag
henni kippt
læt eg hér mærðar á þráð klippt.

Þessi háttur, sem virðist vera gamankvæðaháttur, minnir á „Búðar í loftið hún Gunna gekk“ eftir Jón Thóroddsen, nema hvað síðasta vísuorð er stýft. Af öðrum gamankvæðum eru tvö enn nefnandi „Gangvaðsútgerð Ögmundar (danska 1826)“:

Ögmundur hélt í hákarlsleit
hugðist að veiða krás
frosinn úr vetrar festum sleit
Flugar og setti á rás
froðaði bláan flyðrureit
þar frambrautst veiði-ás
lamdi svo öldu lasna geit
loks upp í Skálabás.

Hitt kvæðið heitir „Draummaðurinn“ og er um draugagang sem ásótti sr. Þórð Gunnlaugsson á Ási í Fellum (1831—37):

Nú er nóg í fréttum
af nýjungum að skrá,
fjandans fornu glettum
er farið að brydda á.
Upp í Fellum æði frekt
Þórður prestur þrauta kíf
þolir herfilegt.

Skyldar gamanvísunum eru drykkjuvísur Ólafs, en af þeim er líklega stærstur flokkur í safni hans (10 kvæði). Fyrsta drykkjuvísan er þó bara brot:

1. Til gleði lízt mér líf oss fengið
hve lukkan breytist það veit engi
né hvenær hann skal héðan gá.
Sjá tímar dagar árin eyðast
og er vér tökum þau hugleiða
í hasti liðu heilmörg frá:
Já, vinir stutt er stundin, já:

2. Langt meir en gull er vínið vert
þess vesæld alla sætir
einn þussa lærðan þrátt fær gert,
og þræla hjörtu bætir.
Það ungling döprum eykur móð
og öldungs vermir fjörlaust blóð.

3. Minn fulla bikar fögur og lífleg kvæði
og snoturt spaug og hugarhýrð
eg sel það ekki öll fyrir heimsins gæði
og Salómonis miklu dýrð,
því farsæld binzt við upphefð ei
og allt sig jafnar þá eg dey.

4. Til skemmtunar hjá vinum vér
nú vörpum oss í sæti
vort dagsverk bræður búið er
oss býðst nú hér til kæti
vér eydda tíð ei hörmum hót
en hressir sækjum þetta mót
og svo með djörfung syngjum vér:
Sæl veri meinlaus kæti.

5. Einu sinni að svo bar
eg í slæmum beiglum var
ill nam örbirgð þrengja.
Baal skaut í brjóst mér inn
barlóm skyldi eg senda minn
og mig í hasti hengja.

Þetta átta erinda kvæði er á öðrum stað í syrpu sr. Ólafs með dönskum lagboða eða fyrirsögn: „Det hændte sig en gang.“ Þar með liggur annað fimm erinda kvæði, „Vertu vors félags verndargyðja“ líka með dönskum lagboða eða fyrirsögn: „Vær du vaar Selskabs Skytsgudinde.“ Þessi tvö kvæði virðast því tvímælalaust vera þýdd úr dönsku og er ekki ómögulegt að svo sé um fleiri drykkjukvæðin í safni sr. Ólafs. Fleiri drykkjuvísur:

6. Drekkum, drekkum, drekkum
drekkum kætum geð
syngjum svo þar með
sorgir allar sekkjum. 3 erindi.

7. Aumt væri líf ef ást og vín
ei væri til í heimi
allt hvað gleður og eyðir pín
ýtum þaðan streymir.

8. Vér erum allir mótgangsmenn
og megum huggun þiggja
hallur er flestum heimurinn
hann sem lengi byggja
súrt þar margur saup
það er bezt að þylja brag
við þetta brúðkaup
gera sér nú glaðan dag
og gefa fýlu á staup.

Þetta þrettán erinda kvæði, sem er á lausu blaði aftan við gömlu syrpuna virðist í aðra röndina vera brúðkaupskvæði. Brúðkaupskvæði í aðra rönd er líka „Veizlan á Búrastöðum“ undir hættinum „Eldgamla Ísafold.“ Þetta tíu erinda kvæði er varla þýðing, því kippir fremur í kyn til veizlulýsinga í austfirzkum kvæðum frá því á dögum Stefáns Ólafssonar. Hér eru nokkrar vísur til dæmis:

1. Svanna sér festan fá
firða sem von er á
girnir nú geyst.
Sá mærðar máir ker
með lagi von hvörs er
ei nema tvisvar **tér**
tóm fær ei veizt.

6. Glaðir við grautarskál
gildvaxnir hefja mál:
Allt fer vel ann.
Hvör öðrum hælir dátt
héraf, því vit er smátt
allir mjög hrokast hátt
halda sig menn.

7. Sízt vill nú sérþóttinn
sjatna þá kúturinn
opnaður er.
Sem hestur sjóvatn drakk
sérhvör unz nærri sprakk
vín slokar fer á flakk
fætur skeift ber.

8. Þó strax ei þrjóti kaup
þegar þeir fá nú staup
svo fer um síð.
Smákólnar kauða geð
keskyrði hrjóta með
unz flaskan æfa réð
áflogin stríð.

Ætli nokkra nema austfirzka hesta ofan úr dölum eða Héraði hafi langað til að drekka sjó undir spreng, þegar þeir komu í kaupstað?

Náttúrulýsingar eru fáar í syrpu Ólafs. Þó er hér veðurvísa um gott vor og Impromptu um fagurt dý í fjallshlíð; bæði prentuð í **Nönnu.** Í Lbs. 168, 8vo er kvæði um Eyjafjörð eftir sr. Ólaf: „Fagur er fjörður Eyja.“ Engin kvæði um pólitík eru í þessari syrpu, og hef ég ekkert slíkt séð eftir hann nema það sem Jón prentar í **Nönnu.** Sum þeirra kunna að hafa verið skömmótt, en öllum slíkum virðist hann hafa sleppt með vilja.

Nokkur kennikvæði og dæmisögur eru í þessari syrpu, svo sem „Hinn dyggvi sálusorgari,“ sem ekki yfirgefur sjúkling sinn á sökkvandi skipi, og „Hlutkesti skáldanna,“ skemmtilegt kvæði:

1. Nær faðir himna fyrr á tímum
forlögum manna skipa réð
og hnossum jarðar harðla friðum
hinum og þessum deildi með,
skáldin voru með söng og svans
sinntu ei par um skipti hans.

2. Þá skiptin voru öll á enda
aðrir glöddust við þegið hnoss
gjörðu þau til hans grátin venda
„Guð minn, æ hverju skiptirðu oss?“
Arfar þínir þó erum vær
eins vel og hinir, faðir kær.“

3. „Já, sagði Guð, en gátuð þið ekki
gætt að því hvað í efnum var?
Átti eg að setja á ykkur hlekki?
aðrir komu til stefnunnar
hagsmuna sinna hér að gá.
Hvað voruð þið að sýsla þá?“

4. „Við skruppum út í vagninn vinda
vildum þig finna, sögðu þeir,
Í skýjum gjörðu sumir synda
suma þraut flug og duttu í leir,
nokkrir hlutu þá sælusýn
sáu glampann af ásýnd þín.“

5. Úr þessu er ennþá gott að gjöra
Guð þeim andsvara blíður vann
Í hæð skal ykkar heimur vera
— hrakskældum bjarga ei eg kann. —
Tign skal og sæla hvörs þar hæst,
sem hafið getur sig mér næst."

Trúað gæti ég að þetta kvæði væri þýtt og vafamál hvort það sé 18. aldar heimspeki eða rómantík og þó líklega heldur rómantíkin. En kvæðið „Enginn gerir svo öllum líki" öðru nafni „Asnabálkur" er því líkt að það væri eftir Æsóp eða 18. aldar heimspeki.

Hér mætti líka nefna það, sem með vissu eru þýðingar sr. Ólafs, tvö brot. Annað er brot úr þýðingu af „Nattvardsbarnen" eftir Tegnér, merkilegt vegna háttarins sem er hexameter:

Kynslóðir blómgast og burt aftur hverfa sem hjóm
og stjörnur sem bleikfölnuð blöð hrapa af himninum ofan
þúsundir aldanna er ent hafa síðustu stund
alla fótum hans við hann gætir þeirra glöggt en ei telur.
Hver er sá fyrir hans heilagri ásjónu stenzt?
Ógnarleg er umvöndun hans er hann á dómstólinn sezt.

Slakten blomstra och dö,
och stjarnorna falla fran himlen,
o. s. frv. (Esaias Tegner, **Samlade** skrifter (Stockholm 1893) I, 114).

Hitt þýðingarbrotið er úr Ossian en óvíst hvort þýtt er úr ensku eða einhverri norrænni þýðingu:

Hraut mér þá
hagl af auga.
Meyjar raust
mátti eg heyra.
Stóð eg hjá vífi
stáli klæddur
og friðar orð
flutti þannig:
Hvílík andvörp
þetta hýsir brjóst.
Vilt þú Ossian
vaðil hefja
bana bjóða
bölvaldi þínum.

Sumarið 1856 vísíteraði Helgi byskup Thordersen um Austfjörðu, kom eins og lög gera ráð fyrir að Kolfreyjustað og var svo vel tekið þar að honum þótti annálsvert. Sr. Ólafur flutti honum kvæði undir hætti Jónasar: „Hvað er svo glatt sem góðra vina fundur."

Eins og áður er sagt, sjást þess ekki merki í syrpu sr. Ólafs að hann hafi nokkurn tíma lent í kvæðastælum, hvað þá skömmum við aðra menn. Hefði sonur hans Páll lítið haft að sækja til hans í því efni, ef öll kurl kæmu hér til grafar. En grunur er mér á að sr. Ólafur hafi ekki verið svo heilagur sem hann lét og gæti eg betur trúað því að hann hafi hreinsað til í syrpu sinni og brennt skömmunum áður en hann fór í gröf sína. Ræð ég það af kvæðum, sem aðrir hafa ort um hann.

Í ljóðabréfi frá Hallgrími föðurbróður sr. Ólafs (Lbs. 178, 8vo) er vísa sem á að vera skens um sr. Ólaf er hann ætlaði að embætta í foraðsveðri í Þingmúla:

Ólafur hugði að stíga í stól
og stálgáfaða sperra upp sál
hjólið vindar hátt við gól
á hálum lofstýr gjörðist þrjál.

Sr. Ólafur svaraði:

Þótt á þig falli styggðar staur
strax ei láttu spreka gall
Hymis kvinnu sendir saur
Sandfells sletti rekkjukarl.

Þegar sr. Ólafur var á Ketilsstöðum kváðust þeir á í hálfkæringi Þorsteinn Mikaelsson í Mjóanesi og hann. Þessa vísu sendi Þorsteinn honum:

Hugsaðu mest um þína og þig
það er vandi nógur
láttu í kyrrðum kúra mig
Ketilsstaða rógur.

Ekki hef ég séð svar sr. Ólafs við þessu. En líklega hefur Páll kunnað þetta (og svar föður síns?) þegar hann kvað:

Að launa hvað þú laugst á mig
Loðmfirðinga rógur
hrykki ekki að hýða þig
Hallormsstaða skógur.

Þetta eru smámunir. En ljóðakveðja Þorsteins Gissurarsonar tól til sr. Ólafs hefur mér ávalt þótt bera það með sér að hún væri ekki kveðin út í loftið, og óhugsandi þykir mér að skáld sem fékk hana hummaði hana þegjandi fram af sér. Þorsteinn krotaði hana innan á kofortslok sem hann smíðaði fyrir sr. Ólaf (Lbs. 166, 8vo):

Þetta kofort með súrum sveita
samdi kallinn hann Þorsteinn tól
metfé veraldar má það heita
meðan leirnum er fegri sól,
því allt ranglæti eigandans
í því rúmast og brestir hans.

Ágirndar leggst á botninn blaðra
belg við öfundar lögð á mis
heiftræknis skjóða hlið við aðra
hofmóðs pakkvetið andspænis
guðleysispungar gafla við
girndin metorða þar í mið.

Ef smásynd fyllir holu hverja
svo hvergi mygla komist inn
þá hygg eg víst og þori að sverja
það er nóg klyf á vordaginn.
Góðverkaskríni þyrfti þá
því annars veit eg hallast á.

Og svar sr. Ólafs hef ég ekki séð.

☆

**Um uppruna dönsku vísnanna**

Vísurnar þrifust vel á síðara helmingi og fjórðungi 18. aldar í Danmörku. Þær hófust úr söngleikjum (aríum) — eins og „Geng ég fram á gnípu" í Skugga-Sveini Matthíasar — jukust og margfölduðust í klúbbum og félögum sem samkvæmis og selskapsvísur — eins og „Hvað er svo glatt sem góðra vina fundur" eftir Jónas — og enduðu sem þjóðsöngvar — eins og „Ó, fögur er vor fósturjörð" eftir Jón Thoroddsen.

Eftir miðja öldina voru stofnuð íslenzku félögin Sakir eða Sektir (Eggert Ólafsson 1761) og Hið íslenzka lærdómslistarfélag (Jón Eiríksson 1779). En af dönskum félög-

um er talið að Norski klúbburinn hafi verið elztur (1771 — þar í var J. H. Wessel mesta skáldið) lifði eitthvað fram um aldamótin. Drejers klúbbur var einna vinsælastur meðal Dana sjálfra á tímabilinu 1780—90 og jafnvel fram yfir aldamótin. Danska bókmenntafélagið hafði verið í sömu húsakynnum frá 1775. — Allmikill uppreistarandi ríkti í klúbbinum gegn danska aðlinum, enda var þetta á stjórnarbyltingarárunum frönsku. Í klúbbnum átu menn, drukku og sungu. Og klúbbvísurnar voru gefnar út. **Sange for Clubben, oprettet i November 1775** komu út 1787. Önnur mjög aukin útgáfa var kölluð **Samling af Klub-Sange**, til almenns brúks fyrir félög, og kom út 1792.

Þetta voru samkvæmisvísur ólíkar söngvum þeim, sem Graae hafði gefið út á Evaldstímanum (1743—81 samtímis Eggert Ólafssyni). Það voru söngvar einstaklingsins (I et vinhus vil jeg sige Farvel) þetta voru söngvar samsætis og félagsskapar (Vor Klub er dog en herlig Sag). Ást einstaklingsins á konum, víni, náttúru og frelsi er hér fyrir borð borin, en í stað hennar kemur félagsást, ölværð og ást á borgaralegu frelsi. Hvergi er einvera og náttúra eins fjarverandi og í þessum vináttu- og drykkju-ljóðum.

Oehlenschlager var félagi og söng samfélögum sínum lof á 25 ára afmæli klúbbsins. Þar nefnir hann hörpu Thaarups, þrumuraust Schneeforffs, hljómstríðu Prams, lágkúru Rahbeks, hita Storms, matargleði Todes. Og enn átti Oehlenschlager eftir að taka þátt í 50 ára afmælisfagnaði klúbbsins, en eftir það mun klúbbnum hafa farið að hnigna.

En þótt lágkúrulegur væri — eða kannski af því — var Knud Lyhne Rahbek mjög miðbiks í vísnakveðskap áttunda og níunda tugar 18. aldarinnar. Eftir hann er „Drankerromancen", „Det hændte sig en gang", sem sr. Ólafur hefur þýtt. Vel mega fleiri drykkjuvísur Ólafs vera eftir Rahbek eða úr vísnabókum klúbbanna, en þær hafa án efa borizt til Íslands. Líklegt er að Jón faktor Stefánsson á Djúpavogi hafi þýtt drykkjuvísur sínar og kvæðið um Evu úr slíkum söngbókum. Með vissu hefur hann þýtt úr dönsku drykkjuvísuna „I et Vinhus vil jeg sige Farvel", sem hér er talin af eldri gerð en hinar klúbbvísurnar. Þá er ekki síður líklegt að „Ó, eðla flaskan fríða," sem Jón hefur þýtt og austfirzkir karlar kunna enn lag við sé úr slíkum söngvasöfnum.

Þess má geta að lokum, að bragarhátturinn (og lagið) „Ó, fögur er vor fósturjörð" kemur fyrir í þessum dönsku klúbbvísnabókum — líka í vísu eftir Rahbek: „Der var en gang en tapper Mand."

Upplýsingarnar um dönsku vísnabækurnar eru hafðar úr **Illustreret dansk Litteraturhistorie** II, eftir Carl S. Petersen og Vilhelm Andersen, í grein um samtímamenn Jens Baggesens, vísurnar og Rahbek bls. 891, 896, 898, 1061. Bellman er samtímamaður vísnaskáldanna í Danmörku og þó dálítið eldri (1740—95). Á hans dögum (1760) var ein knæpa fyrir hverja 100 íbúa í Stokkhólmi.

P. S. PÁLSSON:

# Við legstað Guðr. Ósvífursdóttur

## AÐ HELGAFELLI

Þótt mörg hundruð ár séu milli okkar nú
og margt sem oss skilur í venjum og trú
um útvortis upp-tekna siði,
þá stend ég nú hugfanginn hér við þann stað,
er harmþrungin „Saga“ reit niðurlags-blað
um þig, sem ert „farin í friði“.

En lands-venja samlífs þíns lagði á þig
það lögmál, er nútíð ei festir á mig:
um iðrun og eilífs lífs missir,
að virðing og sálar-frið safni hann bezt,
er syndirnar játi og biðji um frest,
og hrís-vendi kirkjunnar kyssir.

Ég sé þig í anda, í æsku er hann
þér eiðinn um trúnað svo fagurmáll vann,
þinn draum-sveinn og hjarta þíns hlynur.
Þín ást var svo hrein og svo örugg og frjáls,
er armana mjúku þú vafðir um háls
og intir, „Ég elska þig, vinur“.

En unnustann kæra, sem eiðinum brást
í armlögum kviklyndrar meyjar þú sást.
svo illa var ást þinni goldið:
með heitrofi, lausmælgi, lygi og smán.
Það lá þér á hjarta það hamingju-rán,
er sveik bæði sálina og holdið.

En skapgerð þín reis líkt og rokvakin hrönn,
þín reiði steig hátt yfir daganna önn,
en afbrýðin eldana kynti.
Svo vegna þess alls sem að innra þér bjó
var afslíðrað sverðið er frumver þinn sló.
En logunum kviku ei linnti.

Og bálið það óx, og það brenndi og svall,
og boðaði köppunum hamingju-fall.
Þú Guðrún varst grimmlynd og vitur.
Er Harðbeinsson þerraði bónda þíns blóð
á brjóstum þér, herliðið orðvana stóð:
Hans grimd var svo gráleg og bitur.

Hann galt þess að vonum. Þín tár voru tæmd;
en trú þín á hefndir, og bónda þíns sæmd,
þér fylgdi frá morðingja-móti.
Þeir vissu að brimið sem braust þér í sál
að bana þeim yrði, þótt stilt væri mál.
Það blikaði rún á því róti.

Uns hefndum var fullnægt þú fanst ekki ró,
en frum-ástin rótfest í hjarta þér bjó,
og sorgin, til síðustu stundar.
Nú fullnægt er öllu, og fúin þín bein,
í friði og alsælu hvílir þú ein.
Þú blundar, þú blundar, þú blundar.

1954.

---

HJÁLMUR F. DANIELSON:

# Kynning Gullaldarrita Íslendinga út á við

**„Í bókum býr sál allra liðinna alda, alskýr rödd fortíðarinnar."**
—Thomas Carlyle

I.

Nú á tímum er það viðurkennt á meðal allra þjóða hins siðaða heims, að á Íslandi var tendrað það blys sem lýsti upp bókmenntalegt miðaldamyrkur Evrópu þjóða. Það er því vel viðeigandi að staldra við og gera sér grein fyrir því hvernig það atvikaðist að fornbókmenntir Íslendinga voru gerðar kunnar öðrum þjóðum. Það er á vitund allra manna er nokkur kynni hafa af sögu íslenzku þjóðarinnar, að maðurinn sem kom þessu kynningarstarfi af stað var síra Arngrímur Jónsson lærði. Á meðal erlendra, menntaðra manna er Arngrími skipað á bekk með frægustu Íslendingum á sviði bókmenntanna. Kynningarstarf hans á fornritum Íslendinga leiddi til þess, að fornritasöfnun byrjaði fyrr en ella hefði verið, en það mátti ekki seinna vera; það voru síðustu forvöð til að bjarga handritunum áður en mikið af þeim eyðilagðist af vanhirðingu á heimilum, eða var af ásettu ráði þröngsýnna kennimanna kirkjunnar brent fyrir þá sök, að það væru heiðnar bókmenntir. Sem dæmi má geta þess að laust eftir árið 1600 var hrúga af fornritum brend á Helgafelli.

Um þriggja alda bil frá því er fyrstu landnemarnir komu til Íslands árið 874, var fornfræði geymd í minni manna frá einni kynslóð til annarrar, en síðan skráð í skinnbækur, á tólftu og þrettándu öld. Þessar skinnbækur voru síðan afritaðar bæði í klaustrum og á sveitaheimilum, um land allt. Þannig urðu þessi fornrit eign æðri sem lægri; ríkra sem fátækra. Þessi handrit og hin afar mörgu afrit af þeim, voru almennt lesin af ólærðum sem lærðum á öllu landinu um aldaraðir. Það var þessum bókmenntum að þakka, ásamt legu landsins, að gamla norska tungumálið var varðveitt aðeins á Íslandi, og að það varð ekki dautt tungumál eins og sanskrít, gríska, latína og önnur tungumál, sem heimsins merkustu fornaldar bókmenntir eru skráðar á.

Arngrímur var afkomandi mikilhæfra manna. Hann og Guðbrandur biskup voru náfrændur; þeir voru tvívegis að öðrum og þriðja, bæði í föður- og móðurætt Arngríms. Foreldrar hans voru Jón Jónsson, og kona hans Ingibjörg Loftsdóttir, sem bjuggu á Auðunnarstöðum í Víðidal. Margir af afkomendum Arngríms

voru mikilhæfir menn á Íslandi. Tveir af barnabörnum hans systkinasynirnir, Jón biskup Vídalín (1666—1720), sem var álitinn að vera málsnjallastur af kennimönnum kirkjunnar, og Páll lögmaður Vídalín voru frægir menn. Arngrímur fæddist á Auðunnarstöðum árið 1568. Hann var aðeins átta ára gamall, þegar hann missti föður sinn, en hann fórst í stórhríðarbyl á fjöllum þá er hann reyndi að bjarga hjörð sinni úr voða.

Guðbrandur biskup tók Arngrím frænda sinn að sér þegar hann missti föður sinn. Það var hið mesta lán fyrir Arngrím; fyrir Íslendinga, og fyrir germanskar þjóðir að Arngrímur var alinn upp á biskupssetrinu á Hólum í Hjaltadal; í því umhverfi lærdóms og menningar. Biskupsstólsins var að verðugu minnst á gamla biskupssetrinu, á 850 ára afmæli hans þann 19. ágúst síðastliðinn. Hans var minnst sem eins af allra söguríkustu stöðum á Íslandi. Í sambandi við það var minnst sérstaklega nokkurra þeirra manna sem með verkum sínum juku frægðarljóma staðarins. Af þeim var fyrst getið Jóns biskups Ögmundssonar, sem byggði dómkirkjuna og skólann sem hann stofnaði með nokkrum kennurum. Svo vandaður var hann og göfuglyndur að eftir lát hans gerðu Íslendingar hann að dýrðlingi og nefndu hann Jón biskup helga, en óvíst er að sú ráðstöfun hafi viðurkennd verið af hinum kaþólska páfa í Róm. Á Hólum starfaði Jón biskup Arason, sem var mesti og bezti þrándur í götu fyrir órétti, kúgun og ofbeldi Dana á sinni tíð. Hann setti á stofn fyrstu prentsmiðju landsins, og þar var um langt tímabil uppspretta kirkjulegra bóka og rita er veittu kristilega uppfræðslu allri þjóðinni. Þeim stað helgaði Guðbrandur biskup Þorláksson alla starfskrafta sína. Var hann kallaður faðir kirkjulegra bókmennta Íslands. Hann þýddi Gamla testamentið og gaf út Biblíuna. Biskupssetrið á Hólum var fæðingarstaður síra Hallgríms Péturssonar, náfrænda Guðbrandar biskups. Þar fékk Hallgrímur sína undirstöðu menntun, sem hann hefir áreiðanlega búið að alla sína lífstíð. Hann var, ef til vill, heimsins mesta siðgæðis- og trúarskáld. Um hann kvað Matthías skáld:




**Síra Arngrímur Jónsson**
(24 ára gamall)

„Trúarskáld, þér titrar helg
og klökk
tveggja- þriggja alda hjartans þökk!
Niðjar Íslands munu minnast þín
meðan sól á kaldan jökul skín.“

Í fremstu röð þeirra manna, sem gerðu garðinn frægan má telja Arngrím Jónsson, því á Hólabiskupssetri var hið merka æfistarf hans unnið; þar ólst hann upp; þar stundaði hann nám í átta ár. Svo sigldi hann til Kaupmannahafnar þar sem hann stundaði nám í fjögur ár. Á þeim árum sem hann dvaldi í Kaupmannahöfn kynntist hann mörgum ágætum mönnum, er hann síðar hafði ýms skifti við. Að loknu námi kom hann til Íslands árið 1589, og var honum veitt um haustið, rektors staðan á Hólaskóla. Þeirri stöðu hélt hann í sex ár.

Árið 1590 var Arngrímur vígður til prests, en honum hafði, árið áður, verið veittur, af konungi, Melur í Miðfirði. Eftir prestsvígslu gerðist hann kirkjuprestur á Hólum, en þau ár sem hann hafði aðsetur á Hólum hélt hann prest til að þjóna Mel.

Þegar Arngrímur tók við rektorsstöðu á Hólum var honum þannig lýst:

„Var hann bæði hinn fríðasti sýnum, kurteis í framkomu og þó hinn tígulegasti, snjall í máli og laginn. Var svo fas Arngríms og alúð í framkomu, að hann virtist hverjum manni vel. Sýndist sem menn hafi nær dregist að honum fyrir sakir þokka sem af honum stóð.“

Sökum langvarandi vanheilsu Guðbrandar biskups, fór hann þess á leit við konung að Arngrímur væri settur aðstoðarmaður sinn í biskupsembættinu. Var það mál auðsótt, og Arngrímur var, af konungi, skipaður til aðstoðar Guðbrandi biskupi með bréfi dagsettu þann 28. apríl 1596. Prófastsdæmi fékk Arngrímur um þær mundir um Húnavatnsþing, árið eftir. Einlægt vináttuþel ríkti milli Guðbrandar biskups og Arngríms, sem sýndi sig í því, að þegar Arngrímur gerðist aðstoðarmaður biskups gaf Guðbrandur honum, eins og í sumargjöf, stórbýlið Holt í Fljótum með Saurbæ.

Var nú Arngrímur önnur hönd biskups í mörg ár, þar til biskup féll frá árið 1625. Var Arngrímur þá útnefndur biskup, en þeirri stöðu hafnaði hann. Hafði hann allareiðu mikið annríki við skrifstörf, eins og síðar er skýrt frá. Þorlákur Skúlason, dóttursonur Guðbrandar biskups, var kjörinn biskup, en þar eð hann var ekki vígður fyr en eftir þrjú ár, skipaði konungur Arngrím með bréfi dagsettu 8. nóvember 1625, og síðar öðru dagsettu 31. marz 1626, til að sinna öllum eiginlegum biskupsstörfum öðrum en ráðsmensku staðarins, en þann starfa hafði Halldóra dóttir Guðbrandar á hendi með aðstoð ráðsmanns. Flutti þá Arngrímur að Melstað 1628 og sat þar, þar til konungur veitti honum Miklabæ í Blönduhlíð, 4. júní 1630. Átti hann þar heimili lengst af upp frá því.

Það var ekki fyrr en undir lok sextándu aldar sem Evrópu-þjóðir fengu nokkrar ábyggilegar upplýsingar um Ísland, íslenzku þjóðina og fornbókmenntir hennar. Þrátt fyrir þessa fávísi létu nokkrir erlendir rithöfundar það ekki aftra sér frá því að skrifa og gefa út bækur og bæklinga um landið og Íslendinga. Þeir afskræmdu allt sem þeir skrifuðu um það, og jafnvel spunnu upp lygasögur um land og þjóð. Íslendingar urðu þessu sárreiðir, og

fannst leiðandi mönnum brýn þörf á að hrekja þessi ósannindi, sem rit þessara óprútnu rithöfunda dreifðu út um heiminn. Þetta vandaverk var falið Arngrími, sem allareiðu hafði unnið sér mikils álits fyrir lærdóm sinn og hæfileika. Hann var á þeim tíma álitinn einhver lærðasti maður á landinu.

Arngrímur tók rösklega til starfa, og naut hann stuðnings og hvatningar Guðbrandar biskups, sem var manna reiðastur yfir ritum útlendinga. Samt sem áður naut ekki Arngrímur prentsmiðjunnar á Hólum til að prenta bækur sínar og rit, vegna þess að prentsmiðjan var notuð eingöngu til að prenta kirkjuleg rit.* Arngrímur varð því að senda öll sín ritverk, nema eina bók, til útlanda til prentunar. Reyndist það seinlegt verk að hrekja óhróður útlendinga þar sem hafskip komu til Íslands aðeins vor og haust. Sum handrit hans fóru með skipum, sem sjóræningjar tóku, og sum týndust eða brunnu. Þrátt fyrir allt ritaði Arngrímur þindarlaust. Allar sínar bækur ritaði hann á latínu, bæði til þess að menntamenn í öllum löndum gætu lesið þær og svo var það almennt meðal rithöfunda á þeim tíma að skrifa bækur sínar á latínu.

Í fyrsta flokki þeirra bóka, sem Arngrímur skrifaði til þess að hrekja óhróður erlendra manna, voru þrjár bækur: **Brevis Commentarius de Islandia**, gefin út í Danmörku 1593; **Anatome Blefkeniana**, prentuð á Hólum 1612, og ári síðar í Hamborg á Þýzkalandi, og **Epistola pro patria defensoria**, gefin út í Hamborg á Þýzkalandi 1618. Í þessum bókum voru meðal annars ábyggilegar upplýsingar um Ísland, íslenzku þjóðina og fornbókmenntirnar. Evrópumenn sem lásu bækur Arngríms, stórfurðaði á því að smáþjóð sem barðist við að draga fram lífið á hrjóstrugri eldeyju norður við íshaf, hafði auðnast ekki eingungis að viðhalda gamalli tungu — heldur og að rita á þeirri tungu stórmerkilegar bókmenntir, sem lýstu upp margra alda bókmenntalegt rökkur Evrópu þjóða. Urðu nú lærðir menn forvitnir mjög og sólgnir í að vita hversu mikið væri til af fornbókmenntum á Íslandi. Beiðnir komu til Arngríms um meiri upplýsingar. Snerist hann vel við því máli og ritaði hina merkilegu bók, **Crymogæa** (þ. e. Ísland) og gaf út í þremur bindum sem prentuð voru í Hamborg 1609, 1614 og 1630.

Fyrsta bindið var 110 bls. í tveggja arka broti. Það fjallaði um lengu Íslands, hnattstöðu og lýsingu á landinu. Annað bindið var 85 bls. í sama broti. Birti það útdrætti úr sögu helztu landnámsmanna, ásamt ættartölum. Þriðja bindið fjallaði um seinnitíðar íslenzka merkismenn, og konungatal frá fornöld til Kristjáns Danakonungs IV. Árið 1625 þýddu Englendingar og gáfu út sjö fyrstu kapitulana úr Crymogæa.

Eftir ritum Arngríms að dæma, var nú Evrópumönnum augljóst að á Íslandi var afarmikill bókmenntalegur fjársjóður, sem upplýsti sögu

---

*Jón biskup Arason (1478?—1550), hinn síðasti kaþólski biskup Íslands, setti upp prentsmiðju á Hólum 1530. Þar voru prentaðar kirkjulegar bækur og rit að tölu 85 frá 1574 til 1624. Um aldur Jóns Arasonar er hér farið eftir rannsóknum Kl. Jónssonar. Sjá Skírnir 1920 bls. 19.

Evrópubúa, trú forfeðra þeirra, lög og siði.

Arngrímur tókst ferð á hendur til Kaupmannahafnar haustið 1592 í erindagerðum fyrir Guðbrand biskup. Þar hafði hann vetursetu og endurnýjaði kunningsskap við ýmsa skólabræður sína og kennara. Margir sóttust eftir að fræðast af honum um fornfræði. Arngrímur fræddi þá um margt er snerti Ísland, Íslendinga og fornbókmenntir þeirra. Á næsta ári skipaði Kristján konungur IV. (1588—1648) prófessor Niels Krag til þess að rita sögu Dana. Krag tók á móti handritum sem Söguritarinn Andrés S. Vedel hafði safnað á því tímabili sem honum var falið það starf. Meginið af þeim handritum var verk Arngríms. Krag komst bráðlega að því að þau gögn sem nauðsynleg voru til þess að framkvæma þetta verk voru út á Íslandi. Vitanlega hafði **Saxo Grammaticus** (1114—1206), ritað sögu Dana í sextán bókfells bókum, **Historica Danica**, sem náði fram til 1186, en hún var ekki talin nema að nokkru leyti ábyggileg.* Niels Krag skrifaði Arngrími og fór þess á leit að hann safnaði á Íslandi fyrir sig gögnum sem snertu sögu Dana og sendi sér handrit þess efnis. Arngrímur svaraði honum að Íslendingar væru tregir á að láta frá sér handritin, sem þeir hefðu varðveitt í mörg hundruð ár sem dýrmætan fjársjóð; þau væru þaullesin á öllum heimilum á landinu.

Þar eð Arngrímur hafði aðgang að íslenzkum fornritum, skipaði Danakonungur hann þann 17. apríl 1596 sem aðstoðarsöguritara Dana. Ennfremur sendi konungur skipunarbréf til Íslendinga þess efnis að þeir skyldu aðstoða Arngrím við verk hans með því að lána honum bókfellsbækur og rit, er snertu Sögu Dana.

Arngrímur var nú laus við rektorsstöðuna, en var aftur á móti aðstoðarmaður Guðbrandar biskups, sem var, eins og að ofan er sagt, óhraustur. Tók hann nú rösklega til starfa, safnaði gögnum fyrir sögu Dana, rannsakaði heimildir og samdi næsta sumar tvær bækur á latínu, fremur litlar; Sögu Orkneyja og Sögu Svíþjóðar (sem undirstöðu undir Sögu Danmerkur). Þetta gerði hann til þess að hafa sem víðáttumest svið í huga áður en hann ritaði Sögu Dana. Bækur þessar sendi hann með haustskipinu til Danmerkur árið 1596. Árið eftir ritaði hann Sögu Noregs og Sögu Danmerkur; tvær stórar bækur í bókfellsbandi. Hann sendi þessar bækur til Níels Krags um haustið, og gat þess að árangurinn væri naumast virði verksins. Til þess að safna efni í þessar bækur varð hann að

---

*Alfræðibókin "Americana" hefir þetta að segja um Sögu Saxa: „ . . . hinar fyrri bækur bera mikinn keim af ímynduðum frásögnum úr fornsögum Danmerkur. Fyrstu níu bindin geta naumast kallast ábyggileg." Arngrímur notaði eingöngu íslenzk fornrit við samningu bóka sinna. Við samningu Sögu Dana notaði hann Knytlingasögu, Skjöldungasögu, Heimskringlu og aðrar konungasögur, ásamt atriðum úr Íslendingasögunum. Handrit Saxa voru týnd í 300 ár, en komu loks í leitirnar árið 1500 og voru þá fyrst gefin út. Fyrstu níu handritin voru þýdd á ensku og gefin út í tveim stórum bindum af **Norroena Society** 1907, í safninu "Norroena Anglo-Saxon Classics." Í safninu eru 15 stór bindi, og voru níu af þeim þýdd úr íslenzku. Flestar með ítarlegum formálum ásamt löngum athugasemdum.

lesa tuttugu og sex skinnbækur sem tilheyrðu Hólastað, auk margra bóka, sem hann fékk að láni og skilaði aftur. Efnið varð hann að sjóða saman og skrifa það svo á latínu.

Próf. Krag var staddur í útlöndum þegar tekið var á móti bókunum. Þeim var komið fyrir í háskólabókasafninu, en brunnu allar í eldhafi Kaupmannahafnar haustið 1728 Svo heppilega vildi til, að einhver fræðimaður hafði afritað allar bækurnar og að þau afrit voru vel varðveitt.

Upp frá þessu ritaði Arngrímur mikið í hjáverkum sínum. Meðal annars ritaði hann bók á latínu um Grænland, landnám Eiríks Rauða og fund Vínlands. Þessi bók var ekki prentuð fyrr en hún var þýdd á íslenzku og gefin út í Skálholti árið 1688 og nefnd „Grænlands Saga". Þormóður Torfason (Thormod Torfæus,1636—1719), innlimaði þessa bók í bók sína, er hann ritaði í Noregi og kallaði: „Gronlandia". Á meðal annara bóka, sem Arngrímur skrifaði var „Jómsvíkingasaga", Latínu málfræði og "Specimen Islandiæ Historicum", skrifuð 1635, en prentuð í Amsterdam í Hollandi 1643. Einnig skrifaði hann ágrip af „Heimskringlu" og „Hauksbók".

Óli Worm, hámenntaður Dani, sem hafði aflað sér mjög víðtækrar menntunar í ýmsum Evrópulöndum, var skipaður söguritari Dana næst á eftir Níels Krag. Samband hans við Arngrím hófst 1626. Æfilangt vináttuband tengdi saman þessa tvo áhugasömu menntamenn. Eins og bréf þeirra bera órækan vott um, kunnu þeir vel að meta hvor annan. Ennfremur bera bréf Óla Worm vott um það, að hann hafði mikið álit á Arngrími sem fornfræðingi. Leitaði hann oft til hans í sambandi við sín eigin ritverk, og jafnvel sendi handrit til hans til yfirvegunar og leiðréttingar. Þar á meðal sendi hann Arngrími handrit, sem fjallaði um fornt rúnaletur.

Arngrímur ritaði ekki með því augnamiði að græða á því. Þvert á móti, ritstörf hans og útgáfa bóka kostuðu hann töluvert fé, og sökum annríkis við ritstörfin varð hann að ráða aðstoðarprest á sinn eigin kostnað. Úr þessu bættist nokkuð þegar Dana konungur, í viðurkenningarskyni fyrir ritstörf hans í þágu Dana, veitti Arngrími afgjaldalaust tekjur af sjö kirkjujörðum í Hólabiskupsdæmi. Þó þetta gerði skarð í tekjur Þorláks biskups Skúlasonar, er ekki að sjá að það drægi neitt úr vináttusambandi biskups og Arngríms.

Upplýsingastarfi sinu í þágu Íslands og annara Norðurlandaþjóða hélt Arngrímur stöðugt uppi þar til hann féll frá árið 1648, þá áttatíu ára gamall. Í bréfi sem Þorlákur biskup skrifaði Óla Worm, 10. september 1648, kallar hann Arngrím „Ljós Íslands", og efar að Ísland eignist nokkurn tíma hans líka. Í svari sínu segir Worm að nú hafi Ísland misst annan Snorra Sturluson.

Þeim sem njóta hinna stórvægilegu þæginda og tækni nútímans veitist e. t. v. örðugt að gera sér í hugarlund hve stórbrotnu starfi Arngrímur afkastaði, er á allar að-

stæður er litið. En það gengur kraftaverki næst, því bókmenntarannsóknir hans og ritstörf voru unnin mest í hjáverkum og við hin frumstæðustu kjör. Maður getur séð hann í huganum þar sem hann situr við skrifborð sitt og gleðst við langan sumardag þá er miðnætursól norðanlands aðeins dýfir sér í hafið og rís um leið til þess að færa allri tilverunni nýjan þrótt. En þegar skammdegismyrkur hins langa vetrar grúfir sig yfir lög og láð situr fræðimaðurinn enn við ritstörf sín, þótt dapurt dagsljósið gægist aðeins stutta stund yfir fjallsbrúnina. Áhugi hans dvínar ekki; hann gefur ekki árstíðunum gaum, hvorki nótt né degi; álútur og önnum kafinn grúskar hann í hinum gömlu skinnskruddum; rekur máðar rúnir þeirra og ritar í ákafa í kaldri, dimmri stofu, sem upplýst er með litlu grútarljósi.*

Hin göfuga hugsjón Arngríms var sú að veita hinum menntaða heimi vitneskju um það bezta, sem Ísland hafði að bjóða. Og þetta tókst honum að miklu leyti. Sá fjársjóður, sem mestan frægðarljóma hefir veitt Íslandi eru fornbókmenntir þjóðarinnar, og Arngrímur Jónsson var sá sem fyrstur manna lagði grundvöllinn að þekkingu íslenzkra fræða erlendis.

II.

Starfið að kynna erlendum þjóðum fornbókmenntir Íslendinga naut aðstoðar ýmsra menntamanna, bæði á Íslandi og í öðrum löndum, á tíð Arngríms og eftir hans dag. Takmarkað rúm leyfir ekki að geta allra þeirra sem léðu lið sitt þessu þarfa verki. Á meðal þeirra manna má telja síra Magnús Ólafsson í Laufási, Þorlák biskup Skúlason, síra Svein Jónsson á Barði, Guðmund málfræðing Andrésson, Runólf rektor Jónsson, síra Stefán Ólafsson í Vallanesi, og í vissum skilningi Brynjólf biskup Sveinsson, sem safnaði miklu af handritum og réði menn til að afrita forn handrit. Í Danmörku störfuðu Óli Worm og Peder H. Rosen af miklum dugnaði og áhuga að sama markmiði. Íslendingurinn Jón Rúgmann var stríðsfangi Karls tíunda Svía konungs, og var það mikið happ fyrir Svía að ná honum til sín, því hann var fyrsti maðurinn, sem vakti áhuga þeirra fyrir bókmenntafjársjóðum Íslendinga. Árið 1661 sendu Svíar hann til Íslands til að kaupa fornrit fyrir fornritasafnið í Stokkhólmi.* Síðar réðu Svíar Íslendinginn Guðmund Ólafsson til þess að þýða íslenzk fornrit. Einna mestan áhuga við að kynnast íslenzkum fornritum og útbreiða þekkingu á þeim sýndu Svíarnir Ólafur Verelíus og Ólafur Rudneck.

**Þormóður Torfason** var skipaður konunglegur söguritari Dana árið 1667. Hann þýddi mörg íslenzk fornrit á latínu, sem að vísu voru aldrei prentuð. Síðan var hann sendur sem konunglegur fulltrúi til Noregs, sem þá var í sambandi við Danmörku. Hann hafði ævilangt aðsetur á aðals-

*Steinolíuljós var ekki uppgötvað til almennra nota fyrr en um 1860.

*Próf. N. Ludlow Beamish: "The Norse Discovery of America."

setrinu Stangeland í Stafangri. Þar starfaði hann við að safna, rannsaka og þýða á latínu íslenzk fornrit. Samt sem áður var aðeins eitt af þeim ritverkum gefið út; Saga Noregs fram til 1387 (Historia Rerum Norwegicarum) í fjórum bindum sem voru gefin út 1711.

Í Sögu Íslands eftir Gjerset, þar sem hann ritar um endurreisn bókmennta Íslendinga, telur hann þrjá menn í einu lagi: Arngrím Jónsson, Þormóð Torfason og Árna Magnússon. Þetta getur valdið misskilning lesandanum, því Arngrímur hafði starfað í fimmtíu og sex ár, þegar Þormóður var aðeins fjórtán ára gamall, og Árni Magnússon fæddist fimmtán árum eftir að Arngrímur féll frá. Arngrímur hafði þannig starfað í meira en hálfa öld að endurreisn íslenzkra bókmennta án aðstoðar hinna, og búið í haginn fyrir eftirmenn sína. Þetta virðist skerða réttmæta viðurkenningu á starfi Arngríms. Og ennfremur er annað atriði: þar sem Gjerset segir að Þormóður Torfason hafi skrifað Orkneyja Sögu, Noregs Sögu og Grænlands Sögu, en eins og að framan er getið var Arngrímur allareiðu búinn að búa undir þetta verk Þormóðar með því að skrifa bækur um sama efni, og hafði Þormóður aðgang að þeim bókum.

**Árni Magnússon** (1663—1730) var konunglegur Fornritafræðingur í Kaupmannahöfn og einkaritari Thomas Bartholins Söguritara Dana. Hann er frægur fyrir handritasöfnun sína og starf í sambandi við Fornfræði. Sumt af þessum handritum og skjölum lenti á safni í Svíþjóð, sumt týndist með skipum sem fórust og mikið brann í eldinum mikla í Kaupmannahöfn árið 1728. Samt sem áður er handritasafn Árna Magnússonar um 2000 handrit og 6000 skjöl. Safnið gaf Árni Magnússon til varðveizlu í Konunglega bókasafninu, ásamt 10,000 ríkisdölum því til viðhalds og umbóta.

**Grímur Jónsson Thorkelín** (1752—1829) var mikils metinn fornritafræðingur. Hann fór frá Íslandi til Edinborgar á Skotlandi þar sem honum var veitt doktorsgráða í heimspeki. Á meðal ritstarfa hans er latnesk þýðing af Eyrbyggja Sögu, sem Sir Walter Scott þýddi ágrip af á ensku. Eitt sinn þá er Grímur var staddur í Lundúnum og var að leita að einhverjum skjölum í gömlu skjalasafni, vildi svo heppilega til að hann rakst af hendingu á fornkvæðaflokkinn **Beawulf**, sem er álitinn að vera eitt hið markverðasta minnismerki um Egil-Saxneska tímabilið. Þetta er fornt hetjukvæði, 3182 heilar hendingar. Árið 1786 var eina handritið sem til var, um átta hundruð ára gamalt, er hafði legið myglað og sviðið í sextándu aldar bókasafni, sem Sir Robert Bruce Cotton átti. Árið 1700 gáfu erfingjar hans stjórninni bókasafnið, en árið 1731 eyðilagðist mikið af safninu í eldi. Beawulf var bjargað, en þó sviðnu og í tætlum. Samt hreyfði enginn hendi til að bjarga því þar til Grímur kom til Lundúnaborgar. Hann afritaði kvæðaflokkinn, og afritið lenti í konuglega bókasafninu í Kaupmannahöfn. Það var á meðal þeirra skjala, sem ekki eyðilagðist í eldi, þegar Bretar skutu á borgina fyrirvaralaust árið 1807,

þegar þeir áttu í stríði við Napóleon.*

Sökum þess að Arngrímur Jónsson ritaði allar sínar bækur á latínu, eins og siður var á þeim tíma, höfðu bækur hans ekki mikla útbreiðslu, og sumar voru jafnvel geymdar í handritum um langt tímabil. Einungis latínulærðir menn höfðu afnot af þeim. Halliday Sparling segir í formála sínum að „Völsungasögu“ (sem þýdd var af Eiríki Magnússyni og William Morris): „Það er ekki fyrr en 1770 þegar Percy biskup þýddi "Northern Antiquities" eftir Mallett, að nokkuð þekktist hér (á Englandi) um Ísland og fornbókmenntir þess. Aðeins á seinnihluta nítjándu aldar hafa menn reynt að kynnast því, og þó ekki nema að litlu leyti. Samt sem áður er það að skýrast fyrir mönnum, og þeim fer stöðugt fjölgandi, hversu stórkostlega mikils virði íslenzkan er sem orða forðabúr fyrir enskumælandi fólk, og ennfremur að í þjóðsögum hennar, sögum og ljóðum, er náma af geðþekkri fegurð og manngildi, en maður vonar að nú hefjist ný vakning manna á þessu og að áhugi þeirra fari stöðugt vaxandi, og að tungu vorri og bókmenntum megi auðnast að fá aftur það sem kæruleysi og þekkingarleysi hefir næstum því eyðilagt.“

Franski rithöfundurinn, Paul Henry de Mallett lagði sig mikið eftir að kynnast fornbókmenntum vorum. Árið 1755 ritaði hann **L'Histoire Denmarca.** Formáli þeirrar bókar var þýddur á ensku af hinum velkunna fornfræðingi og rithöfundi, Thomas Percy, biskupi, (1729—1810). Það er eitt af eldri ritum hans og heitir **Northern Antiquaries,** er var gefið út 1770. Percy biskup þýddi ennfremur part af Snorra-Eddu úr latínu og úrval af fornum kvæðum.

Hinn alþekti rithöfundur **Sir Walter Scott** (1771—1832) var hrifinn af íslenzkum fornbókmenntum, er sýndi sig í því, að þótt hann ritaði meir en flestir rithöfundar, gaf hann sér tíma til að þýða ágrip af Eyrbyggju (The Eyrdwellers) 1814. Þetta ágrip var þýtt úr latínu þýðingu Gríms Jónssonar Thorkelins, er hann gerði 1776.*

Margir rithöfundar virðast hafa kynnst íslenzkum fornbókmenntum á átjándu og nítjándu öld, en þó flestir í gegnum latneskar þýðingar. Rithöfundar tóku þar efni í ritverk sín. Þannig er efnið í "The Waif Woman" eftir Robert Louis Stevenson byggt á ofannefndri Íslendingasögu. Friedrich Karl Fauque ritaði sögu í þremur bindum, sem byggð var á Gunnlaugs sögu Ormstungu, og sagan "Helga Und Gunnlaug“ eftir Bleibtreu og Ezardi í Hanover, sem gefin var út 1875 er grundvölluð á sömu sögu.

Á seinnihluta nítjándu aldar jókst áhugi menntaðra manna, erlendis, fyrir fornbókmenntum Íslendinga, en eftir því sem kynning þeirra óx,

*Hið fræga Thorkelin handrit af "Beawulf" var gefið út fyrir fjórum árum, endurskoðað af Próf. Kemp Malone, á Johns Hopkins háskólanum.

*Fjölfræðibókin "Americana" getur þess í 14. bindi, bls. 634B, og sömuleiðis dr. Halldór Hermannsson í XXIV. bindi af "Íslandica."

fundu þeir æ betur og betur að það var nauðsynlegt að læra íslenzku til hlítar til þess að hafa full not af þessum bókmenntafjársjóðum. Þannig atvikaðist það að margir erlendir menntamenn fóru að læra íslenzku og tóku til að þýða fornritin á sín eigin tungumál. Aðrir notuðu efnið í sín eigin ritverk. Frameftir bar mest á þessu í Þýzkalandi, og urðu margir í Þýzkalandi mjög vinveittir Íslendingum eftir að kynnast bókmenntum þeirra og eftir að hafa rannsakað fornritin. Kvað svo rammt að þessu að í sumum tilfellum urðu þeir á undan Íslendingum í þessu efni. Í formálanum fyrir Íslendinga Sögu sinni, fyrsta bindi, sem kom út 1903, harmar Bogi Melsteð að Íslendingar hafi ekki ritað nema stutt ágrip af sögu sinni. Hann segir meðal annars: „Aftur á móti er til á þýzku ágæt Íslands Saga frá upphafi til enda Þjóðveldisins, eftir Konrad Maurer, sem hann gaf út 1874 og sendi Íslendingum í þjóðhátíðargjöf.“ Annað dæmi er þýzkur lærdómsmaður, dr. Kr. Kálund, sem gerði nám tungu vorrar og fornra fræða að lífsstarfi sínu. Ennfremur má geta hálærðrar þýzkrar konu, sem aldrei hafði komið til Íslands né notið kennslu í máli voru, heldur numið það algerlega af sjálfsdáðum. Það var Frk. Margarethe Lehmann-Filhés, merkur stærðfræðingur og stjörnufræðingur. Hún þýddi og gaf út úrval úr Þjóðsögum Jóns Árnasonar, Úrval íslenzkra ljóða og margt fleira. Hún skrifaði grein í Eimreiðina 1898 (bls. 135) um Spjaldvefnað. Fyrir andlát sitt ánafnaði hún Kaupmannahafnardeild Hins íslenzka bókmenntafélags 5000 krónur til að hlynna að íslenzkum fræðum.*

Samt sem áður var það Englendingur, sem fyrstur þýddi íslenzk ljóð úr frummálinu, það var William Herbert, árið 1804. Englendingurinn Barón Joseph Banks ferðaðist um Ísland 1772, og varð hann hrifinn af fornfræðum Íslendinga. Þegar kafteinn Jörgen Jörgensen heimsótti hann árið 1806 bað hann Jörgensen að útvega sér bækur í Danmörku, sem fjölluðu um Ísland.**

Eftirfarandi greinar vitna um það hversu hátt mat lærðir erlendir menn settu á íslenzkt mál og íslenzkar fornbókmenntir.

Rithöfundinn **Thomas Carlyle** (1795—1881) kannast allir við. Hann segir í bók sinni: **Heroes and Hero Worship:** „Mikið hefði tapast ef Íslandi hefði ekki skotið úr sjó — ef Norðmenn hefðu ekki fundið það og byggt! Gömlu norsku skáldin voru mörg á Íslandi . . . Vitanlega rennur í æðum vorum, Englendinga, mikið af dansk-norsku blóði; — raunar er enginn munur á Dönum Norðmönnum og Engil-Söxum nema á yfirborðinu. Á öllu Bretlandi erum vér að miklu leyti blandaðir Dönum; eftir svo margar innrásir þeirra og innflutning. Þessi blöndun er að vísu mest við austurströndina, en þó aðallega norðarlega. Frá Humber og upp eftir yfir allt Skotland, er mál alþýðunnar einkennilega íslenzkt. Germanska þeirra hefir ein-

---

*Eimreiðin 1898 bls. 135, og 1911, bls. 103. Skírnir 1912 bls. 149.

---

**"The Viking of Van Diemen's Land," eftir Frank Clune og P. R. S. Stephensen, 1954, sem er ítarleg saga um Jörgen Jörgensen, sem Íslendingar nefndu Jörund Hundadagakonung.

kennilegan norskan keim. Einnig þeir eru Norðmenn.“

**Sir George W. Dasent** (1817—1896) var hámenntaður Englendingur. Fyrst eftir að hann útskrifaðist var hann einkaskrifari enska sendiherrans í Stokkhólmi í Svíþjóð í fjögur ár. Þar næst var hann aðstoðarritstjóri "London Times," frá 1845 til 1870, en frá 1852 til 1865 var hann einnig prófessor í enskum bókmenntum við Kings College í Lundúnum. Hann var "Civil Commissioner" frá 1870 til 1895.

Þegar Dasent kom til Stokkhólms komst hann brátt í kunningsskap við samlanda sinn, George Stephens, og sömuleiðis sænska fræðimenn. Allir þessir menntamenn höfðu mikinn áhuga fyrir íslenzkum fornbókmenntum. Fór hann þá að leggja stund á íslenzku og íslenzk fornfræði. Fyrsti árangur var ensk þýðing á „Gylfaginning“ og „Bragaræðum“ úr Snorra-Eddu, sem gefið var út 1842. Það var sú fyrsta þýðing á íslenzku fornriti í óbundnu máli. Þetta var tveim árum áður en Samuel Laing gaf út þýðingu sína af „Heimskringlu“ Snorra Sturlusonar, í þremur stórum bindum. Á þeim árum sem Dasent dvaldi í Svíþjóð ferðaðist hann nokkuð á meginlandinu. Á Þýzkalandi hitti hann Jakob Ludwig Grimm, sem mun hafa kvatt hann til að halda áfram þeim lærdómsiðkunum, er hann hafði hallast að, og kynna sér þjóðsagnafræði og fornislenzkar bókmenntir. Nokkru síðar kom út í Lundúnum þýðing Dasents af íslenzku málfræði Rasks. Dasent kvaðst hafa lært íslenzku með því að þýða part af Snorra-Eddu og málfræði Rasks. Í hjáverkum í átján ár vann hann að því að þýða **Njáls sögu**, sem hann gaf út í tveim bindum 1861 og kallaði: "The Story of Burnt Njál." George Dasent vann nokkuð að því að taka saman "Cleasby-Vigfússon Íslenzk-Ensku orðabókina." Hann ferðaðist um Ísland árið 1861 og aftur 1862. Í fylgd með honum var skáldið Grímur Thomsen. Á meðal annara bóka sem Dasent þýddi var „Gísla saga Súrssonar“ (The Story of Gísli The Outlaw), sem var gefin út 1866. Ennfremur samdi hann langa söngu sem var byggð á Jómsvíkinga Sögu (The Vikings and the Baltic).

Ummæli Sir George Dasents um íslenzku og íslenzkar bókmentir er sem fylgir:

„Enda þótt maður taki ekki til greina það að læra íslenzku til að kynnast hinum stórmerkilegu fornbókmenntum Íslendinga, heldur einungis sem auka atriði við enskunám, verður maður að viðurkenna að það er stórkostlega gagnlegt, ekki einungis til að rekja uppruna orða og sérkennileg orðatiltæki, en frekar til þess að skýra óglögg og þokukennd atriði í sögu Englands. Sem sagt, met ég hana svo mikils í þessu sambandi, að ég get ekki ímyndað mér að það sé mögulegt að semja sæmilega sögu sem fjallar um Engil-Saxneska tímabilið, án þess að vera þaulkunnugur fornbókmenntum Íslendinga.“

**Friedrich Max Muller** (1823—1900) fæddist og ólst upp á Þýzkalandi. Árið 1868 varð hann prófessor í samanburðar málfræði í Oxford háskóla á Englandi. Hann var gerður að einkaráðgjafa (Privy Councillor)

1896. Max Muller, eins og hann var venjulega kallaður, var afar stórvirkur rithöfundur. Sérstakt afkastaverk hans var þýðing hans á hinum helgu bókum Indverja, **Rig Veda.** Hann þýddi á ensku þrjú bindi af því safni, sem ritað er á sanskrít, því að hann var sérfræðingur í sanskrít. Hann ritaði margar bækur um tungumálavísindi. Hann fékk mikið hrós fyrir ritgerð um Samanburðar Goðafræði. Í bók sinni "Chips From a German Work Shop," segir hann meðal annars: „Næst á eftir Engil-Saxnesku er ekkert tungumál, engar bókmenntir, engin goðafræði athyglisverðari til að greiða úr og upplýsa elztu sögu þjóðar þeirrar er nú byggir Bretlandseyjar, eins og íslenzkan. Nei, að einu leyti er íslenzkan hafin yfir allar mállýskur þjóða af germönskum stofni, og er engil-saxneska þar ekki undanskilin, né há-þýzka eða gotneska. Það er aðeins í gegnum íslenzkt mál að vér finnum óspiltar, heillegar leifar af germönskum heiðindómi. Gotneska sem tungumál er eldri en íslenzka, en það eina ritverk sem vér höfum á gotnesku er þýðing á Biblíunni. Engil-saxneskar bókmenntir, að undanskildum kvæðaflokknum "Beowulf," eru kristnar. Gömlum hetjum Niflunganna, eins og vér sjáum þeim lýst í "Suabían" söguljóðum, hefir verið breytt í kirkjurækna riddara. Aftur á móti í kvæðum eldri Eddu, koma Sigurður og Brynhildur fram á sjónarsviðið í sínum heiðna mikilleika og virða ekkert heilagt nema ást sína og bjóða byrginn öllum lögum, guða og manna, í nafni þessarar almáttugu ástríðu. Íslenzkan hefir lykilinn að mörgum ráðgátum enskrar tungu, og að mörgum leyndardómum enskra lyndiseinkenna. Enda þótt gamla norskan (íslenzkan) sé ekki nema mállýska af sömu tungu og Englar og Saxar fluttu til Bretlands; þótt blóð Norðmanna sé sama blóðið og ólgar í þýzkum æðum, er samt sem áður ögrunarhreimur í hinni hörðu tungu Norðmanna og uppspretta dirfsku í hjartslætti norðursins sem einkennir Norðmanninn hvar sem hann hefir aðsetur, á Íslandi eða í Sikiley, á Rínarbökkum eða á bökkum Temsfljótsins."

**Daniel Willard Fiske** (1831—1904) var prófessor í Norðurlanda tungumálum og bókavörður á Cornell háskólanum í Ithaca, New York, frá 1868 til 1883. Vafalaust var hann lærðasti maður í Norðurlandafræðum á sinni tíð. Hann var mikill Íslandsvinur og virti, eins og vera bar, íslenzk fræði mikils. Hann var spentur fyrir framförum á öllum menningarsviðum. Þegar hann féll frá ánafnaði hann Cornell háskólanum hið afarstóra bókasafn sitt, og þar á meðal íslenzku deildina, sem þá taldist hafa 8600 bækur, rit og skjöl, en sem nú telur 25,000, og nefnist "The Fiske Icelandic Collection." Ennfremur ánafnaði hann öllu bókasafninu sjóð því til viðhalds og aukningar, sem nam meir en hálfri milljón dollara. Þar að auki ánafnaði hann íslenzku deildinni 500 dollara sjóð, og eiga vextir af þeim sjóði að notast til þess að gefa út ársrit á ensku, er snertir íslenzk málefni. Þrjátíu og sjö hefti hafa allareiðu verið gefin út undir nafninu: "Islandica." Ritstjóri þess

var dr. Halldór Hermannsson, umsjónarmaður íslenzku deildarinnar þar til hann lét af embætti fyrir nokkrum árum. Willard Fiske átti merkilegt bókasafn um tafl-list. Það gaf hann Grímseyingum, sem hann vissi að voru góðir taflmenn, því hann bar hlýhug til þessara fáu Íslendinga, um sjötíu að tölu, sem búa á hinni litlu eyju í íshafinu fyrir norðan Ísland. Próf. Fiske var heiðraður af Humbert I. Ítalíu konungi 1892 og einnig af Kristjáni IX. Dana konungi, fyrir starf hans í þágu íslenzkrar menningar.

Meðal annars komst Próf. Fiske svo að orði um íslenzka tungu og bókmenntir: „Það þarf ekki að lýsa í löngu máli hversu mikils virði íslenzkan er fyrir alla sem vilja rannsaka forna sögu germanskra þjóða. Trúarlíf forfeðra vorra, lög og siðir, sem að nokkru leyti snerta daglegt líf fólks enn á okkar dögum eru skýrast gefin í skyn í Íslendinga sögunum og Eddukvæðunum. Þessar bókmenntir eru einu gögnin er lýsa upp sögu Norðurlanda fram til fjórtándu aldar. Það er ekki ósjaldan að þessar bókmenntir greiða úr torskildum annálum Breta og annarra Evrópuþjóða á meginlandinu. Fornbókmenntir germanskra þjóða, — gotneskar, forn-háþýzkar, saxneskar, fríslenzkar og engilsaxneskar, eru eins og dropi í sjóinn í samanburði við fornbókmenntir Íslendinga sem mynduðust í daglegu lífi alþýðunnar án utanaðkomandi áhrifa. Í þessu tilliti er það vel þess vert fyrir rithöfunda að kynnast vel þessum bókmenntum. Sérstaklega fyrir enskumælandi þjóðir er hvergi meira að græða í bókmenntalegu tilliti. Þýðingar þær á ensku, sem hafa verið gerðar fram til þessa dags, sýna aðeins lítinn lit á hversu mikill fjársjóður djúps mannvits og háfleygra skáldlegra hugsjóna felst í Eddukvæðunum, eða hversu einkennilegt hispursleysi, dramatísk áhrif og auðsýn raunsæi einkennir Íslendingasögurnar."

**Dr. Rasmus B. Anderson** (1846—1936) var prófessor í tungumálum Norðurlanda á Wisconsin háskólanum í Norður-Ameríku. Um eitt skeið var hann sendiherra Bandaríkjanna í Danmörku. Hann var stórtækur rithöfundur. Á meðal hinna mörgu bóka er hann ritaði eru: "Norse Mythology, or The Religion of Our Forefathers," "America Not Discovered by Columbus," og "Viking Tales of the North." Hann var ritstjóri fyrir "Norroena, Anglo-Saxon Classics," sem eru fimmtán stór bindi í afar skrautlegu bandi, gefin út 1907, fyrir 450 meðlimi Norroena félagsins. Í bók sinni "Norse Mythology" segir hann: „. . . Næst á eftir ensku og Anglo-Saxon (engil-saxnesku) verðum við að læra þýzku, mesogotnesku og skandinavisku málin, en sérstaklega íslenzku, sem er hinn eini **lifandi** lykill að norrænum fornbókmenntum og miðaldasögu Evrópuþjóða. Málið er svo óbreytt að á íslenzku er auðvelt að lesa miðalda bókmenntir. Vér megum ekki gleyma því, að vér höfum germanskar, fornar menningarerfðir, sem eru oss miklu nákomnari en erfðir þær, sem komið hafa frá Grikklandi eða Róm, og Norðurlandamenn hafa á Íslandi fornrit, sem þeir verða að kynnast vel til

þess að fá réttan skilning á miðalda sögu sinni . . . Vér gætum ímyndað oss Grísku og Íslenzku sem tvær silfurkrýndar sögu-gyðjur, með gullna lykla í höndum sér. Önnur hefir lykilinn að fjársjóðum fornaldarinnar, en hin lykilinn að fjársjóðum miðaldanna — önnur lykilinn að bókmenntaperlum suðursins, en hin lykilinn að bókmenntaperlum norðursins, í Evrópu."

**Dame Bertha S. Phillpotts** (1877—1932 var dóttir James S. Phillpotts skólastjóra á Bedford-latínuskólanum á Englandi. Hún var fluggáfuð, hámentuð og gat sér mikla frægð hjá ýmsum þjóðum Evrópu fyrir sína miklu hæfileika. Á háskólanum í Cambridge var henni veitt árið 1898 hæsta einkunn í frönskum og þýzkum miðaldamálum og nútíðarmálum. Frá 1901 til 1913 lagði hún sig eftir að læra til hlítar Norðurlanda tungumálin, fornfræði og bókmenntir. Árið 1911 var hún kosin meðlimur í hinu Konunglega norræna fornritafélagi í Kaupmannahöfn, sem stofnað var árið 1825. Hún hrepti þann heiður að vera hin fyrsta kona sem (1913) var kosin "Carlisle Fellow of Sommerset College," Oxford. Í fyrra heimsstríðinu var hún aðstoðarskrifari við hið Konunglega sendiráð í Stokkhólmi í Svíþjóð, og var einnig einkaskrifari brezka sendiherrans þar. Þá var henni veitt orða brezka ríkisins (O.B.U.) 1918. Dame Phillpotts var skólastjóri á Westfield College, Hampsead, frá 1919 til 1921, og á sínum eigin skóla frá 1922 til 1925. Síðan var hún í rannsóknarnefnd eitt ár og að síðustu var hún kennari í og forstjóri fyrir skandinavisku vísindadeildinni, og var falin umsjón yfir tungumáladeild Cambridge háskólans. Árið 1929 var Dame Phillpotts heiðruð með orðunni O.B.E. Hún var eina konan sem veittist sá heiður að vera í deild réttarsögufræðinga (Statutary Commission) Cambridge háskólans, 1923 til 1927, og sami heiður veittist henni á Lundúna háskólanum, 1926 til 1928. Dame Phillpotts var viðurkend sem sérfræðingur í skandinavískum fornfræðum. Hún ferðaðist til Íslands á hverju ári frá 1908 til 1914 og kynnti sér fornrit þar og sömuleiðis í Kaupmannahöfn, Stokkhólmi og ýmsum borgum Þýzkalands. Hún áformaði að rita sögu Íslendinga, og gögnum til hennar hafði hún allareiðu safnað.

Á meðal margra bóka, sem Dame Phillpotts hefir skrifað eru: — "Kindred and Clan," „Elder Edda," "Skandinavian Drama" og "Edda and Saga," sem var síðasta bókin sem hún lét gefa út ári áður en hún féll frá árið 1932.

Í formálanum fyrir "Edda and Saga" segir Dame Phillpotts: — „Hetjukvæðin í Eddu sýna fornar skoðanir og lífsreynslu þeirrar þjóðar sem vér tilheyrum. Án þeirra er ekki mögulegt að skilja lífsskoðun vorra eigin forfeðra. Hugsjónir þær og viðhorf, er þær byggjast á er sameiginlegur arfur Englendinga og skandinaviskra þjóða. Að miklu leyti voru þær hugsjónir og skoðanir sameiginlegur arfur allra germanskra þjóða, því hið sama viðhorf til lífsins er að finna í þýzkum sögum, sérstaklega í „Nibelungenlied," sem er partur af hinum fornu þjóðsögum endurskapaðar á ridd-

araöldinni . . . Það er annað atriði, sem vér verðum að gefa gaum þegar vér athugum Eddurnar og Sögurnar. Frásögnin er ekki þröng eða bundin við smáhéruð, og ekki heldur höfundarnir hvort sem þeir voru norskir eða íslenzkir. Á þeim tíma sem fornbókmenntirnar voru ritaðar í því formi, sem þær eru nú, á áttundu til þrettándu aldar, var forn-norska almennt töluð í miklum hluta Evrópu. Hún var töluð með litlum breytingum í öllum skandinavisku löndunum, og stórum parti af Englandi, Skotlandi og Írlandi. Einnig í Normandí á Frakklandi, að austan og sunnan við Eystrasalt eins langt suður og hið stóra ríki svenskra víkinga náði, sem hafði miðstöð í Kiev (Kænugarði) móður rússneskra borga.* Ennfremur var hún töluð af lífverði keisarans í Miklagarði . . . Forn norsk fræði eru því frá þeim tíma er gamla norska tungan (íslenzkan) var útbreiddasta tungumál í Evrópu."

**Dr. Halldór Hermannsson**, fyrrum bókavörður "The Icelandic Fiske Collection" á Cornell háskólanum hefir skráð í XXIII bindi af Islandica 1934 langan lista af þýðingum úr íslenzkum fornritum, sem sýnir að Eldri-Edda og partur af Snorra-Eddu var snúið á þrettán tungumál. Ennfremur sýnir þessi listi að hinar helztu af Íslendingasögunum hafa verið þýddar á frá sex til tíu tungumál. Næstum allar þessar þýðingar voru gerðar af útlendingum sem lögðu sig eftir því að þaullæra íslenzku. Í XXIV. bindi af Islandica 1935 eru tuttugu og fjórar blaðsíður af nöfnum rithöfunda, ásamt skrá yfir verk þeirra sem grundvallast á fornbókmenntum Íslendinga. — Á tímabilinu frá 1908 til 1935 voru sjötíu og fimm af hundraði af þessum höfundum erlendir menn.

Síðan á síðustu aldamótum hafa margar þjóðir kennt íslenzku og íslenzkar fornbókmenntir á háskólum sínum. Sumir af þessum skólum í Bretaveldi eru: í Oxford, Cambridge, London, Leeds og Wales. Vitanlega er íslenzka kennd á mörgum skólum í skandinavisku löndunum, á Þýzkalandi, Svisslandi, Hollandi, Belgíu og víðar, ennfremur á mörgum skólum í Bandaríkjum Ameríku. Kennslustóll í íslenzku og íslenzkum bókmenntum var stofnsettur á Manitoba háskóla árið 1951. Þetta var gert mögulegt með almennum samskotum, sem afkomendur Íslendinga í Norður-Ameríku tóku þátt í, ásamt þátttöku Íslands. Sjóður var myndaður sem nemur yfir 200,000 dollurum.

Nýskeð voru gerð samtök meðal Breta, Dana og Íslendinga með því áformi að þýða og gefa út mikinn hluta af íslenzkum fornritum. Mun útgáfufélagið Nelson and Sons í

---

*Í Víkingasögu Jóns Jónssonar 1914, sem grundvölluð er aðallega á Heimskringlu Snorra Sturlusonar, og Cronicles of Nestor, er skráð að víkingar stofnuðu Garðaríki 862, og smátt og smátt stækkuðu ríki sitt þar til það varð stærsta ríkið í Evrópu. Mongólar lögðu það allt undir sig 1240 nema Hólmgarð (Novgorod), sem hafði brotist undan Garðaríki 1150 og stofnað lýðveldi (Trade Principality) sem, umkringdir af mörgum þjóðum, vörðu frelsi sitt þar til 1480 að Ívar mikli Rússakeisari braut það undir sig. Nýskeð var uppgötvað að annálar Nestors voru ekki skrifaðir af honum, en máske ritaðir af ábóta í Kænugarði, sem hét Silvester. Nestor var rithöfundur á elleftu öld. Annálar Nestors ná yfir tímabilið frá 850—1110. Höfundurinn var uppi síðustu 40 árin af þessu tímabili. Á fyrrihluta tímabilsins fer hann eftir ýmsum fornritum. — **Höf.**

Edinborg á Skotlandi sjá um útgáfuna. Í nefnd, sem kosin var til að sjá um þýðingar, og til eftirlits með verkinu eru átta á Bretlandi, fjórir á Íslandi og einn í Danmörku. Formaður brezku nefndarinnar er hinn góðkunni Íslandsvinur Sir William Craige, fyrrum professor í engil-saxnesku við Oxford háskólann. Áformað er að prenta aðra hvora blaðsíðu á íslenzku en hina á ensku, og að gefa út Íslendingasögurnar, Eddurnar báðar og Heimskringlu, ásamt ýmsum öðrum fornritum, sem við koma þjóðum af germönskum ættstofni.

Af ofanskráðu ágripi er það augljóst að allir menntamenn í hinum siðaða heimi kunna að meta menningargildi fornislenzkra bókmennta. Arngrímur Jónsson byrjaði kynningarstarf sitt í smáum stíl til þess að afmá óhróður um land sitt og þjóð, en starfið óx og áhrif þess breiddust út úr einu landi í annað, þar til hann var umkringdur af áhugasömum mönnum, innan lands og utan, sem störfuðu með honum og héldu uppi starfinu eftir hans dag. Alla þessa menn mætti með réttu móti kalla lærisveina hans. Það má líka kalla Arngrím föður Norðurlanda-fornritafræði. Minningarmerki hans er ekki steypt úr bronzi eða höggvið í marmara. En vér erum í stórri þakklætisskuld við hann, — ekki einungis Íslendingar, heldur allar menningarþjóðir, en sérstaklega þær sem af germönskum stofni eru komnar. Arngrímur tók hin fyrstu spor til að kynna heiminum gullaldarrit Íslendinga og lýsti þannig upp bókmenntalegt miðaldamyrkur Evrópuþjóða.

**„Ísland skein í dýrðarljóma**
**sögu og ljóða,**
**skært Norðurljós þá allt um kring**
**var rökkurmóða."**

—Montgomery

**HEIMILDARRIT aðallega notuð**

Menn og Menntir IV., 1926 ,dr. Páll Ólason.

What Scholars Say About the Scandinavian Languages: Rasmus B. Anderson, L.L.D.

Norse Mythology, 1901: Rasmus B. Anderson, L.L.D.

Norroena, Anglo-Saxon Classics, 1907.

Heroes and Hero Worship: Thomas Carlyle.

Edda and Saga, 1931: Bertha S. Phillpotts.

Islandica, nokkur hefti: dr. Halldór Hermannsson.

Nokkur hefti af Eimreiðinni og Skírni.

Æfisögur höfunda, Úr ýmsum fjölfræðibókum.

# Fyrir innan grindurnar

**Höfundur ónefndur**

Meistarinn sagði: Elskið óvini yðar, — vissi að það er jafn mögulegt að elska óvini og vini, eða jafn ómögulegt. Já, farðu fyrir mig og elskaðu þann sem þér er sagt að elska. Reyndu það. Gerðu það ef þú getur. Allir, sem hafa elskað, vita að ástin er manni ósjálfráð. En hvað orskar ástina? Ekki er fremur hægt að vekja ást hjá öðrum með góðvild, umhyggju, ást og tilbeiðslu en með kulda, afskiftaleysi og andúð. Ást og nærgætni vekja oft og tíðum meiri fyrirlitning, en óvild og ofsókn. Vísindamenn halda því fram að ástin stafi af einhvers konar eitrun í líffærunum — fer þá að verða skiljanlegra, hvernig það atvikast að maður verður ástfanginn af þeim sem hatar mann og beztur þeim sem er manni verstur. Hitt er með öllu óskiljanlegt af hvaða orsökum það atvikast, eða hittir svo á, að persónur elska hvora aðra í sama mund. Þó ég neiti því ekki að gagnkvæm ást sé til, þekki ég hana ekki af eigin reynslu, nema á mjög dulrænan hátt, og mun ég víkja að því síðar. En allir geta gert sér í hugarlund, hve það er óumræðilega sárt að elska af öllu hjarta þá persónu sem launar það með kulda og kæruleysi, jafnvel óbeit og fyrirlitningu.

Svo var því farið um mig gagnvart Helgu, að mér var mesta raun að því hve mjög hún sóttist eftir mér. Hins vegar bar ég mikla virðingu fyrir hennar andlega atgerfi. Helga var gáfuð stúlka og góð sál og bar að því leyti langt af öðrum stúlkum í byggðinni. En hvað stoðaði það, fyrst mér fanst hún ófríð og fráhrindandi. Hún var samt hreinleg og snyrtileg, og mér fanst hún langt frá því að vera ógeðsleg. Það orð fór af henni að hún væri með afbrigðum hnyttin og orðheppin. Hugmyndir hennar bárust mér iðulega til eyrna og gat ég ekki annað en dáðst að þeim, en ekki þótti mér þær að sama skapi vel sagðar. Annað hvort voru þær hafðar rangt eftir henni, eða hana brast hæfileikann til að láta þær í ljós, svo í lagi væri. Auðvitað var sitthvað að hugsa og tala. Hæfileikar til að hugsa og láta hugsanirnar í ljós fylgdust sjaldan að í heilbrigðu jafnvægi. Sjálfur hafði ég hugsað svo dýrlegar hugsanir að mér var ómögulegt að koma þeim í orð. — Í návist minni var hún jafnan fálát og auðséð að henni var fram úr máta órótt innan brjósts. Þá hafði hún jafan fátt að segja; en ef hún sagði nokkuð, fórst henni það illa og sagði jafnvel það, sem ég vissi að hún vildi ekki segja. Ósjálfrátt vaknaði hjá mér löngun til að koma í veg fyrir þessi óþægindi hennar, í þeim tilgangi að hafa nánari kynni af sál hennar og verða

aðnjótandi milliliðalaust þess sem hún hafði að miðla af sínum andlega auði. Þetta gerbreytti framkomu minni gagnvart henni. Ég fór að veita henni meiri og meiri athygli og jafnvel umgangast hana hlýlega. Datt mér þó ekki í hug að láta henni finnast að mér þætti nokkuð til hennar koma, eða þætti hið minsta vænt um hana.

Druknandi maður grípur í strá, svo var um Helgu, og var auðsætt að hún tók að reisa vonir á þessari breytingu, sem á mér var orðin. Henni varð léttara um tungutakið, og ekki leið á löngu áður en hún gat sagt heila setningu án þess að roðna og varpa öndinni. Að öðru leyti var það ekki nauðsynlegt að hún talaði, því ég skildi hana. Og mig grunar að þeir sem hrósuðu henni fyrir fyndni, hafi aldrei heyrt hana segja neitt, heldur séð það sem hún vildi segja. Það var eins og líkaminn væri svo ófullkominn að hann gæti ekki hulið sálina. Af auknum skilningi var það, að sjálfsögðu, að ég umbar ást hennar miklu betur en áður. Mér fanst hún jafnvel draga mig að sér, það er að segja að sál sinni. Mér fór að þykja vænt um þessa háu og hreinu sál. En að ég færi að elska Helgu sem heild, fanst mér lífsómögulegt.

Margir þóttust nú sjá að ég væri að draga mig eftir henni; og þeir, sem ekki þektu afstöðu mína til hennar, töldu víst og áreiðanlegt að annað mundi mér ganga til þess en gott. Í sannleika var ekkert fjær skapi mínu en að gera henni rangt. Ég hefði ekki viljað snerta eitt hár á höfði hennar. Ég gat ekki annað en harmað með sjálfum mér, hve umbúðir sálar hennar voru henni ósamboðnar, í mínum augum svo hversdagslegar og lítilfjörlegar. Eftir því sem ég bar meiri virðingu fyrir sál hennar, fór mig að taka sárara til hennar. Ég fór að kenna í brjósti um hana og sýna henni meiri og meiri nærgætni. En einmitt þetta varð til þess að ég er hér — fyrir innan grindurnar.

Fangavörðurinn lítur ekki af mér. Þó er ég honum þakklátur fyrir að leyfa mér að setja þessar minningar niður á pappírinn.

Má vera að hún móðir mín trúi mér og huggist nokkuð er hún sér í réttu ljósi atburð þann sem skeði á dansleiknum forðum.

Sá atburður hefir öllu ráðið um hagi mína síðan.

Við Helga vorum á skemtisamkomu.

Ég vissi fyrirfram að hún mundi verða þar. Sjálfur hafði ég ætlað að vera heima — af kvíða fyrir því að sjá hana sitja eina, meðan ég og alt unga fólkið væri að dansa, og vita hana altaf renna vonaraugum til mín. En vegna þess að stúlka nokkur, sem ég var ástfanginn af — og það ekki all-lítið, hafði látið það auglýst, að hún mundi verða þar, klæddi ég mig í það bezta sem ég átti, helti ilmvatni í hár mitt, klútinn minn og barminn á treyjunni minni og fór.

Svo djúpt geta menn sokkið í sínar hugsanir að þeir ekki heyri þó á þá sé yrt né sjái það sem fram fer í kringum þá, þótt þeir hafi augun og eyrun opin. Ræðurnar, sögulestur-

inn og söngurinn fóru algerlega fram hjá mér. Það var eins og ég hrykki upp af draumi við þögnina sem kom að lokum.

Ég brann af eftirvæntingu eftir dansinum. Ég hafði hugsað mér að fá að dansa fyrsta dansinn við Línu — svo hét mærin sem ég elskaði. Ég fór að líta í kring, hvort ég ekki sæi hana. Jú, hún situr þarna hjá ungum manni sem ég ekki þekki. Nú stendur hann upp til að færa bekkinn til hliðar — rýma fyrir dansinum. Ekkert ávantar að nýtízku fötin fari honum vel, en samt er hann í mínum augum nógu ljótur til að vera kvennagull. Hún situr nú þarna ein. Ég færi mig til hennar, sezt hjá henni og bið hana að dansa við mig — fyrsta dansinn. Hún lítur ekki við mér, en segir með nokkrum þyrkingi: Er lofuð. Í sömu svifum stendur hún upp, og ég sit einn eftir á bekknum. Hjartað í mér, sem rétt áður hafði ef til vill slegið harðara en það átti að sér, hætti skyndilega. Ég hvorki fann né vissi þegar það tók til starfa aftur. Það var eins og ég vaknaði af draumlausum svefni við það að hljóðfæraflokkurinn hóf upp danslagið. Ég lít upp með hálfum huga og sé Línu í fanginu á hinum ókunna manni. Ég sé hana gera alt sem er fyrirlagt í dansi þeim sem kallaður er Tango. Ég reyni að hugga mig með því að telja mér sjálfum trú um að hún geri allar þær íþróttir fyrir **siðasakir** eingöngu. En þar kom að ég sannfærðist — ekki um það, heldur hitt: að dansinn væri aðeins skuggi af því sem fram færi annars staðar milli þessara persóna.

Þó að Lína þyrfti auðsjáanlega að hafa sig alla við, að framkvæma það sem nauðsynlegt var að lögum listarinnar, gaf hún sér tíma til að líta til skiftis til mín og Helgu — til mín: hæðandi og storkandi, en til Helgu með óbeit og fyrirlitningu, alveg eins og hún segði: Þú mátt gera þér gott af honum fyrir mér; þér er það ekki of gott!

Veggirnir í brjóstinu á mér féllu inn og ég átti örðugt að ná andanum. Sál mín blakti eins og blað fyrir vindi. Mig tók sárast að allir virtust taka eftir þessu. Augu allra störðu til skiptis á mig og Helgu. Margir hvísluðust á með háðsglotti. Alls staðar glitti í hvítar falskar tennur. Ég sá að við Helga vorum höfð á milli tannanna.

Augu mín lögðu á flótta og námu staðar þar sem Helga sat ein á bekknum. Ég einbeitti sjón minni allri til hennar. Það var eins og augu mín þendust út — eða augnasteinarnir bólgnuðu. Ég sá hana skýrara en nokkru sinni fyr — líklega af því að sjón mín var óskift, einfeld til hennar og einhverf. Það var þvílíkast sem ég sæi hana í svarta myrkri.

Mér var óljóst hvort heldur ég gat ekki litið af henni, eða hún var fyrir augum mínum hvert sem ég horfði. Að vísu geta menn verið svo haldnir af hugsun sinni að þeir sjái ekki annað en það sem þeir hugsa um.

Ég sé að Helga vorkennir mér að Lína skuli ekki þýðast mig. Hún veit af eigin reynslu hvað er að bera vonlausa ást. Helga sýnir mér ást fyrir mitt ástleysi, en Lína sýnir

mér kulda fyrir mína ást, og fyrirlitning fyrir hæfileikann til að elska. Mér þykir Lína falleg, en ef hún hefir nokkra sál, er sálin að minsta kosti ekki sjáanleg. Lína sýnir Helgu enga samúð í hennar vonlausu ást, en Helga sýnir mér, sem hún elskar, samúð í þeirri vonlausu ást sem ég ber til Línu. Frá líkamlegu sjónarmiði þykir mér Helga ófríð, en ég veit að hún er gáfuð og með afbrigðum góð sál — hefir ótakmarkaðan skilning.

Helga hefir setið niðurlút, haldið að sér höndum og horft niður fyrir sig, og séð alt í gegn um augnalokin. Nú lítur hún upp, augu okkar mætast og — guð minn góður! Ég sé sál hennar, þessa góðu sál, skína út um augun og hella geislum sínum yfir mig. Ég ræð mér ekki, stend upp og geng til hennar. Hún stendur óstyrklega upp og fellur mér í fang. Við líðum áfram í dansi. Ég þrýsti henni upp að brjósti mínu. Hjarta hennar berst svo hátt að ég heyri það. Ég finn að henni svimar af sælu. Ætli hún þoli þessi viðbrigði? Menn hafa dottið niður dauðir af að erfa miljón dollara. Ég lít inn um glugga sálar hennar og sé þar einhverja undra paradís. Mundi ég geta sameinast sál hennar ,ef ekki væri líkami hennar til fyrirstöðu? En ef hún losnaði úr líkamanum, mundi ég þá geta sameinast henni án þess að losna úr líkamanum sjálfur?

Mér verður í meira lagi hverft við að stúlkan stendur á öndinni. Ég hvorki finn né heyri hjarta hennar. Mér finst ég vera að missa hana, og gríp fastar utan um hana. Í sömu svifum sé ég að Helga yfirgefur mig, alt í einu orðin hrædd við mig. Hvað hef ég gert á hluta hennar? Hún lætur mig finna að við eigum ekki lengur neitt sameiginlegt, með mér eigi hún ekki lengur samleið, öll bönd milli mín og hennar séu slitin. Hún flýr mig, hleypur frá mér út um dyrnar.

Jafnskjótt og Helga yfirgefur mig, hrindi ég þeirri, sem ég er að dansa við, úr fangi mínu, svo hún fellur á gólfið, og ætla út á eftir Helgu; ég finn að ég má ekki sjá af augunum hennar; ég má aldrei skilja við þessa sál, aldrei, aldrei. Þá heyrast margir kalla: Takið þið hann. Takið þið hann áður en hann sleppur!

Allir eru hættir að dansa. Alt er í uppnámi.

Ég er tekinn með harðri hendi og leiddur nauðugur til baka — til stúlkunnar, sem liggur hreyfingarlaus á gólfinu.

Margir hrópa: Hann drap hana. Við sáum hann hrinda henni frá sér, svo hún féll.

Kærulaus og skilningslaus lít ég á líkið. Ég átta mig — verð agndofa — hrópa upp yfir mig: Þetta er Helga!

# Bækur

**Jakobína Johnson:**
**KERTALJÓS**
Leiftur H.F. — Reykjavík

Fallegasta og kærkomnasta jólagjöfin, sem mér barst núna um hátíðirnar er þessi nýa útgáfa af **Kertaljósum.** Áður hafði út komið smærri bók með sama nafni, og einnig í skrautútgáfu barnaljóðin: **Sá ég svani.** — Nú er það kver tekið upp aftast í þessa bók, sem einnig hefir flest af þeim kvæðum, er skáldkonan hefir ort í seinni tíð. En því fer fjarri, að hér sé alt til tínt, sem hún hefir kveðið á íslensku — að maður nú ekki nefni ensku kvæðin og þýðingarnar. Ég hefi svo oft þrástaglast á móti hinum svonefndu úrvals útgáfum, að við upptuggu liggur. En samt get ég ekki stilt mig um eitt eða tvö dæmi. Hugsum okkur, að hreppstjórinn í Akrahreppi hefði átt að velja úr kvæðum Bólu-Hjálmars. Mundi hann hafa tekið með vísuna: Stenst eg lítt við á Stóru-Ökrum? Og hvað mundi t. d. hákristinn Helvítis postuli hafa gjört við Íslandskvæðið, þar sem Hjálmar hótar drotni því, að rífa ofan af honum þakið, ef hann ekki bænheyri sig. En hér er um ekkert slíkt að ræða. Skáldkonan réði ein um, hvað í bókina fór; og get ég vel skilið að höfundar leggi til síðu ýmislegt fyrir ástæður sem þeim eru einum kunnar, án tillits til bókmentalegs gildis. Eigi að síður er að því eftirsjá, ekki síst, þegar engin líkindi standa til, að heildarútgáfur verði nokkurn tíma gerðar. Önnur er sú kredda mín, að taka aldrei vísur eða vísuparta út úr samhengi heils kvæðis sem dæmi um snild eða ágætis þess. Þegar ég hefi lesið stundum miður vel valin dæmi af þessu tæi, finst mér að lesandinn hafi átyllu til að efast um verðmæti alls þess sem ekki er nefnt.

Það hefir verið sagt um kvæði Jakobínu, að þau væru björt og lífsglöð og laus við heimsádeilu. Satt er það, því jafnvel í hinum fögru og látlausu minningarkvæðum um dótturina, sem tærðist upp og soninn, sem týndist á hafsbotni, er engin æðra, engin missætti við tilveruna. En ekki geng ég þess samt dulinn, að í öllum fjölda kvæðanna felist þó munklökk undiralda, nægileg til þess að gera þau að betri skáldskap en ella. Þegar ég les kvæði, sem snertir samhljóða streng í hjarta mínu, finst mér einhvern veginn, að það hafi ekki orðið til eingöngu fyrir einbeitni hugans. Mér finst að einhver innri rödd hafi kvíslað skipun um að festa það á blað. Stundum eru raddirnar jafnvel fleiri en ein, sem togast á um völdin. Ég ætla að nefna eitt kvæði, sem mér virðist að hafa orðið til á þennan hátt. Og ég vil strax taka það fram, að frá almennu sjónarmiði er það ef til vill hvorki betra

né verra en allur fjöldi kvæðanna. Kvæðið heitir: **Með álfum hét hún Sólrún.** Fyrsta röddin segir sögu fátækrar og umkomulausrar stúlku, sem dæmd var af umhverfinu til látlauss strits og þjónustu, en hún átti sér aðra veröld, heim hugsjóna og drauma, álfheima, sem hóf hana upp úr andstreymi daganna og inn í óskaland drauma sinna. Þetta er nú þráðurinn, eins og mér skilst hann. En strax eftir tvær fyrstu ljóðlínur hverrar vísu, grípur önnur rödd fram í, dýpri, hlutlausari rödd, sem ekki kemur efni kvæðisins beinlínis við, en þessar þriðju línur eru spakmæli, sem staðið gætu á eigin merg, en gefa samt kvæðinu aukinn örlagaþrunginn hreim.

Það er ánægjulegt, að þessi vandaða ljóðabók kom út ekki þó seinna en þetta. Enginn veit hve lengi Vestur-Íslendingum liggur ljóð á tungu, né heldur hversu langt um líður, að jafnvel það besta sem hjá þeim hefir sprottið og ekki er prentað, verði gleymt og grafið. En um það skal samt engu spáð. Hómer, Salómon og Snorri eru af fleirum lesnir nú, en þegar þeir lifðu og hrærðust. Hver veit?

—0—

**Árni G. Eylands:**

**MOLD**

Hafnarfirði — 1955

Skrítið nafn á ljóðabók, varð mér að orði, þegar ég reif hana úr umbúðunum. En svo fór ég strax að lesa, og linti ekki fyr en ég hafði lesið til enda, sem þó er ekki háskalaust, þegar ljóðabækur eiga í hlut. Og þegar ég með ánægjukend lagði frá mér bókina skildi ég til fulls nafnið. Hún er eiginlega öll um móður jörð — moldina, er gaf öllu, sem á henni grær og hrærist, líf, manninum, kvikfénaðinum, fuglum loftsins, og maðkinum; moldina, dalina og fjarðarbotnana, sem skammsýni nýtískunnar hefir vanrækt og lagt í eyði; moldina, sem tönn tímans hefir urið og blásið, en árvökult auga og hagar hendur eru nú að breyta í sáðlönd og merkur; moldina, sem geymir bein liðinna kynslóða, moldina, sem höfundurinn elskar — Ísland. Og ég fór svo að spyrja sjálfan mig: Er ekki hér í raun og veru á ferðinni stórskáld? — Nú, stórskáld er ekki ævinlega sá, sem yrkir framúrskarandi kvæði að rími og orðsnild. Stórskáld er sá einn, sem hefir stórar hugsjónir.

—0—

**Gunnar S. Hafdal:**

**STUNDIR SKINS OG SKÝJA**

H.f. Leiftur — 1955

Hér er á ferð einn hinna íslensku bænda, sem skemta sér við að yrkja yfir búverkunum. Hann er glaður í anda yfir því að geta sett orð sín og æði í stuðla og segir það á fleiri en einum stað. Hann heldur sér alla jafna við jörðina — ristir hvergi djúpt né heldur lyftir sér í svimandi hæðir. Hann yrkir um daginn og veginn, sólina, regnið, árstíðirnar, búskapinn. Hann ferðast um sveitirnar, gleðst yfir fegurð fjalla og kristalstærra lækja. Hann talar við fólkið, til fólksins, um fólkið, og minnist þeirra sem horfnir eru af sviðinu. Hann berst töluvert á, og finnur að hann á talsvert undir sér, en samt hefði hann getað vandað

betur rím og orðfæri sums staðar, án þess að missa nokkurs í við.

——0——

**Páll S. Pálsson:**

**EFTIRLEIT**

Reykjavík — 1954

Þetta er þriðja ljóðakverið sem Páll hefir gefið út. Áður höfðu komið **Norðurreykir** og **Skilarétt.** Þetta er einna minst — innan við 100 blaðsíður. Eins og alt sem Páll yrkir eru kvæðin ljóðræn, lipur og auðlesin, og standa fyllilega á sporði fyrri ára kveðskap hans; eru hér líka nokkur æskuljóð, ort fyrir innan tvítugs aldur, sem bera vitanlega þess tímabils merki. Aftast í kverinu er bálkurinn, sem hann orti í kirkjustympingunum. Margt er þar meinfyndið og hnyttið, en þó lítt skiljanlegt þeim sem ekki fylgdust með í deilunni. Enn er of skamt frá liðið, og því ekki viðlit að láta skýringar fylgja.

——0——

**Þorsteinn M. Jónsson:**

**SKRÁÐ OG FLUTT**

Akureyri — MCMLV.

Þessi stóra og myndarlega bók, 400 blaðsíður í stóru broti, er gefin út af Kennarafélagi gagnfræðaskólans á Akureyri í minningu um sjötugs afmæli höfundarins og lokaþáttinn í kennarastarfi hans.

En til þess að geta notið þessarar bókar eins og vera ber, verður maður að átta sig á hinu fjölþætta og litauðga ævistarfi höfundarins.

Þorsteinn Jónsson er bóndasonur úr Fljótsdalshéraði. Útskrifaðist af hinum gamla Möðruvallaskóla, sem þá var nýlega fluttur til Akureyrar eftir brunann. Síðan hefir hann öðlast víðtæka mentun, utan lands og innan. Aðal ævistarf hans hefir verið kensla — fyrst barna og unglinga, og síðustu 20—25 árin eða svo stjórn hins nýrri gagnfræðaskóla Akureyrar, sem stofnaður var með lögum eftir að eldri skólinn var gerður að Mentaskóla (College).

En kensla og skólastjórn var Þorsteini ekki nóg, enda þótt hann rækti þau störf af mikilli árvekni. Hann sat á Alþingi um allmörg ár og beitti sér mjög fyrir ýmsum helstu málum þá á dagskrá. Á Akureyri hefir hann lengi setið í bæjarstjórn og verið lengst um forseti hennar. Þá var hann um langt skeið einn afkastamesti bókaaútgefandi á landinu og gaf út bækur og rit ýmissa helstu skálda og rithöfunda þjóðarinnar. Sömuleiðis ársrit og tímarit, svo sem Grímu og Nýjar kvöldvökur, í félagi með öðrum. Hann ann mjög öllum þjóðlegum fræðum eldri sem yngri og er afar vel að sér í þeim, ekki síst þjóðsögum og munnmælasögum. Hann á eitt hið stærsta og fegursta einkabókasafn, sem ég hefi séð.

Þetta er þá í fáum dráttum baktjald bókarinnar, Skráð og flutt, sem er, eins og nafnið bendir til, greinar, ræður og erindi, sextíu og sex talsins. Henni er skift í sjö aðal flokka. Fyrsta ritgjörðin heitir **Faðir minn,** og er hin fegursta og sannasta lýsing á íslensku sveitaheimili fyrir og um síðustu aldamót — látlaus, hlý og full af kærleika.

Næst koma fjórtán afmælisminni til merkra samtíðarmanna, meðal þeirra eru forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, Björgvin tón-

skáld Guðmundsson og Davíð skáld Stefánsson. Einnig eru þar fjórar æviminningar dáinna merkismanna, sjö ávörp og minni, flutt á héraðssamkomum og við komu góðra gesta. Alt þetta, sem hér hefir verið nefnt, er mátulega stutt, kjarnyrt og vinfast — án smjaðurs. Þá koma nokkrar þingræður, en aðeins þær sem snerta helstu áhugamál hans á Alþingi, svo sem aðskilnað ríkis og kirkju, fræðslumál ríkisins og hærri mentaskóla. Skal hér ekkert sagt um stefnur eða skoðanir, en sjá má hér sem annars staðar að Þorsteinn hefir verið málafylgjumaður mikill. Flest að tölu eru erindi hans við skólasetning og skólaslit, yfir tuttugu als. Eru þau vitanlega svipaðs eðlis, heilbrigðar hvatningar til siðgæðis, námfýsi og reglusemi, og þótt þeim svipi mjög saman, eru þau þó hvergi tómar endurtekningar.

Í miðri bókinni er flokkur, sem nefnist **Af ýmsu tagi.** Það eru samkomuerindi ýmisleg. Virðist mér þar ljósast koma fram lífsskoðanir höfundarins. Hann dregur óspart efnivið úr fornritum þjóðarinnar og þjóðsögunum, og verður það honum að lifandi myndum hinnar íslensku þjóðarsálar. Vil ég í því sambandi nefna: **Örlagavefur, Nátttröllið á glugganum;** og **Örvar-Oddur** og **Ögmundur Eyþjófsbani.** Í Örlagavef þræðir höf. hina átakanlegu harmsögu Gísla Súrssonar og Auðar, og kemst að þeirri niðurstöðu, sem okkur var kend í barnalærdómnum, að misgjörðir feðranna falli á afkomendur þeirra í þriðja og fjórða lið. Stórskáldin, segir hann, komast aldrei lengra en örlagadísir hins raunverulega lífs. Barnið og stúlkan í Nátttröllinu verður honum að ímynd sakleysisins og hreinleikans sem sigrar myrkravöld næturinnar. Örvar-Oddur er hinn stóri leitandi andi, sem leggur undir sig ókunn lönd, siglir Hrafnistu-byr gegn veðrum og vindum, og skýtur örvum Gusis, örvum ljóssins, sem ávalt hitta í mark og aldrei glatast. Ögmundur, segir hann, er hin illa kynfylgja mannkynsins. Hann veldur ófriði, ósamlyndi og andlegri niðurlægingu. Oddur sættist að vísu við hann að kalla, af því að hann er ódrepandi — fremur andi en maður. Í sama anda eru hin skemtilegu erindi um Helgu hina fögru og Trúarskoðanir Helga magra. Ein allra skemtilegasta greinin í þessum flokki er Spjall um íslenzkar þjóðsögur. Þar á hann heima, þar er hann í essinu sínu.

Þorsteinn Jónsson er ekki, að ég held, trúmaður í þess orðs vanalegu merkingu. Háttprýðin, siðgæðið og hin forna drengskaparhugmynd ganga eins og rauður þráður í gegn um alla bókina. Ég hygg að honum svipi til Helga hins magra, eins og hann túlkar trúarhugmyndir hans. Nöfn guðanna muna minstu — hugsjónin er fyrir öllu. Eða eins og Grímur kvað:

Hvort Buddha þessi, heiðnum hinn
hallaðist kreddum að,
þriðji kendist við Kóraninn,
kemur í sama stað.

Ég held að um hann megi segja það sem sagt var um annan mætan Íslending:

Hann er sannheiðinn maður.

# Helztu viðburðir

## meðal Íslendinga vestan hafs 1956

Richard Beck tók saman

1. febr. — Leikritinu „Viking Heart“, sem George Salverson, Toronto, hafði samið upp úr samnefndri skáldsögu móður sinnar, frú Lauru Goodman Salverson, útvarpað yfir canadiska útvarpskerfið, og þótti takast prýðilega.

3. febr. — Frú V. Björg Ísfeld, Winnipeg, kjörin forseti Jóns Sigurðssonar félagsins á ársfundi þess þar í borg í stað frú Flóru Benson, Winnipeg, er skipað hafði þann sess undanfarin áratug.

6. febr. — Dr. Lee M. Hollander, prófessor í norrænum fræðum við ríkisháskólann í Texas, flutti fyrirlestur um Eddukvæðin bæði á Manitobaháskóla sem gestur íslenzkudeildar hans og opinberlega í Winnipeg á vegum Þjóðræknisfélagsins, en prófessorinn er víðkunnur fyrir enskar þýðingar sínar af íslenzkum fornkvæðum.

9. febr. — Átti Gísli Jónsson, ritstjóri og skáld í Winnipeg, áttræðisafmæli, en hann hefir áratugum saman komið mikið við sögu íslenzkra félags- og menningarmála vestan hafs.

18. febr. — Ræðismaður Íslands í Winnipeg, Grettir L. Jóhannsson, tilkynnir, að Forseti Íslands hafi þ. 9. janúar sæmt þá dr. Thorberg Thorvaldsson prófessor og Oscar Finnbogason framkvæmdarstjóra, báðir búsettir í Saskatoon, Saskatchewan, stórriddarakrossi Hinnar íslenzku Fálkaorðu, í sambandi við 50 ára afmæli Saskatchewan-fylkis síðastliðið ár.

20.—22. febr. — Þrítugasta og sjöunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg við góða aðsókn. Dr. Valdimar J. Eylands var endurkosinn forseti, og litlu síðar endurkaus stjórnarnefndin Gísla Jónsson ritstjóra **Tímarits** félagsins. Meðal ræðumanna á samkomum í sambandi við þingið var Kristján Albertsson rithöfundur í Reykjavík.

1. marz — Ragnar Swanson (ættaður af Ísafirði) lét af störfum sem formaður rannsóknarlögreglunnar í St. Boniface, Manitoba, eftir 35 ára lögregluþjónustu þar í borg.

4. marz — Sjötíu ára afmælis kvenfélagsins „Undínu“ á Mikley, Man., minnst við guðsþjónustu í lútersku kirkjunni þar. Núverandi forseti er Mrs. Emily Williams.

Apríl — Tilkynnt, að dr. Valdimar J. Eylands og séra Philip M. Pétursson, ásamt frúm þeirra, hefði verið boðið til Íslands af hálfu kirkjumálastjórnarinnar og biskups til þess að vera viðstödd hátíðahöldin í Skálholti og Reykjavík í júlíbyrjun til minningar um 900 ára afmæli stofnunar biskupsstóls á Íslandi. Sóttu þau dr. Valdimar og frú Lilja hátíðahöldin og flutti hann þar kveðjur Vestur-Íslendinga og auk þess ræður við guðsþjónustur á ýmsum stöðum og á öðrum samkomum.

5. príl — Varð iðjuhöldurinn og

athafnamaðurinn Soffonías Thorkelsson, Victoria, B.C. (áður í Winnipeg), áttræður, en hann er einnig kunnur fyrir ritstörf sín og þátttöku í vestur-íslenzkum félagsmálum.

Apríl — Kunnugt gert, að þau hjónin dr. Áskell Löve og dr. Doris Löve, sem áður höfðu starfað að kennslu og rannsóknum á fylkisháskólanum í Manitoba, hafi verið ráðin prófessorar í grasafræði, án kennsluskyldu, við Montrealháskólann, stærsta háskólann í Canada; eru þau hjónin víðkunn fyrir fræðimennsku sína og ritstörf á sviði sérgreinar sinnar.

Maí — Í þeim mánuði lauk þetta námsfólk af íslenzkum ættum námi á fylkisháskólanum í Saskatchewan:

**Bachelor of Arts:**
Enid Ellen Delgatty, Flin Flon, Man. (Íslenzk í móðurætt, hafði unnið námsverðlaun).

**Bachelor of Commerce:**
Morley Edward Árnason, B.A., Regina. (Hlaut verðlaun fyrir ritgerð).

**Bachelor of Science**
(in Mechanical Engineering):
Edward Sigurd Jónasson, Wynyard.
Glen Thomas Narfason, Foam Lake.

23. maí — Eftirfarandi námsfólk af íslenzkum ættum var brautskráð við vorprófin á Manitobaháskóla:

**Bachelor of Laws:**
Peter Thor Guttormsson, B.A. (Með heiðri).

**Doctor of Medicine:**
Hjálmar Wilfred Johnson. (Með heiðri).
Grahame Walter Carl Thorkelson, B.Sc.

**Bachelor of Pedagogy:**
John Handford Hjálmarson, B.A.
Clarence Thorsteinn Swainson.

**Bachelor of Arts:**
Beverley Ann Armstrong (íslenzk í móðurætt).
Vilborg Kristjana Eyjólfsson.
Gilbert Raymond Goodman.
Sandra Gail Hart (íslenzk í móðurætt; hlaut verðlaun sem fremsti kvenstúdent ársins).
Marilyn Ragna Hurst (íslenzk í móðurætt).
Jaqueline Johnson.
Norma Olive Johnson.
Gertrude Edith Hanson, B.Sc. (H.E.)
Violet Christine Johnson.
Valdína Ólafsson.
Marion Campbell (íslenzk í móðurætt).

**Bachelor of Interior Design:**
Shirley Jo-Ann Blöndal.

**Bachelor of Social Work:**
Joyce Marie Thordarson.

**Bachelor of Science**
(General Course):
Heather Jocelyn Ámundson.
Jóhanna Norma Shirley Johnson.

**Bachelor of Science**
(in Mechanical Engineering):
Dennis Böðvar Sigurdson.

**Bachelor of Education:**
Roy Herbert Ruth, M.A.

**Bachelor of Science in Agriculture:**
Björn Sigurbjörnsson (hlaut heiðurspening háskólans í gulli og styrk til framhaldsnáms).
Herbert Leslie Kernested.

**Bachelor of Science in Home Economics:**
Muriel Vivien Eyvindson.
Erla Joan Helgason.
Lois Evelyn Stefánsson.

**Certificate in Nursing Education:**
Emily Kristine Einarson.
Wilma Florence Hokanson.

**Diploma in Dairying:**
Richard Lorne Thomas Björnson.

Maí — Við uppsögn Manitobaháskólans hlaut Dr. Daniel Peter Snidal, sonur Dr. og Mrs. J. G. Snidal í Winnipeg, bæði heiðurspening og önnur námsverðlaun, og ennfremur styrk til náms og rannsókna árlangt við Johns Hopkins háskólann í Baltimore, Maryland, í Bandaríkjunum.

Maí — Við vorprófin á fylkisháskólanum í British Columbia luku námi þessir nemendur af íslenzkum ættum:

**Doctor of Medicine:**
Gerald Jóhann Philippson, B.A.
Theodore Thomas Thordarson, B.A.

**Master of Social Work:**
Margrét Stefanía Bardal, B.Sc. (H. Ec.)

**Bachelor of Social Work:**
Rosemary Selma Alden, B.A. (Íslenzk í móðurætt).

**Bachelor of Arts:**
June Margaret Nylander (Íslenzk í móðurætt).
Beverley Anne Polson.

29. maí — Prófessor Finnbogi Guðmundsson, er þá var á förum til Íslands eftir fimm ára starf sem háskólakennari í íslenzkum fræðum við fylkisháskólann í Manitoba, kvaddur með fjölmennu og virðulegu samkvæmi, er Þjóðræknisfélagið efndi til, en hann hafði unnið margþætt starf í þágu vestur-íslenzkra þjóðræknis- og menningarmála.

Maí — Blaðafrétt skýrir frá því, að Dr. Tryggvi J. Oleson, prófessor í sagnfræði við Manitobaháskólann, hafi bæði hlotið fararstyrk til sögulegra rannsókna í Englandi og „Guggenheim Foundation“ styrk að upphæð $4,000 til árs dvalar við Harvard-háskólann í Bandaríkjunum til sögulegra rannsókna og ritstarfa.

30. maí — Carmelle Thorfinnson, dóttir þeirra Mr. og Mrs. A. S. Thorfinnson, Wynyard, Sask., lauk prófi í læknisfræði á McGill-háskólanum í Montreal.

Maí — Emile Walters listmálari flaug til Grænlands til þess að mála íslenzka sögustaði á þeim slóðum; vinnur hann það verk á vegum Utanríkisráðuneytis Bandaríkjanna.

Maí — Þeir Tómas Guðmundsson skáld frá Reykjavík og séra Jón Þorvarðsson, prestur Háteigssafnaðar þar í borg, er voru í kynnisför um

Bandaríkin í boði Utanríkisráðuneytisins, heimsóttu landa sína í N. Dakota og Manitoba; flutti skáldið ávarp og las upp kvæði sín á samkomum að Mountain og í Winnipeg, en séra Jón sagði fréttir af Íslandi.

1.—3. júní — Þrítugasta og annað ársþing Bandalags lúterskra kvenna haldið í Winnipeg. Mrs. B. Bjarnarson, Langruth, var endurkosin forseti.

3. júní — Við vorprófin á ríkisháskólanum í N. Dakota brautskráðust þessir nemendur af íslenzkum ættum:

**Bachelor of Arts:**
Richard Arlan Ólafson, Minto, N. Dak. (Íslenzkur í föðurætt, sonarsonur séra Kristins K. Ólafsson; lauk námi með heiðri og hafði hlotið ýmsar námsviðurkenningar).

**Bachelor of Science**
(in Business Education):
Edward Theodore Bernhöft, Cavalier, N. Dak.

**Bachelor of Science**
(from the School of Medicine):
Jón Valdimar Eylands, B.A., Winnipeg, Man.

4. júní — Concordia College, Moorhead, Minnesota, sæmdi Þórð W. Thordarson, prófessor við Landbúnaðarháskóla Norður Dakota í Fargo, N. Dak., heiðursdoktors nafnbót í lögum fyrir störf hans í þágu búnaðar- og fræðslumála í Norður Dakota og Minnesota.

4. júní — Nancy Lou Ólafsson, dóttir þeirra séra Sveinbjörns S. Ólafssonar og frúar hans, St. Paul, Minnesota, lauk prófi með háum heiðri á Hamline University, St. Paul, og hlaut menntastigið "Bachelor of Science in Nursing."

10. júní — Forseti Íslands sæmdi Gretti Eggertson, Winnipeg, riddarakrossi Hinnar íslenzku Fálkaorðu fyrir störf hans í þágu íslenzkra mála, en daginn áður hafði hann á ársfundi Eimskipafélags Íslands í Reykjavík verið endurkosinn í stjórn félagsins.

14. júní — Dr. Richard Beck prófessor kjörinn heiðursfélagi Stórstúku Góðtemplarareglunnar á Íslandi á ársþingi hennar á Akureyri í viðurkenningarskyni fyrir störf hans að bindindismálum beggja megin hafsins.

17. júní — Lýðveldisdags Íslands minnst með hátíðahöldum þann dag eða um þær mundir víðsvegar meðal Íslendinga í Vesturheimi.

17. júní — Ræðismaður Íslands í Winnipeg afhenti dr. Sveini E. Björnsson þar í borg riddarakross Hinnar íslenzku Fálkaorðu, sem Forseti Íslands hafði sæmt hann stuttu áður í viðurkenningarskyni fyrir störf hans í þágu íslenzkra menningarmála vestan hafs.

Júní — David Kristmanson, sonur þeirra Mr. og Mrs. Dan Kristmansson, Prince Rupert, B.C., veittur Athlone-námsstyrkurinn til tveggja ára framhaldsnáms á Englandi; hann lauk prófi með háum heiðri við fylkisháskólann í British Columbia 1953 og hafði áður hlotið háan námsstyrk.

25. júní — Hélt frú Hanna Bjarnadóttir söngkona hljómleika í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg á vegum þjóðræknisdeildarinnar „Fróns“ við

góða aðsókn og mikla hrifningu áheyrenda; tveim dögum síðar efndi hún til söngsamkomu að Mountain, N. Dak., á vegum þjóðræknisdeildarinnar þar við sambærilegar undirtektir tilheyrenda.

Júní — Við fylkiskosningar í Saskatchewan var Ásmundur Loptson endurkosinn þingmaður af hálfu Liberalflokksins í Salt Coats kjördæminu með miklu afli atkvæða.

Júní — Tilkynnt, að dr. P. H. T. Thorlakson láti um þær mundir af yfirskurðlækningaembætti við Almenna sjúkrahúsið í Winnipeg, en hann á sér að baki glæsilegan embættisferil og hefir tekið margháttaðan þátt í vestur-íslenzkum félagsmálum.

28. júní—1. júlí — Ársþing "The Western Canada Unitarian Conference" (áður Hið Sameinaða Kirkjufélag Íslendinga) haldið í Winnipeg. Séra Philip M. Pétursson var endurkosinn útbreiðslustjóri. Samtímis hélt Samband kvenfélaga þess kirkjufélags þrítugasta ársþing sitt þar í borg. Mrs. S. E. Björnsson var kosin forseti.

.—11. júlí — Sjötugasta og annað ársþing Hins ev. lút. Kirkjufélags Íslendinga haldið í Vancouver, B.C. Dr. Valdimar J. Eylands var endurkosinn forseti. Í sambandi við kirkjuþingið vígði varaforseti félagsins, séra Guttormur Guttormsson, í fjarveru forseta, hina nýju íslenzku kirkju í Vancouver, en prestur hennar er séra Eiríkur Brynjólfsson.

Júlí — Seint í þeim mánuði fór prófessor Þórður W. Thordarson, ásamt frú sinni og dóttur, til Íslands á vegum Efnahagssamvinnustofnunar Bandaríkjanna og Búnaðarfélags Íslands; dvöldu þau þar fram eftir sumri og ferðuðust víða um landið og flutti hann ræður á ýmsum samkomum.

29. júlí — Íslendingadagur haldinn við Friðarbogann í Blaine, Wash.

29. júlí — Fimmtíu ára afmælis Lúterska safnaðarins að Lundar, Man., minnst með sérstakri guðsþjónustu þar í bæ. Stofnandi safnaðarins var dr. Rúnólfur Marteinsson.

6. ágúst — Hinn árlegi Íslendingadagur haldinn að Gimli, Man.

25. ágúst — Kom til Winnipeg hinn nýskipaði prófessor við íslenzkudeild Manitobaháskólans, — Haraldur Bessason, ásamt fjölskyldu sinni. Hann er Skagfirðingur að ætt og lauk meistaraprófi í íslenzkum fræðum við Háskóla Íslands 1956.

Ágúst — Í þeim mánuði fór Valdín G. Johnson kennslukona, dóttir þeirra Jóns og Ólínu Johnson í Winnipeg, til Frakklands til þess að taka að sér kennarastöðu við barnaskóla flughers Canada og brezkra flugmanna í borginni Metz.

Sept. — Menntamálaráðherra Manitobafylkis gerir kunnugt, að Peter D. Curry hafi verið skipaður í háskólaráð Manitobaháskólans; hann er íslenzkur í móðurætt og kunnur fjársýslumaður og fyrrv. formaður skólaráðs Winnipegborgar.

Sept. — Á fundi Jóns Sigurðssonar félagsins var frú Hólmfríður Danielson, Winnipeg, kosin ævifélagi þess félagsskapar, en hún hefir verið ritari félagsins í 14 ár og sérstaklega starfað að fræðslumálum þess.

23. sept. — Séra Bragi Friðriksson, sem þjónað hafði um undanfarin ár

íslenzku söfnuðunum lútersku að Lundar og Gimli, og tekið mikinn og góðan þátt í félags- og þjóðræknismálum, lagði af stað alfarinn til Íslands ásamt fjölskyldu sinni.

28. sept. — Á fundi Hannyrðafélagsins í Manitoba (Manitoba Branch of the Canadian Handicrafts Guild) voru þau hjónin Albert og Soffía Wathne, sem þá voru á förum frá Winnipeg til Vancouver, kosin ævifélagar félagsins í viðurkenningarskyni fyrir störf sín í þágu þess. Hefir frú Soffía sérstaklega gert sér far um að kynna íslenzka hannyrðaog skartgripalist, og þau hjón bæði árum saman tekið drjúgan þátt í kirkjulegu starfi og öðrum íslenzkum félagsmálum.

Sept. — Um þær mundir komu þeir bræðurnir og læknarnir, Kenneth og Robert Thorlakson, synir Dr. og Mrs. P. H. T. Thorlakson í Winnipeg, heim eftir fimm ára framhaldsnám í skurðlækningum á Englandi, en þar höfðu þeir báðir hlotið menntastigið "Degree of Fellow of the Royal College of Surgeons of England."

Sept. — Í byrjun þess háskólaárs átti kennslan, og þá um leið deildin í Norðurlandamálum og bókmenntum á ríkisháskólanum í Norður-Dakota 65 ára afmæli. Undanfarin 27 ár hefir dr. Richard Beck verið háskólakennarinn í norrænum fræðum og forseti deildarinnar og síðustu árin forseti hinnar erlendu tungumáladeildar háskólans.

3. okt. — Átti vikublaðið „Heimskringla" í Winnipeg sjötugsafmæli; núverandi ritstjóri hennar, Stefán Einarsson, hefir áratugum saman skipað þann sess, og samtímis lagt sinn skerf til vestur-íslenzkra félagsmála.

Okt. — Steindór Steindórsson yfirkennari á Menntaskólanum á Akureyri, er var á ferðalagi í Bandaríkjunum í boði Utanríkisráðuneytis þeirra, flutti erindi um Ísland á ríkisháskólanum í Norður-Dakota, á samkomu þjóðræknisdeildarinnar að Mountain, á samkomu er Þjóðræknisfélagið stóð að í Winnipeg og á samkomu þjóðræknisdeildarinnar að Gimli.

6. nóv. — Við almennar kosningar í Bandaríkjunum var Valdimar Björnson, blaðamaður í Minneapolis, kjörinn ríkisféhirðir Minnesotaríkis; samdægurs var Frímann M. Einarsson að Mountain endurkosinn ríkisþingmaður í Norður-Dakota.

18. nóv. — Hornsteinn lagður að hinni nýju byggingu elliheimilisins „Betel" að Gimli með virðulegri athöfn og að viðstöddu fjölmenni. Dr. P. H. T. Thorlakson, formaður byggingar- og fjársöfnunarnefndar, hafði samkomustjórn með höndum. Hornsteinslagninguna framkvæmdi forsætisráðherra Manitobafylkis, Mr. Douglas Campbell, en aðalræðuna flutti R. W. Bend, heilbrigðis- og velferðamálaráðherra fylkisins. — Aðrir, sem tóku þátt í athöfninni, voru dr. Valdimar J. Eylands, B. Egilsson, bæjarstjóri á Gimli, séra Philip M. Pétursson og séra Sigurður Ólafsson.

21. nóv. — Minnst 70 ára afmælis Kvenfélags Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg með sérstöku hátíðahaldi. Forseti félagsins, Mrs. Jóna Sigurðsson, stjórnaði samkomunni; ræður fluttu þær Miss Thea Herman og Mrs. Margrét Stephensen,

en söngflokkur söng undir stjórn Mrs. Eric Ísfeld.

25. nóv. — Blaðafrétt skýrir frá því, að dr. Richard Beck hafi um þær mundir flutt sína þúsundustu ræðu síðan hann hóf starf sitt við ríkisháskólann í N. Dakota haustið 1929, og lætur þess jafnframt getið, að megin þorri þessa ræðufjölda hafi að einhverju leyti fjallað um íslenzkar og norrænar menningarerfðir.

Nóv. — G. S. Thorvaldson, Q.C., lögfræðingur í Winnipeg, kosinn formaður Lögfræðingafélagsins í Manitoba.

2. des. — Séra John Fullmer settur inn í embætti í Gimli-prestakalli af dr. Valdimar J. Eylands, forseta Kirkjufélagsins lúterska. Samdægurs setti dr. Haraldur Sigmar, fyrrv. forseti Kirkjufélagsins, séra Norman B. Nelson inn í embætti sem prest Hallgrímskirkju í Seattle, Wash.

3. des. — Við aukakosningu til fylkisþingsins í Manitoba í St. George kjördæminu var Elman Guttormson, blaðamaður í Winnipeg, kosinn þingmaður af hálfu Liberalflokksins með miklum atkvæðamun. Hann er innan við þrítugt, sonur þeirra Jóns kaupmanns Guttormsson og konu hans að Lundar, Man., og sonar sonur Vigfúsar skálds og Vilborgar Guttormsson þar í bæ.

16. des. — Séra Skúli J. Sigurgeirsson settur inn í embætti í Edmore prestakalli Evangelisku lút. kirkjunnar í N. Dakota, en hann hafði áður þjónað lúterskum söfnuði í Duluth, Minn.

# Mannalát

**Desember 1954**

17. Sigurður Snorri Sigurðsson, á elliheimilinu „Stafholti", Blaine, Washington. Fæddur 4. apríl 1876. Foreldar: Oddur Sigurðsson og Sigríður Gunnlaugsdóttir í Hrappsstaðaseli á Fljótsheiði í Suður-Þingeyjarsýslu. Fluttist vestur um haf með móður sinni 1883.

22. Valdimar Goodman, bóndi að Bantry, N. Dakota, á hjúkrunarheimili í Minot, N. Dak. Fæddur að Ely, N. Dak., 21. ágúst 1892. Foreldrar Guðmundur og Anna Helgason í Mouse River byggð, N. Dak.

**Nóvember 1955**

6. Ólöf Þorgerður Christopherson, Vancouver, B.C. Fædd 22. apríl 1882 að Ytri-Neslöndum í Suður-Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Sigurjón Kristófersson og Helga Jórunn Jónsdóttir; kom með þeim til Canada 1893.

**Desember 1955**

15. Júlíana Diðriksdóttir Johnson, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd 18. júní 1887. Foreldrar: Diðrik Guðmundsson og Karítas Guðmundsdóttir í Selskarði á Álftanesi. Kom til Canada 1914.

**Janúar 1956**

2. Kristjana Sigríður Daníelsson, kona Kristjáns Daníelssonar, frumherja að Lundar, Man., á heimili sínu í Winnipeg. Fædd að Lækjarbug í Mýrasýslu 23. des. 1875; kom til Canada 1897.

5. Steinunn Kristjana Curry, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd á Brekku í Fljótsdal 6. des. 1906; fluttist 1911 til Vesturheims með foreldrum sínum, Jóhannesi Kristjánssyni (Christie) frá Snæringsstöðum í Húnavatnssýslu og Ólöfu Eggertsdóttur frá Lóni í Kelduhverfi.

7. Anna Guðrún Anderson, á heimili sínu í grennd við Mountain, N. Dak. Fædd á Hólum í Hjaltadal 20. marz 1877. Foreldrar: Jóhann Sigurðsson og Karítas Sveinsdóttir. Kom vestur um haf aldamótaárið.

7. Thorsteinn Thorsteinsson, að heimili sínu í Vancouver, B.C. Fæddur í Bakkagerði í Borgarfirði eystra 3. júní 1901. Foreldrar: Bjarni Þorsteinsson myndasmiður og skáld, og Björg Jónsdóttir, Jónssonar frá Sleðbrjót; kom með þeim vestur um haf 1903.

11. Hallgrímur B. Sigurðsson, að heimili sínu í grennd við Mountain, N. Dak.

Fæddur 24. nóv. 1886. Foreldrar: Sigurður Kráksson, ættaður úr Eyjafirði, og Kristín Þorsteinsdóttir frá Óxará (Axará) í Bárðardal, er fluttust til Vesturheims 1878.

16. Margrét Símonarson, ekkja Sigvalda Símonarsonar landnámsmanns, að heimili sínu að Framnesi í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi, Man. Fædd 21. sept. 1859 að Aðalbóli í Miðfirði í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Benedikt Bjarnason hreppstjóri og Margrét Guðmundsdóttir. Fluttist til Vesturheims 1887.

18. Guðrún Goodman Sigurdson, að heimili sínu í Winnipeg, 72 ára að aldri.

19. Úranía Jónasson, á sjúkrahúsi í Árborg, Man., 53 ára að aldri.

21. Laura Olson Moxley, á sjúkrahúsi að Gimli, Man., 39 ára.

23. Guðrún Jónsdóttir Stefánsson, ekkja Sigtryggs Stefánssonar landnámsmanns, á heimili sínu í Glenboro, Man. Fædd að Þverá í Staðarbyggð í Eyjafjarðarsýslu 20. júní 1860. Foreldrar: Jón Þorsteinsson og Lilja Ólafsdóttir. Kom til Ameríku 1882.

28. Halldór Thorolfsson, trésmíðameistari og fyrrv. söngstjóri, á heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Hörðubóli í Dalasýslu 26. okt. 1879. Foreldrar: Þórólfur Jósson og Halldóra Halldórsdóttir. Kom til Canada 1887. Lengi forvígismaður í hljómlist og söngmennt meðal Íslendinga í Winnipeg.

29. Jón Ásmundsson, á heimili sínu í Blaine, Wash. Fæddur í Eyford-byggð í N. Dakota 30. des. 1885. Foreldrar: Ásmundur Ásmundsson og Ósk Teitsdóttir.

Jan. — Kristján Guðnason landnámsmaður, að Baldur, Man., níræður að aldri. Fluttist vestur um haf 1893.

**Febrúar 1956**

2. Ólína Jónsdóttir Guðlaugsson, á elliheimilinu „Höfn" í Vancouver, B.C. Fædd í Svarðbæli í Rangárvallasýslu 10. febrúar 1877. Foreldrar: Jón Ólafsson og Geirdís Ólafsdóttir; kom með þeim til Canada 1899.

6. Jóna Jörundsson, ekkja Lofts Jörundssonar, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd á Rjúpnafelli í Vopnafirði 15. maí 1878. Foreldrar: Guðmundur Jóssson og Anna Þorsteinsdóttir. Kom vestur um haf 1903.

9. Sigurbjörg Helgadóttir Teitsson, ekkja Ágústs Teitssonar, á heimili sínu í Blaine, Wash. Fædd 14. maí 1868 að Syðra-Skörðugili í Skagafirði. Foreldrar: Helgi Jónsson og Margrét Jónsdóttir. Kom til Vesturheims 1892.

12. Christina Lilia Ísfeld, í Mozart, Sask. Fædd í Curityba í Paranaríki í Suður-Brasilíu 7. sept. 1879. Foreldrar: Magnús Guðmundsson Ísfeld (Brasilíufari) og Elín Jóelsdóttir, bæði úr Bárðardal. Kom með þeim til Canada 1904.

19. Stefán Ólafsson frá Riverton, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, um sextugt. Foreldrar: Stefán Ólafsson og Jóhanna María Friðriksdóttir frá Víðidalstungu í Húnavatnssýslu.

19. Sóllín Árnadóttir Pétursson, á sjúkra húsi í Bellingham, Wash. Fædd 24. jan. 1879 í Lundarreykjadal í Borgarfjarðarsýslu. Foreldrar: Árni Sveinbjörnsson hreppstjóri og Ólöf Jónsdóttir; kom til Canada ung að aldri.

22. Framar Eyford, frá Vogar, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur á Hallanda í Eyjafjarðarsýslu 23. maí 1883. Foreldrar: Jón Sigurgeirsson og Stefanía Friðbjarnardóttir. Kom til Canada 1903. Forystumaður í félagsmálum byggðar sinnar.

27. Sveinn Jósepsson, fyrrum að Mountain, N. Dak., að heimili sínu í Seattle, Wash., 96 ára að aldri. Ættaður úr Dölum vestur; kom til Vesturheims með móður sinni 1885.

28. Walter (Wolfgang) Friðfinnsson, í Timmings, Ontario, 54 ára að aldri, fæddur í Baldur, Man. Foreldrar Jón tónskáld Friðfinnsson og Anna Jónsdóttir. Víðkunnur hockey-leikari.

**Marz 1956**

8. Kristinn Guðjón Walterson, á sjúkrahúsi í Geraldton, Ontario. Fæddur í Selkirk, Man., 11. okt. 1887. Foreldrar: Kristinn Guðjón Walterson og Guðrún Helgadóttir Sigurðssonar prests á Melum.

11. Laufey Anderson, að heimili sínu í Chicago, Ill., sextug að aldri. Foreldrar: Hávarður Guðmundsson og fyrsta kona hans að Hayland, Man.

13. Guðmundur Franklin Olson, á sjúkra húsi í Beausejour, Man. Fæddur í Glenboro, Man., 19. apríl 1896. Foreldrar: Guðmundur Eyjólfsson Olson byggingameistari, frá Geitdal í Skriðdal í Suður-Múlasýslu, og Gíslína Gísladóttir, ættuð úr Köldukinn, er komu vestur um haf snemma á árum.

16. Gunnlaugur Jónsson, fyrrum í Árborg, Man., að heimili sínu í Winnipeg, 79 ára að aldri. Fæddur að Valshamri á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu. Foreldrar: Jón hreppstjóri Jónsson og Málmfríður Jósephsdóttir. Kom til Canada 1907.

16. Jóhannes Grímólfsson, að heimili sínu í Mikley, Man., 81 árs gamall. Foreldrar: Grímólfur Ólafsson frá Brúarhrauni í Hnappadalssýslu og seinni kona hans, Steinunn Jónsdóttir frá Glerárskógum í Dalasýslu; kom með þeim vestur um haf 1893.

17. Hjálmar Helgason, landnámsmaður í Leslie-byggð í Saskatchewan, að heimili sínu í Mozart, Sask. Fæddur á Neslöndum í Mývatnssveit 11. okt. 1864. Nam land í Leslie 1904.

28. Jón M. Gíslason landnámsmaður, á sjúkrahúsi í Morden, Man. Fæddur að Hallson, N. Dak., 19. maí 1885. Foreldrar: Jón Gíslason frá Flatatungu í Skagafirði

og Sæunn Þorsteinsdóttir frá Gilhaga í sömu sveit, er fluttu vestur um haf 1883.

**Apríl 1956**

1. Bjarni Benedikt Jóhannsson, landnámsmaður í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi, á sjúkrahúsi í Árborg, Man. Fæddur 5. maí 1867. Foreldrar: Jóhann Jónsson og Gunnlaug Bjarnadóttir að Fosskoti í Miðfirði; kom með þeim til Canada 1876.

1. Loftur Guðmundsson, á heimili sínu í St. Vital, Man., 78 ára; kom til Canada fyrir 53 árum.

1. Þórunn Björg Sigurdson, kona Júlíusar J. Sigurdson, á heimili sínu við Camp Morton, Man. Fædd að Hvolshólum í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu 4. okt. 1889. Foreldrar: Pétur Eyjólfsson og Sigurbjörg Magnúsdóttir, er fluttu vestur um haf 1889.

4. Stefán Halldór Stefánsson lögregluþjónn, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur í Lundarbyggð, Man. 18. des. 1914. Foreldrar: Guðmundur A. Stefánsson og Jóhanna Jónsdóttir Sigfússonar.

5. Árni Johnson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur í Kolsstaðarhjáleigu í Berufirði í Suður-Múlasýslu 13. okt. 1871. Foreldrar: Jón Magnússon og Þórunn Árnadóttir. Kom til Canada 1903.

7. Björgvin Eric (Ben) Jónsson, lengi hafnarverkfræðingur í Churchill, Man., á heimili sínu í Selkirk, Man., 63 ára að aldri.

7. Hallgrímur Björnsson trésmíðameistari, að heimili sínu í Riverton, Man., 85 ára. Fæddur að Ekkjufelli í Fellum í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Björn Sæmundsson og Aðalbjörg Hinriksdóttir. Kom vestur um haf 1903.

10. Einar Malvin Einarsson kaupmaður, á sjúkrahúsi í Winnipegosis, Man. Fæddur í Árnes, Man., 27. febr. 1900. Foreldrar: Jón og Sigríður Einarsson.

14. Guðbjörg Stefánsson, að heimili sínu í Winnipeg, 73 ára að aldri.

17. Thorunn Jónína Cox, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd að Mountain, N. Dakota, 66 ára gömul.

20. Björgvin Guðmundsson, á heimili sínu að Lundar, Man. Fæddur 28. júlí 1894 á Lundi í Álftavatnsbyggð. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson og Mekkína Jónsdóttir.

20. Halldór B. Hofteig landnámsmaður, að heimili sínu í Lyon County í Minnesota. Fæddur 27. sept. 1878. Foreldrar: Sigurbjörn Sigurðsson Hofteig og Steinunn Magnúsdóttir frá Skeggjastöðum á Jökuldal, er fluttust vestur um haf 1878.

23. Sigríður Rósa Hannesson, ekkja Kristjáns Hannessonar, á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd að Hjarðarholti í Stafholtstungum í Mýrasýslu 25. nóv. 1871. Foreldrar: Ólafur Tómasson og Elín Sæmundsdóttir; kom með þeim til Canada 1887.

24. Guðrún Hannesdóttir Harold, á heimili sínu í Hanover, New Hampshire, í Bandaríkjunum, 92 ára að aldri. Fluttist vestur um haf 1884.

26. Jón Jónasson frá Árnes, Man., á sjúkrahúsi að Gimli, Man. 82 ára.

26. Jóhanna Olson Johnson, fyrrum píanókennari, í Saskatoon, Sask., 65 ára. Hún var ekkja Helga Jónssonar, bróður Guðmundar Kamban rithöfundar.

Apríl — Carl Guðmundur Níelsson smiður, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur í Vopnafirði 10. des. 1873. Foreldrar: Andrés Níelsson og Sigurveig Jónsdóttir. Kom til Canada 1910.

**Maí 1956**

1. Sigurður Vopni, bóndi að Kandahar, Sask., á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fæddur 15. júlí 1883 á Hákonarstöðum á Jökuldal í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Guðjón Jónsson og Guðríður Sigurðardóttir, bæði úr Vopnafirði; kom með þeim til Vesturheims 1889.

2. Guðbjörg Berg, ekkja Guðmundar Berg, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 79 ára. Hafði verið búsett í Manitoba í 53 ár.

4. Jón Gíslason, fyrrum bóndi í grennd við Bredenbury, Sask., á elliheimilinu „Höfn" í Vancouver, B.C. Fæddur 1. ágúst 1871 að Geitstekk í Hörðudal í Dalasýslu. Foreldrar: Gísli Jón Sigurðsson og Hólmfríður Jónsdóttir. Kom til Canada 1891. Áhugamaður um sveitar- og félagsmál.

9. Kjartan A. Eggertsson frá Hekla, Man., drukknaði í Winnipegvatni.

11. Oddur Sveinn Swanson, að heimili sínu í Selkirk, Man., 82 ára að aldri.

12. Mildred Oddson, ekkja Þorsteins Oddssonar, að heimili sínu í Norwood, Man., níræð að aldri.

12. Sigurður Júlíus Jóhannesson læknir, á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur 9. jan. 1868 að Læk í Ölvesi. Foreldrar: Jóhannes smiður Jónsson og Guðlaug Hannesdóttir. Kom vestur um haf 1899. Fjölhæfur og mikilvirkur rithöfundur og skáld og forystumaður í félagsmálum.

14. Helga Austman, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 87 ára að aldri. Kom vestur um haf fyrir 53 árum.

18. Stefán Stefánsson, á heimili sínu í Selkirk, Man., 44 ára.

20. Ragnhildur Davíðsson (Davidson), ekkja Guðmundar kaupm. Davíðssonar á Garðar, N. Dak., á heimili sínu í Grand Forks, N. Dak. Fædd 5. maí 1874, en fluttist ung að aldri vestur um haf með foreldrum sínum, Hannesi Björnssyni, frá Ljótshólum í Svínadal í Húnavatnssýslu, og konu hans.

30. Karólína Guðrún Erlendsson Prout,

í Detroit, Michigan, í Bandaríkjunum. Fædd 13. maí 1877 á Eskifirði í Suður-Múlasýslu. Foreldrar: Erlendur og Sigurleif Erlendsson; kom með þeim til Canada 1890.

Maí — Guðmundur A. Nordal trésmiður, á sjúkrahúsi í Foam Lake, Sask. Fæddur 10. okt. 1884 í Winnipeg. Foreldrar: Rafn og Vigdís Sigurðardóttir Nordal, er voru meðal fyrstu landnema í Glenboro, Man.

**Júní 1956**

7. Jóhanna Dunn, á heimili sínu í Winnipeg, 78 ára að aldri.

7. Lárus Björnsson, eigandi smjörgerðarhússins í Fraserwood, Man., á sjúkrahúsi að Gimli, Man., 54 ára.

11. Jón J. Vopni, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man. Fæddur á Ljótsstöðum í Vopnafirði 4. sept. 1864. Foreldrar: Jón Jónsson, timburmaður og hreppstjóri, og Arnþrúður Vigfúsdóttir. Kom til Canada 1887. Kunnur athafnamaður og forystumaður í félagsmálum.

11. Jóhanna Laura Sokolski frá Walkleyburg, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 61 árs að aldri. Fædd í Austur-Selkirk, dóttir landnámshjónanna Árna og Jóhönnu Thorarinson.

12. Steinunn Loftson, ekkja Sveinbjörns Loftssonar landnámsmanns í Þingvallabygð í Saskatchewan, í Vancouver, B.C. Fædd 14. ágúst 1861 að Haukagili í Borgarfirði syðra. Foreldrar: Ásmundur Þorsteinsson og Sigríður Jónsdóttir. Kom vestur um haf 1887.

12. Kristján Gottfred Johnson kjötsali, á heimili sínu í Winnipeg, 85 ára gamall. Ættaður úr Eyjafirði, fluttist til Vesturheims 1889.

12. Ólafur Gunnarsson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fæddur 6. jan. 1866 á Vatnsleysuströnd. Foreldrar: Gunnar Gunnarsson og Ingveldur Eyjólfsdóttir. Kom til Canada 1898.

13. María Árnason, ekkja Sveinbjörns Árnasonar byggingameistara, á heimili sínu í Winnipeg, Man., hnigin að aldri.

16. Anna Steinunn Duplissa, á elliheimili í Selkirk, Man. Fædd í Vestmannaeyj-24. sept. 1879. Foreldrar: Jón Guðmundsson og Veigalín Eiríksdóttir. Fluttist til Canada 1903.

20. Vilhjálmur Tómas Fedor Thordarson, á heimili sínu í Mikley, Man., 41 árs að aldri.

20. Þuríður Thordarson saumakona, á hjúkrunarhæli í Winnipeg. Fædd í Miðfirði í Húnavatnssýslu 22. okt. 1866. Foreldrar: Þórður Narfason og Guðrún kona hans. Kom vestur um haf á tvítugsaldri.

21. Hjörtur Bergsteinsson frá Saskatoon, Sask., í Craik, Sask., 92 ára að aldri. Kom til Canada 1887 og var lengstum búsettur í Alameda, Sask. Tók mikinn þátt í sveitarmálum.

24. Magnús Guðjón Guðjónsson rakari, á sjúkrahúsi í Arlington, Virginia, í Bandaríkjunum. Fæddur 31. des. 1907 í Vestmannaeyjum. Foreldrar: Guðjón Júlíus Guðjónsson og Guðbjörg Jónsdóttir. Fluttist til Bandaríkjanna 1951.

29. Helga Björnsson, ekkja Sigurðar Björnssonar, á elliheimilinu „Borg“ að Mountain, N. Dak., Fædd 6. jan. 1865 að Hallgerðarstöðum í Skagafirði. Foreldrar: Guðmundur Ísleifsson og Guðbjörg Eyjólfsdóttir. Kom til Vesturheims með móður sinni 1876.

30. Gróa Þuríður, ekkja Gunnars Gunnarssonar, á sjúkrahúsi í Regina, Sask., 76 ára. Fluttist til Canada úr Fáskrúðsfirði í Suður-Múlasýslu árið 1914 með manni sínum.

**Júlí 1956**

1. Ólafur Magnússon, lengi bóndi í Vogarbyggð í Manitoba, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur 30. sept. 1875 að Gili í Fljótum. Foreldrar: Magnús Björnsson og Anna Davíðsdóttir. Kom vestur um haf 1911.

5. Alfred Guðjónsson, á sjúkrahúsi í Saskatoon, Sask. Fæddur að Garðar, N. Dak., 4. okt. 1897. Foreldrar: Ásgeir og Sigríður Guðjónsson, er fluttust til Vesturheims 1894.

6. Sigfús Brynjólfsson byggingameistari í San Francisco, Cal. Fæddur á Sauðanesi eða Vopnafirði 1882 eða 83. Foreldrar: Sveinn Brynjólfsson byggingameistari og um skeið konsúll Danaveldis í Winnipeg, og kona hans Þórdís Björnsdóttir, Skúlasonar. Kom með foreldrum sínum til Winnipeg árið 1901.

7. Sigríður Galbraith, um langt skeið búsett í Cavalier, N. Dak., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd 10 júní 1875. Foreldrar: Magnús Halldórsson frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði og Ólöf Ólafsdóttir; kom með þeim vestur um haf 1881.

7. Þorleifur Sigurður Daníelsson, að heimili sínu í Winnipeg; átti lengi heima í Mikley, Man. Fæddur 13. okt. 1885 í Bolungarvík. Foreldrar Daníel Eggertsson og Kristín Örnólfsdóttir. Fluttist vestur um haf 1893.

8. Geirþrúður Helga Ólafsdóttir (Mrs. Dúa Hansen), í Seattle, Wash., ættuð af Vestfjörðum.

14. Kristín Halldórsson, ekkja Þorgils Halldórssonar, á elliheimilinu „Borg“ að Mountain, N. Dak. Fædd 8. des. 1853 Foreldrar: Jón Tómasson á Kálfaströnd við Mývatn og Guðrún Grímsdóttir. Kom vestur um haf 1873.

23. Guðrún Anderson, ekkja Ólafs S. Anderson, á elliheimili í Marshall, Minnesota. Fædd 23. marz 1877, en kom ung að aldri vestur um haf með foreldrum sínum, er voru Páll Jökull og Sigurveig Jónsdóttir,

og settust að í Lincoln County í Minnesota.

23. Jóhann Daníel Jónasson, um langt skeið búsettur í Hallsonbyggðinni í N. Dakota, á sjúkrahúsi í Cavalier, N. Dak. Fæddur að Áshildarholti í Skagafirði 14. maí 1866; kom til Vesturheims 1895.

23. Valgerður Hallgrímsson, á heimili sínu í Brúarbyggð, Argyle, Man. Fædd að Garðar, N. Dak., 13. júní 1891. Foreldrar: Joseph og Ingibjörg Walter.

25. Séra Guttormur Guttormsson, sóknarprestur í Minneota, Minnesota, og varaforseti Kirkjufélagsins lúterska, á sjúkrahúsi í Spokane, Wash., er hann var á heimleið af kirkjuþingi í Vancouver, B.C. Fæddur 10. des. 1880 í Krossavík í Vopnafirði, en fluttist ungur vestur um haf. Ritsnjall lærdómsmaður, er árum saman var í ritstjórn **Sameiningarinnar.**

25. Jóhann Norman, að Point Roberts, Wash., aldurhniginn. Skagfirðingur að ætt.

28. Jónas Valdimar Johnson, á sjúkrahúsi í Detroit, Michigan, í Bandaríkjunum, 69 ára að aldri. Ættaður úr Suður-Þingeyjarsýslu.

28. Stefanía Marja Finnsson, ekkja Péturs Finnssonar, á heimili sínu í Blaine, Wash. Fædd á Ljósavatni í Suður-Þingeyjarsýslu 16. júní 1870. Foreldrar: Jóhannes Jóhannesson og Sigurbjörg Kristjánsdóttir. Kom vestur um haf 1890.

29. Jóhannes Thorsteinsson, á heimili sínu í North Hollywood, California. Fæddur í grennd við Hallson, N. Dak., 12. júlí 1882. Foreldrar: Thorsteinn Jóhannesson og Guðrún Jónsdóttir, bæði þingeysk að ætt.

Júlí — Björn Christianson, fyrrum bóndi í grennd við Langruth, í Portage la Prairie, Man.

**Ágúst 1956**

8. Lúðvík Hólm, fyrrum bóndi í Víðinesbyggð í Nýja-Íslandi, á Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg, 64 ára að aldri. Foreldrar: Haraldur Sigurðsson Hólm á Æsustöðum í Eyjafirði og Helga Gunnlaugsdóttir, einnig eyfirzk. Kom ungur með þeim vestur um haf.

9. Kristín Halldórsson, á hjúkrunarheimili í Winnipeg, 94 ára gömul.

9. Thorsteinn Stanley Thorsteinsson, áður í Wynyard, Sask., og Selkirk, Man., á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fæddur 29. marz 1887 á Daðastöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu. Fluttist til Ameríku 1893 með foreldrum sínum, Steingrími Þorsteinssyni og Petrínu Guðmundsdóttur.

9. Jón Sigurdson, í New Westminster, B.C. Fæddur 18. sept. 1885 í Njarðvík í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Sigurður Jónsson og Hannessína Jóhannsdóttir seinni kona hans; kom með þeim til Canada 1893.

12. Ellert Freeman Thorlákson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 72 ára gamall. Fæddur að Krossstekk í Mjóafirði í Suður-Múlasýslu, sonur Þorláks Schram og Katrínar konu hans. Kom til Canada 1890.

13. Guðríður Ingibjörg Gíslason, á heimili sínu í Árborg, Man., 73 ára að aldri.

19. Fanny Hólm, ekkja Lúðvíks Hólm, að Gull Lake, Sask., á leið vestur að hafi til dvalar þar.

20. Sigurþór Matthías Henrickson, fyrrum í Winnipeg, í Chicago, Ill. Fæddur í Baldur, Man.

22. Lillian Grace Einarsson, á heimili sínu í Winnipeg, 72 ára gömul.

22. Halldór Guðjón Finnsson, á sjúkrahúsi í Chicago, Ill. Fæddur í Grennd við Churchbridge, Sask., 8. des. 1919.

23. Oddur Brandson trésmiður, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur á Fróðá í Snæfellsnessýslu 11. júní 1878. Foreldrar: Guðbrandur Guðbrandsson og Guðbjörg Magnúsdóttir. Kom til Canada 1911.

24. Margrét Anna I. Ólafsson, að heimili sínu í St. James, Man., 60 ára að aldri.

26. Ellis Guðfinnur Sigurdson, á heimili sínu í Glenboro, Man. Fæddur nálægt Riverton, Man., 1898. Foreldrar: Björn Sigurðsson frá Kirkjubóli í Fáskrúðsfirði og Jóhanna Antoníusdóttir kona hans.

28. Gunnar Peterson, á heimili sínu í Winnipeg, 52 ára að aldri. Foreldrar: Þorsteinn Peterson prentari, en síðast bóndi í Piney, Man., og Ingibjörg Magnússon.

28. Gunnar Bergvinsson múrari, í Seattle, Wash., 75 ára. Ættaður af Austurlandi, en hafði dvalið vestan hafs um 50 ára skeið.

30. Bjarni Árnason, landnámsmaður í Víðinesbyggð í Nýja-Íslandi, á Almenna sjúkrahúsinu í Selkirk, Man. Fæddur 9. ágúst 1864 að Skarði í Dalasýslu. Foreldrar: Árni Bjarnason og Halldóra Jónsdóttir. Kom til Vesturheims 1901.

Ágúst — Hermann Melsted, í Vancouver, B.C. Fæddur í Winnipeg, sonur S. W. Melsted og konu hans.

Ágúst — E. B. Stefánsson, í Elfros, Sask.

Ágúst — María Sigurrós Bardal, í Minneota, Minn. Fædd í Lincoln County 27. nóv. 1890. Foreldrar: Friðgeir og Guðlaug Bardal.

**September 1956**

2. Gunnar Edwin Anderson trésmiður, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 59 ára.

2. Geiri M. Johnson, á sjúkrahúsi í Árborg, Man., 71 árs að aldri.

2. Hósíanna Guðbjörg Hall, á heimili sínu að Garðar, N. Dak. Fædd þar í byggð 22. sept. 1883. Foreldrar: Joseph og Ingibjörg Walter.

6. Tryggvi Johnson, á heimili sínu í Baldur, Man. Fæddur í Argyle-byggð í Manitoba 16. maí 1890. Foreldrar: Jóhann

Jónsson frá Finnsstöðum í Köldukinn og seinni kona hans, Gróa Eiríksdóttir, austfirzk að ætt. Forvígismaður í félagsmálum.

8. Lárus Halldórsson, á heimili sínu í Winnipeg, 63 ára. Ættaður úr Mýrasýslu og kom vestur um haf stuttu fyrir fyrra heimsstríðið.

17. Guðrún Torfadóttir Sigurdson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 91 árs að aldri.

18. Jóhann Peterson, á heimili sínu í Selkirk, Man. Fæddur 16. apríl 1888 að Þverárholtum í Álftaneshreppi í Mýrasýslu. Foreldrar: Þorvaldur Einarsson og Þorbjörg Runólfsdóttir. Kom til Canada 1902 með fósturforeldrum sínum, Þórði Péturssyni og Guðrúnu Hallsdóttur. Áhugamaður um félagsmál.

19. Kristján (Chris) Halldórsson, fylkisþingmaður St. George kjördæmis, á Deer Lodge sjúkrahúsinu í Winnipeg, 65 ára gamall. Fæddur að Lundar, Man., sonur Halldórs Halldórssonar frá Gili í Bolungarvík og Kristínar Pálsdóttur, er komu vestur um haf 1887.

20. Kristbjörg Brandsson, kona Árna Brandssonar, að heimili sínu við Hnausa, Man., 65 ára að aldri.

29. Elína Dalman, ekkja Stefáns Dalman, í Winnipeg. Fædd 8. nóv. 1888 í Cavalier, N. Dak. Foreldrar: Eiríkur og Anna Gíslason, bæði af Austurlandi.

30. María Kristín Gunnlaugsson, ekkja Björns Gunnlaugssonar, fyrrum til heimilis í Winnipeg, á sjúkrahúsi í Victoria, B.C

30. Jón S. Hólm, landnámsmaður í Framnesbyggð í Nýja-Íslandi, á heimili sínu við Árborg, Man. Fæddur í Strandhöfn við Vopnafjörð 22. nóv. 1897. Foreldrar: Sigurður Eiríksson Hólm og Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Hornafirði. Kom með þeim til Vesturheims 1902.

Sept. — Sveinn Johnson farandsali, á sjúkrahúsi í Edmonton, Alberta, 69 ára gamall.

Sept. — Sigtryggur Sigvaldason, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 94 ára að aldri.

**Október 1956**

9. Sigríður Goodman, ekkja Guðmundar Kolbeinssonar hreppstjóra að Esjubergi á Kjalarnesi, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd 22. febr. 1861. Foreldrar: Gísli Gíslason og Solveig Þorkelsdóttir í Reykjakoti í Mosfellssveit. Kom vestur um haf 1912.

12. Friðfinnur Einarsson bóndi, á Gimli, Man. Fæddur 14. júlí 1868 á Hrauni í Helgastaðahreppi í Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Einar Einarsson og Guðbjörg Einarsdóttir. Kom vestur um haf til Nýja-Íslands með foreldrum sínum 1879.

18. Lauga Fredrickson, í Kommarno, Man., 59 ára gömul. Foreldrar: Jón og Sigríður Frederickson, landnemar í grennd við Glenboro, Man.

20. Barney (Bjarni) Dennisson (Dínusson), að heimili sínu í Selkirk, Man., 62 ára að aldri. Fæddur að Svold, N. Dak., sonur Jóns og Kristínar Dínusson.

22. Hólmfríður Jakobína Jónasson, að heimili sínu í Winnipeg, 74 ára. Fædd að Grænavatni í Mývatnssveit. Kom vestur um haf 1893 með foreldrum sínum, Þorláki Jónasson og Kristrúnu Pétursdóttur, settust að í Argylebyggð í Manitoba.

22. Ófeigur Sigurðsson, einn af frumherjum íslenzku nýlendunnar í Alberta, í Vancouver, B.C., 94 ára að aldri. Árnesingur að ætt, frá Fjalli og Skeiðum. Kom vestur um haf 1887. Kunnur athafnamaður og sveitarhöfðingi.

22. Elías E. Eggertsson Vatnsdal, lengi bóndi í grennd við Hensel, N. Dak., á sjúkrahúsi í San Diego, California. Fæddur 16. júlí 1869 á Fossá á Hjarðarnesi í Barðastrandarsýslu. Foreldrar: Eggert Magnússon og Soffía Friðriksdóttir; kom með þeim vestur um haf 1886.

25. Sigurberg Oddleifsson, af slysförum í grennd við heimili sitt í Árborg, Man., 57 ára að aldri; sonur landnámshjónanna Gests og Þóreyjar Oddleifssonar í Haga í Nýja-Íslandi.

25. Friðrik Sigurðsson, bóndi og skáld í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi, á sjúkrahúsi að Gimli, Man., 71 árs gamall.

26. Jóhanna Linder, á heimili sínu í South Pasadena, Californíu. Fædd að Mountain, N. Dak., 1898. Foreldrar: Friðrik og Hróðný Vatnsdal, um langt skeið búsett í Saskatchewan.

29. Friðrik Stefán Jóhannsson, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur þar í borg 7. okt. 1894. Foreldrar: Sigmundur Jóhannsson og Sigurbjörg Friðriksdóttir, bæði úr Skagafirði.

Okt. — Sigurður Guðbrandsson, að heimili sínu í grennd við Baldur, Man., níræður að aldri.

**Nóvember 1956**

1. Bjarni Jónsson Skagfjörð (Skagford) frá Selkirk, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 61 árs gamall. Áhugamaður um félagsmál.

7. María Johnson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 73 ára að aldri.

9. William Roland Ingimundson frá Winnipeg, í Rochester, Minnesota, 27 ára gamall, sonur J. M. Ingimundarsonar og konu hans í Winnipeg.

10. Sigurður Magnússon trésmiður, að heimili sínu í Winnipegosis, Man., 85 ára að aldri. Ættaður frá Mel í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu; kom vestur um haf 1899.

16. Thomas Óli Björnsson, að heimili sínu í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi, 65 ára að aldri.

22. Jóna Sveinsson, ekkja Eyjólfs Sveinssonar, að heimili sínu í Winnipeg, níræð að aldri.

28. Líndal Guðmundsson frá Árborg, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 29 ára gamall, sonur Davíðs Guðmundssonar og konu hans í Árborg.

**Desember 1956**

2. Björn Þórsteinsson Hördal, landnámsmaður í Álftavatnsbyggð, að Lundar, Man., 88 ára að aldri. Foreldrar: Þorsteinn Jónsson hreppstjóri í Hlíð í Hörðudal í Dalasýslu og Ragnhildar Jónsdóttur konu hans; kom með þeim vestur um haf 1875.

4. Einar Johnson, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur að Skeiði í Svarfaðardal 26. júlí 1866. Foreldrar: Þorkell Jóhannsson og Sigríður Hallgrímsdóttir. Kom til Vesturheims 1883.

6. Sigurður (Sam) Sigurdson, á heimili sínu í Calgary, Alberta, 44 ára. Fæddur og uppalinn að Lundar, Man.

6. Pétur Gísli Thompson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur 30. okt. 1890 að Gimli, Man. Foreldrar: Gísli Magnús Thompson og Moníka Helga Friðbjörnsdóttir.

7. Col. Einar Johnson, í Arizona, lyfjafræðingur að menntun.

10. Anna Sigríður Jónsson, ekkja Gísla Jónasson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 77 ára. Fædd í Mikley, en var um langt skeið búsett í Geysisbyggð í Nýja-Íslandi.

13. Margrét J. Benediktsson, á heimili sínu í Anacortes, Wash. Fædd 16. marz 1866 á Hrappsstöðum í Víðidal í Húnavatnssýslu. Foreldrar: Jón Jónsson söðlasmiður og Kristjana Ebenesdóttir. Kom vestur um haf 1887. Víðkunn forystukona í kvenréttindamálum í Canada.

17. Stefán Árnason, áður sveitarskrifari í Piney, Man., á heimili sínu í Vancouver, B.C. Fæddur 17. ágúst 1882, að Auðbrekku í Hörgárdal; kom vestur um haf 1905.

20. Carólína Thorlakson, kona séra S. O. Thorlakson ræðismanns, á sjúkrahúsi í San Francisco, Californíu. Fædd í Winnipeg, dóttir Guðjóns Thomas gullsmiðs og konu hans.

24. Helga Sigríður Goodman, ekkja Guðmundar Jónasar Goodman, á elliheimili að Lundar, Man. Fædd að Hólsgerði í Eyjafirði 31. jan. 1881. Foreldrar: Jónas Jónsson og Jóhanna Pálsdóttir. Fluttist til Canada 1905.

# BRATTAHLÍÐ Á GRÆNLANDI

**landnámsbær Eiríks Rauða**



Eftir málverki Emile Walters

# Þrítugasta og sjöunda ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

**FYRSTI FUNDUR**

Þrátt fyrir frosthörku, snjókyngi og ófærð sóttu um sjötíu manns fyrsta fund þrítugasta og sjöunda þings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, er hófst á mánudaginn 20. febrúar kl. 10 árdegis í Goodtemplarahúsinu. Séra Eiríkur Brynjólfsson, stýrði guðræknisstund er byrjaði með því að sunginn var sálmurinn Ó, Guð, mér anda gefðu þinn. Séra Eiríkur lagði út af textanum Drottinn, þú ert vort athvarf frá kyni til kyns, og flutti síðan hugnæma bæn, og var svo sunginn sálmurinn Lát þitt ríki, ljóssins herra, ljóma skært um jörð og sjá. Gunnar Erlendsson var við hljóðfærið.

Dr. Valdimar J. Eylands flutti nú forsetaskýrslu sína. Gerði Dr. Beck tillögu um að hin ýtarlega og vandaða skýrsla væri viðtekin með þökkum. Létu þingmenn í ljósi samþykki sitt með því að rísa úr sætum og með lófataki.

**Ársskýrsla**

forseta Þjóðræknisfélagsins,
Dr. Valdimars J. Eylands

Allir kannast við söguna um sáðmanninn. Mikill hluti sæðisins, sem hann stráði í kringum sig fór forgörðum. Sumt af því var fótum troðið, sumt kafnaði í illgresi, aðeins lítill hluti þess bar tilætlaðan ávöxt. Þessi gamla saga er sífellt að endurtaka sig. Allir sem fást við fræðslumál, eða starfa að eflingu hugsjóna á einhverju sviði kannast við það lögmál, sem hún bendir til. Þegar fyrstu íslenzku innflytjendurnir komu hingað vestur fyrir áttatíu árum, þá gengu þeir að því sem vísu að íslenzk menning mundi sá til sín sjálf og vaxa á þessum vestræna þjóðlífsakri um aldur og ævi. Ekki leið þó á löngu að vitrir menn og framsýnir sáu fram á nauðsyn þess að mynda einhvers konar samtök til verndar íslenzku þjóðerni, tungu og trú. Þannig var svo þetta félag vort stofnað, Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi, sem nú kveður yður til ársfundar í 37. sinn. Ef nota má táknmál dæmisögunnar, var þessu félagi ætlað að rækta hinn íslenzka þjóðlífsakur í Vesturheimi, halda honum hreinum, auka hann og efla. Ég held, að ekki sé hægt að segja með sanni að félagið hafi brugðizt þeirri köllun sinni. En þó er því ekki að leyna, að annarlegur gróður sækir nú á síðari árum mjög fast á þennan helga reit, sem vér höfum afmarkað með félagi voru og stefnuskrá þess. Að vísu hafa þeir aldrei verið margir á meðal vor, sem vísvitandi hafa fótum troðið þjóðernislega arfleifð sína, en hinir verða æ fleiri, sem eiga í svo mörg horn að líta í hinni hversdagslegu lífsbaráttu, að þeim vinnst lítill tími til að sinna öðru en önnum líðandi stundar. En jafnvel þótt allmikið af frækornum sáðmannsins færi ofan garðs og neðan, voru þau þó allmörg, sem féllu í frjóan jarðveg og báru góðan ávöxt. Oss ber að hugsa um Þjóðræknisfélagið og deildir þess sem hið hreina akurlendi, friðland íslenzkra hugðarmála, og um starfsmenn þess sem þá menn á meðal vor sem eru sér meðvitandi um sáðmannsköllun sína, menn sem ekki víkja frá því marki að bera góðan ávöxt niðjum sínum, ættlandi sínu og fósturjörð til sóma. Vér vonum þá að þetta ársþing verði ávaxtaríkt og um allt ánægjulegt, og bjóðum yður velkomin til samfunda og starfs.

Eins og á fyrri þingum vorum. viljum vér nú minnast með virðingu og þökk þeirra samverkamanna vorra í félaginu, sem látizt hafa á árinu. Þrír af heiðursmeðlimum vorum hafa horfið af sjónarsviðinu, þeir Jón J. Bíldfell, fyrrverandi forseti, Þorsteinn Þ. Þorsteinsson, skáld, og séra Einar Sturlaugsson, prófastur á Patreksfirði. Aðrir látnir meðlimir eru, að því er forseta er kunnugt: Mrs. Jakobína Breckman, Jón Sigurðsson, Magnús Jónsson, Skúli Johnson prófessor, Karl Thorláksson, Swain Swainson og Nikulás Ottenson, Winnipeg; Þorsteinn J. Gíslason, Morden, Man.; Jón Ólafsson, Leslie; Mrs. Ljótunn Sveinsson, Stefán Hofteig, Torfi Torfason, Lundar; Mrs. J. Johnson, Selkirk; Valdi Sigvaldason, Geysir; og Guðmundur Einarsson, Árborg.

Stjórnarnefnd félagsins hefir haft allmarga fundi á árinu. Meðlimir nefndarinnar eru að sjálfsögðu eins og aðrir menn, misjafnir að upplagi, hæfileikum og áhuga, einnig eru starfsskilyrði þeirra mismunandi. Óhætt er þó að fullyrða, að með nefndarfólki hefir verið hin bezta samvinna, en afrek meðlima hennar hafa farið eftir þeim atvikum, sem nefnd hafa verið. Sá meðlimur stjórnarnefndarinnar, sem

stærsta sáðkörfuna hefir borið á árinu, og með legstum armi hefir sveiflað frækornum þjóðrækninnar víðsvegar um þessa heimsálfu er próf. Finnbogi Guðmundsson. Hann hefir sett nýtt met í ferðalögum og fyrirlestrarhöldum um byggðir Íslendinga í Vesturheimi. Svo sem kunnugt er, lögðu þeir Kjartan Ó. Bjarnason myndatökumaður frá Kaupmannahöfn og Finnbogi í leiðangur mikinn um byggðir Íslendinga s.l. sumar, og unnu þeir að myndatöku, hvar sem þeir fóru. Hófst leiðangur þeirra í Minneapolis, snemma í júlí, en lauk í Winnipeg seint í ágúst. Höfðu þeir þá ekið saman alls um 11,000 mílur og heimsótt Íslendingabyggðir í Minnesota, Utah, á Kyrrahafsströnd sunnan frá Los Angeles, og norður til Vancouver og Victoria, í Alberta, Saskatchewan, Manitoba og Norður-Dakota. En á heimleið kom Kjartan við í Ottawa, Dartmouth College, (hjá Vilhjálmi Stefánssyni), Íþöku, New York og Washington, D.C. Heildarmynd hefir nú verið samin úr öllum efniviðnum, og mun hún, þegar hún er fullgerð, verða sýnd meðal Íslendinga austan hafs og vestan. Hefir prófessor Finnbogi haft allan veg og vanda af þessu fyrirtæki, og notið til þess styrks frá ríkisstjórn Íslands, félagi voru, og nokkrum einstaklingum hér vestra. Öllum þeim tekjum, sem inn koma fyrir væntanlegar sýningar myndarinnar, verður varið til að greiða enn ógoldinn kostnað við gerð myndarinnar. Standa vonir til, að myndin muni um síðir borga sig, og verði um afgang að ræða mun honum verða varið til eflingar sambandinu milli Íslendinga austan hafs og vestan. Er ekki að efa, að marga mun fýsa að sjá árangurinn af þessum myndaleiðangri. Þess má að lokum geta, að á ferðum sínum héldu þeir félagar alls 25 samkomur á meðal Íslendinga þar sem Kjartan sýndi Íslandsmynd sína í litum, en Finnbogi sagði tíðindi úr för þeirra og fréttir úr byggðum þeim, er þeir heimsóttu. Er hér um mjög merkilegt útbreiðslustarf að ræða, sem Þjóðræknisfélagið metur og þakkar, eins fyrir því þó að það sjálft hafi lítið lagt til málanna, og geti naumast talið þessar framkvæmdir í tekjudálki sínum eða stjórnarnefndar sinnar.

Eitt af þeim málum, sem þingið í fyrravetur fékk stjórnarnefndinni til athugunar og fyrirgreiðslu var hugmyndin um sameiningu íslenzku vikublaðanna hér í Winnipeg, eða möguleikinn á því að gefa út eitt blað í stað tveggja. Höfðu útgáfunefndir blaðanna farið þess á leit við Þjóðræknisfélagið, að það beitti sér fyrir athugun þessa máls. Eftir marga fundi og miklar bollaleggingar ákvað nefndin á fundi 10. maí að leita til þriggja algjörlega óhlutdrægra, en um leið valinkunnra manna, sem skyldu rannsaka alla málavöxtu og gefa svo álit sitt í málinu. Þessi rannsóknar- og ráðgjafanefnd var skipuð þeim Thor Thors, sendiherra í Washington, prófessor Richard Beck í Grand Forks og Valdimar Björnssyni blaðamanni í Minneapolis. Brugðust þessir menn vel við málaleitun nefndarinnar. Eftir að hafa átt nokkur bréfaskipti fyrst sín á milli og svo við menn hér, komu þeir hingað norður til Winnipeg seint í júlí til að kynna sér málið nánar bæði í einkasamtölum og á fundum. 25. júlí lögðu þeir svo fram svohljóðandi nefndarálit:

„Við undirritaðir vorum skipaðir í ráðgefandi nefnd til að athuga útgáfu íslenzku blaðanna, Lögbergs og Heimskringlu, og fjárhagslegan rekstur þeirra, og gera tillögur um framtíðarfyrirkomulag blaðaútgáfu Íslendinga vestan hafs. Nefndarmennirnir höfðu samband sín á milli bréflega og öfluðu sér skriflegra upplýsinga frá stjórn Þjóðræknisfélagsins og útgefendum beggja blaðanna. Nefndin kom síðan saman til fundar í Winnipeg, sunnudaginn 24. júlí 1955. Næsta dag átti nefndin stöðuga fundi með útgefendum blaðanna, ritstjórum þeirra og stjórnarnefnd þjóðræknisfélagsins. — Ennfremur kynntu menn sér ítarlega sundurliðaða rekstursreikninga beggja blaðanna.

Af öllum þessum viðræðum hefir nefndinni orðið það ljóst, að bæði blöðin hafa mörg undanfarin ár verið rekin með verulegum fjárhagslegum halla. Augljóst er, að rekstri blaðanna hefir verið haldið uppi með miklum fjárframlögum örfárra manna. Einsýnt er, að það er ótryggt, hversu lengi slíkra framlaga og fórna kann að njóta við.

Reynslan hefir sýnt, að þegar forvígismennirnir í þjóðræknismálunum falla frá, eru skörðin vandfyllt, og vafasamt er að treysta eingöngu áhuga og framlögum þeirra, er við eiga að taka. Nefndin er þeirrar skoðunar, að það sé lífsnauðsyn sambandi og samvinnu Íslendinga vestan hafs og þjóðræknisstarfi þeirra, að útgáfa íslenzks blaðs geti haldið áfram. Það er og nauðsynlegt til verndunar og eflingar sambandsins milli Íslendinga beggja megin hafsins. Til þess að tryggja áframhaldandi blaðaútgáfu Vestur-Íslendinga, telur nefndin eftirfarandi aðgjörðir líklegastar:

1) Blöðin Lögberg og Heimskringla skulu sameinuð og framvegis koma út sem eitt vikublað, sem beri nafn beggja blaðanna. Undir heiti blaðsins skal skráð: Gefið út að tilhlutun Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

2) Útgefendur blaðanna Heimskringlu og Lögbergs skulu hver um sig skipa þrjá menn í útgáfunefnd hins nýja blaðs. Nefnd þessi ber ábyrgð á stefnu blaðsins, útgáfu þess og rekstri. Nefndin kýs sér sjálf formann. Blaðið skal óháð í stjórnmálum og trúmálum.

3) Útgefendur Heimskringlu og Lögbergs skulu afhenda stjórn hins nýja blaðs lista yfir áskrifendur sína. Þeir skulu kappkosta að styðja hið nýja blað af fremsta megni og hvetja kaupendur beggja blaðanna til að gerast áskrifendur að hinu nýja blaði og styrkja það.

4) Núverandi ritstjórar Lögbergs og Heimskringlu, þeir Einar Páll Jónsson og Stefán Einarsson skulu ráðnir til að vera ritstjórar hins nýja blaðs. Launakjör þeirra skulu ekki rýrð frá því sem nú er. Frú Ingibjörg Jónsson skal beðin að annast áfram kvennadálk blaðsins.

5) Hið nýja blað skal hefja útgáfu sína svo fljótt sem stjórnarmenn þess telja æskilegt og framkvæmanlegt, þó ekki seinna en 1. janúar 1956."

Nefndarálit þetta var síðan rætt og samþykkt lið fyrir lið, og í heild sinni á sérstökum fundi á Fort Garry hótelinu að kvöldi 25. júlí. Þó skal þess getið, að annað útgáfufélagið hafði ekki nema einn fulltrúa á þeim fundi, og hann tók það fram, að atkvæði sitt væri persónu-atkvæði eingöngu, og á engan dátt bindandi fyrir útgáfufyrirtæki sitt. Þegar frá leið komu enn önnur sjónarmið fram í þessu máli, svo að ekkert hefir orðið úr framkvæmdum fram að þessu. Þeir prófessor Finnbogi Guðmundsson og Steindór Jakobsson mynda nefnd, sem falið er að fylgjast með frekari þróun þessa máls og gera stjórnarnefndinni aðvart, ef einhver leið skyldi opnast til frekari aðgjörða, eða ef þess yrði óskað að félag vort hefði frekari afskipti af málinu. Viljum vér hér með þakka þeim þrímenningunum, Thors, Beck og Björnsson þá miklu góðvild, sem þeir sýndu félagi voru og öllum málsaðilum í þessu máli, og einnig fyrirhöfn þeirra og tilkostnað.

Í sumar minntust Íslendingar í Utah þess að hundrað ár voru liðin síðan fyrstu Íslendingarnir festu þar byggð. Fór sú hátíð fram í Spanish Fork, þar í ríkinu, og stóð í þrjá daga, 15., 16. og 17. júní. Finnbogi Guðmundsson kom þar fram fyrir hönd félags vors og flutti kveðjur og árnaðaróskir. Er það almanna mál, að minningarhátíð þessi hafi verið um allt hin virðulegasta, og Íslendingum til sóma. Sérstaka athygli vakti söguleg sýning, er frú Hólmfríður Danielson, einn af fulltrúum Fróns hér á þingi, hafði undirbúið og stjórnaði. Um hundrað manns tóku þátt í sýningu þessari, sem túlkaði á mjög áhrifamikinn hátt sögu útflutningsins frá Íslandi til Utah fyrir hundrað árum, stríð frumherjanna fyrstu árin í hinu nýja umhverfi, og svo það, hversu íslenzki arfurinn reyndist þeim. Stór og vel þjálfaður kór söng ensk og íslenzk lög, sem áttu við efni leiksýningarinnar, og hafði frúin einnig hjálpað til að æfa íslenzku lögin. Talið er að 2000 manns hafi sótt samkomu þessa, sem mun vera einhver allra fjölmennasta inniskemmtun, sem nokkru sinni hefir verið haldin á meðal Íslendinga í Ameríku. Afmælishátíðin vakti athygli manna um alla álfuna og víðar á þessu íslenzka landnámi og Íslendingum, og stórblöðin fóru lofsamlegum orðum um leiksýninguna. Leiksýningarkvöldið flutti frú Hólmfríður fyrirlestur um íslenzkar fornbókmenntir; einnig kom hún fram í sjónvarpi fjórum sinnum í Salt Lake City í sambandi við þessi hátíðahöld. Tveir aðrir Winnipeg-Íslendingar komu einnig fram á þessari sögulegu afmælishátíð þeirra Utah-manna, þau frú Dóra Thorsteinson, sem kom þar fram með íslenzkan rokk og sýndi „að úr þeli þráð að spinna, það þykir næsta indæl vinna." Einnig kom Arthur Reykdal þar fram á svið með fjóra drengi frá Winnipeg og sýndi íslenzka glímu. Var gerður góður rómur einnig að þessum atriðum, list spunakonunnar, og fimleika glímumannanna.

Er rætt er um leiksýningar og aðra kynningarstarfsemi, sem unnin hefir verið á árinu, er sálfsagt að minnast á verðlaunaleik Jóns Sigurðssonar félagsins (IODE) "In the Wake of the Storm," eftir Laugu Geir frá Edinburg, North Dakota. Er efni leiksins tekið úr frumbyggjalífi Íslendinga í Norður Dakota. Var leikurinn sýndur þrisvar sinnum í samkomusal Sambandskirkjunnar hér s.l. haust og við nær húsfylli í hvert skipti. Fékk leikurinn góða dóma hjá blöðunum og hjá almenningi yfirleitt, og er hann talinn hafa mikið menningarsögulegt gildi. Þessi leikur var sýndur undir stjórn frú Hólmfríðar Danielson, og lék hún einnig eitt aðalhlutverkið. Ágóðinn af síðustu leiksýningunni var gefinn í byggingarsjóð elliheimilisins Betel að Gimli. Er gert ráð fyrir að leikur þessi verði sýndur í nærliggjandi sveitum er vorar og vegir gerast greiðfærir. Þá má geta þess, að frú Hólmfríður tók einnig þátt í sjónvarpsleiksýningu, sem canadiska sjónvarpskerfið sýndi á mánudagskvöldið, 24. október. Leiksýning þessi vakti athygli fólks víðsvegar og hlaut mikið lof. Ennfremur flutti frú Hólmfríður erindi og fyrirlestra í Blaine, Vancouver og Bellingham, Wash.; ásamt frú Kristínu Johnson hefir hún flutt allmörg erindi um Utah-sýninguna; hefir frú Johnson sýnt fagrar litmyndir þaðan að sunnan mörgum til ánægju.

Nýlega flutti canadiska útvarpið dramatíska framsetningu á skáldsögunni "The Viking Heart," eftir frú Láru Goodman Salverson. Hafði sonur frúarinnar, George Salverson skrifað efni sögunnar fyrir þessa útvarpsskrá. Stóð útvarpið yfir í hálfa aðra klukkustund, og var mjög áhrifamikið og hin æskilegasta auglýsing fyrir Íslendinga hér í álfunni.

23. desember s.l. flutti frú Ingibjörg Jónsson, skrifari stjórnarnefndar félagsins, fagurt og mjög fróðlegt erindi um jólahald í Mikley, þegar hún var barn. Var þetta að nokkru leyti saga frumherjanna ívafin huglúfum endurminningum ræðukonunnar. Hefir frúnni borizt fjöldi bréfa úr ýmsum áttum með þakklæti fyrir erindið. Einnig flutti frú Ingibjörg mjög fróðlegt erindi á Frónsfundi 17. júní s.l., er hún nefndi: **Kona forsetans.**

Dr. Richard Beck, fyrrverandi forseti félags vors, hefir nú sem á undanförnum árum verið frábærlega ötull og afkastamikill merkisberi og sáðmaður á akri þjóðræknismála vorra. Hefir áður verið talað um nefndarstörf hans í þágu félagsins. Hann hefir unnið mikið kynningarstarf í þágu íslenzkra bókmennta og menningar í ræðu og riti, á íslenzku, ensku og norsku. Hann hefir á starfsárinu flutt fjölda af ræðum um Íslands- og Norðurlandaför þeirra hjóna í Manitoba, Norður-Dakota, Minnesota og víðar, meðal annars nýlega þrjú útvarpserindi á vegum ríkisháskólans í Norður-Dakota. Ennfremur flutti hann á ársfundi Félagsins til eflingar norrænum fræðum (Society for the Advancement of Scandinavian Study), er haldinn var í Williamsburg í Virginia-ríki, erindi um Davíð skáld Stefánsson í tilefni af sextugsafmæli skáldsins. Margar af ræðum þeim um vestur-íslenzk efni, sem dr. Beck flutti í Íslandsferðinni, hafa einnig verið prentaðar á árinu. Háskólafyrirlestur hans um „Yrkisefni vestur-íslenzkra skálda" kom í Skírni; synodus-erindi það, er hann flutti í íslenzka ríkisútvarpið um „Trúrækni og þjóðrækni í sögu og lífi Vestur-Íslendinga" var birt í Kirkjuritinu og endurprentað í Sameiningunni; og Skálholtshátíðarræða hans: „Ættjörð og menningararfur", kom bæði í Vísi og Lögbergi. Ritgerðir eftir hann um Íslandsferðina hafa einnig komið í blöðum og tímaritum beggja megin hafsins, bæði á íslenzku og ensku. Með það fyrir augum að halda við menningartengslunum yfir hafið, hefir hann einnig á árinu skrifað fjölda ritdóma um íslenzkar bækur og greinar um íslenzk skáld og menningarmál. Hafa margar þeirra verið endurprentaðar á Íslandi. Þá hefir hann sem fyrr ritað um Íslenzkar bókmenntir og önnur norræn efni í norsk og amerísk blöð og tímarit.

Eins og undanfarin ár hefir sambandinu við Ísland verið haldið við með gagnkvæmum heimsóknum og fréttaflutningi báðum megin hafsins. Vesturferðir frá Íslandi til Ameríku eru nú vikulegir viðburðir. Vér norður hér á hjara veraldar, höfum lítið af að segja þessum ferðamannastraum, því fæstir þessara ferðalanga koma hingað norður Nokkrir koma hingað í skyndiheimsóknir til vina og ættingja, og láta lítt á sér bera. Nokkra góða gesti höfum við þó fengið á árinu, svo sem þau hjónin Gunnar og Völu Thoroddsen, borgarstjóra Reykjavíkur og frú. Þau hjónin komu til borgarinnar 24. marz s.l. í boði Manitobaháskólans og ferðuðust þau nokkuð um byggðir vorar á vegum Þjóðræknisfélagsins. Móttöku þeirra önnuðust fyrir félagsins hönd, séra Philip M. Pétursson, Grettir L. Johannson og Finnbogi Guðmundsson. Hafði borgarstjórinn samkomur og sýndi Íslandsmynd að Ashern, Árborg, Gimli og Winnipeg. Að lokum hélt stjórnarnefndin þeim kveðjusamsæti og leysti þau út með minningargjöfum. Borgarstjóri Winnipeg hafði einnig kveðjusamsæti fyrir þau hjón og bauð mörgum. Héðan fóru þau hjónin til Grand Forks og Bismarck, N.D. Á þeim slóðum leit dr. Beck, ræðismaður Íslands í Norður-Dakota, eftir ferðum þeirra. Var þeim hjónum alls staðar vel tekið, enda hinir mestu aufúsugestir, og ágætir fulltrúar hins unga íslenzka lýðveldis. — Hér voru einnig á ferð snemma á árinu þeir Jón Guðbrandsson, umboðsmaður Eimskipafélags Íslands, og Óli Vilhjálmsson, umboðsmaður Sambands íslenzkra samvinnufélaga.

Um mitt sumar var hér á ferð Björgvin Guðmundsson tónskáld frá Akureyri, og frú hans. Hafði hann meðferðis allmikið af íslenzkri tónlist á segulbandi. Ferðaðist hann nokkuð um sveitir hér og gaf fólki kost á að hlusta á tónlist þessa, og gaf um leið nauðsynlegar skýringar munnlega. Heimsókn Björgvins bar að á óhentugum tíma, því að um hásumarið eru menn yfirleitt ekki upplagðir til að sækja samkomur af neinu tagi, og geta oft ekki sinnt slíku sakir annríkis. Fyrst lét Björgvin í sér heyra og spólurokk sínum á hátíð Íslendingadagsins að Gimli. Síðan hélt hann tíu samkomur, fimm á ýmsum stöðum í Manitoba, og hinar vestur á Kyrrahafsströnd. Hér eystra voru í för með skáldinu þau Sveinn læknir Björnsson og kona hans frú María; flutti frúin einnig erindi fyrir Þjóðræknisfélagið á sumum stöðunum um skógræktarmál, minjasöfnun o. fl. Vestur á Kyrrahafsströnd naut tónskáldið fyrirgreiðslu þeirra prestanna, séra Alberts Kristjánssonar og séra Eiríks Brynjólfssonar. Sums staðar tóku deildir félagsins á móti þeim hjónum og greiddu fyrir samkomum eftir mætti. Forseti átti nokkur bréfaskipti við menn í sambandi við ferðir þessa góða gests, var með honum í tvö skipti á samkomum og kynnti hann; ávarpaði forseti hann svo að lokum í nafni Þjóðræknisfélagsins í samsæti, sem nokkrir vinir þeirra héldu þeim hjónum í samkomusal Sambandskirkjunnar, skömmu áður en þau lögðu af stað heimleiðis.

Aðrir gestir frá Íslandi, sem forseti varð

var við á árinu, voru frú Margrét Karlsdóttir, Hjörtur Kristjánsson og frú, Ingigerður Sigurðardóttir, Elías Dagfinnsson, Eva Ólafsdóttir, Soffía Finnbogadóttir, Skúli Jóhannsson, kona hans og dóttir, og Þorleifur Þórðarson, forstjóri Ferðaskrifstofu Íslands.

Þá er hingað kominn í boði Þjóðræknisfélagsins Kristján Albertsson rithöfundur frá New York. Mun hann flytja erindi á samkomu deildarinnar „Frón" annað kvöld; en aðalerindi sitt flytur hann á lokasamkomu þingsins á miðvikudagskvöldið.

S.l. sumar var unnið að því um hríð að koma á beinni hópferð flugleiðis milli Winnipeg og Reykjavíkur. Að líkindum hefir þátttaka ekki reynzt nægileg, eða undirbúningur verið ófullnægjandi, því að ekkert varð úr beinni ferð milli landanna. Allmargir fóru samt til Íslands um New York, og með flugvél Loftleiða þaðan til Reykjavíkur. Þannig rættist margra ára draumur fyrir sumu af þessu fólki, óskastundin rann upp:

„Ég vil heim — ég vil heim
yfir hyldjúpan sæ,
heim í dálítinn dal,
heim að dálitlum bæ.
Hver vill bera mig blítt
um hinn bláheiða geim?
Ó, þú blíðasti blær,
vilt þú bera mig heim?"

Sumir þeirra, er heim fóru, hafa ritað ferðasögur sínar í blöðin; aðrir sem eru síður upplagðir fyrir skriffinnsku hafa sagt frá ferðum sínum í sínum hóp. Slíkar ferðir og ferðasögur hafa mikið gildi til að auka kynnin og efla sambandið milli Íslendinga báðum megin hafsins. Meðal þeirra, er heimsóttu Ísland á árinu, var Grettir Leó Johannson ræðismaður og frú hans; fóru þau einnig til Danmerkur, Þýzkalands og víðar um meginland Evrópu. Áður en ræðismaður lagði af stað í þessa ferð var honum fengið umboð til að vinna að málum félagsins á Íslandi, og að koma fram fyrir þess hönd við ýms tækifæri. Komu þau hjónin heim aftur í september og flutti Grettir ræðismaður þá kveðjur á fundi stjórnarnefndar frá forseta Íslands, forseta Þjóðræknisfélags Íslendinga og rektor Háskóla Íslands, hr. Þorkel Jóhannessyni, og frá Sigurði Sigurgeirssyni, ritara félagsins. Einnig gat hann þess, að forseti Íslands hefði mikinn áhuga fyrir umbótum á Bessastaðakirkju, meðal annars því, að setja í hana skrautglugga, og kostar hver gluggi 25,000.00 krónur. Taldi Grettir vel til fallið að Þjóðræknisfélagið og Vestur-Íslendingar legðu eitthvað til þessa fyrirtækis.

Af því sem að framan greinir, má ráða, að allvel hafi verið séð fyrir kynningarstarfi félagsins út á við á umliðnu ári. Að vísu er þetta að mestu starf einstakra dugnaðar- og áhugamanna. Sambandið við Ísland er einnig lifandi, og engin hrörnunarmerki að sjá á því sviði. En hvað um fræðslumálin.

Snemma í vetur var auglýst íslenzkukennsla fyrir börn hér í Winnipeg, og skyldi hún fara fram, venju samkvæmt, á laugardögum. En raunin varð sú, að ekkert heimili að kalla vildi nota sér þá kennslu, er þarna var boðin. Er það hvorttveggja að áhugi fólks virðist næsta lítill, og laugardagurinn óheppilegur til slíks skólahalds. Hefir því komið til tals að reyna íslenzkukennslu á sunnudögum í sambandi við sunnudagaskóla kirknanna, var þessi aðferð reynd fyrir tveimur árum síðan og þótti vel takast. En til þess að það megi blessast þarf talsverðan kennarakost, nægar bækur ,en fyrst og fremst skilning heimilanna og samvinnu við þau. Eitt af því sem hefir hamlað íslenzkukennslu barna er vöntun á heppilegum kennslubókum. Á s.l. þingi var rætt um það að nauðsynlegt væri að koma hentugum íslenzkum barnabókum inn á sem flest heimili, í þeirri von að foreldrar kenndu börnum sínum, þar sem þess væri kostur að lesa þær. Voru slíkar bækur, er Finnbogi Guðmundsson hafði útvegað frá Íslandi, sendar nokkrum þingfulltrúum, er aftur munu hafa dreift þeim meðal þeirra, er óskað höfðu eftir þeim. Er nú von á nýrri bókasendingu, og komi hún áður en þingi er slitið verður hægt um vik, ef fulltrúar vildu hafa bækur meðferðis, er þeir hverfa af þingi.

**Sitt af hverju**

Um útgáfumál félagsins er allt í sama horfi og fyrir ári síðan. Tímaritið er gefið út á sama hátt og fyrr, að því undanteknu, að „Skrá yfir helztu viðburði ársins á meðal Íslendinga vestan hafs," eins konar annáll, sem áður birtist í Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar, sem nú er hætt að koma út, eins og kunnugt er, er nú bætt við lesmál Tímaritsins og hefir dr. Beck annast þann hluta ritsins. Ritstjórinn, Gísli Jónsson, átti nýlega 80 ára afmæli. Minntist prófessor Finnbogi Guðmundsson hans maklega og vel í blaðagrein í tilefni af afmælinu. Þjóðræknisfélagið þakkar Gísla ágæta þjónustu á liðnum árum, og óskar honum góðrar heilsu og langra lífdaga.

S.l. vetur voru sýndir nokkrir þættir úr hinu fræga leikriti Davíðs Stefánssonar, **Gullna hliðinu**, hér í borginni. Að þessu stóðu nokkrir ungir Íslendingar, sem nýlega höfðu flutzt vestur um haf. Var þetta hin bezta skemmtun, og er vonandi að hér sé um að ræða vísi þess, er verða skal um endurvakning íslenzkrar leiklistar hjá oss hér vestra.

17. júní s.l. var afhjúpaður Minnisvarði

um íslenzka brautryðjendur í Álftavatns- og Grunnavatnsbyggðum. — Mun séra Bragi Friðriksson hafa átt drjúgan þátt í því máli og framkvæmd þess. — Var minnisvarðinn reistur að Lundar. Bæði forseti og varaforseti voru viðstaddir og tóku þátt í þessari athöfn.

75 ára afmælishátíð Argylebyggðar var haldin þar í sveit snemma í júlímánuði. Einn aðalræðumaðurinn við það tækifæri var dr. Tryggvi J. Oleson, prófessor, fyrrverandi varaforseti þessa félags vors. Annað sem vakið hefir eftirtekt manna á dr. Oleson á þessu ári er það, að doktorsritgerð hans, sem hann samdi um ákveðið tímabil í sögu Bretaveldis, var gefin út. Hefir bókin vakið athygli á meðal lærðra manna, og þykir hún mjög fræðimannlega samin og merkilegt rit á allan hátt.

Landstjóri Canada, the Right Honorable Vincent Massey, heimsótti byggð Íslendinga að Gimli s.l. sumar. Var forseta þessa félags og konu hans boðið til móttökunnar, sem fór fram í listigarði bæjarins; og flutti landstjórinn þar ávarp. Þrír fyrirrennarar hans hafa áður heimsótt Gimli, þeir lávarðarnir Dufferin og Tweedsmuir og jarlinn frá Athlone.

Allmikla athygli vakti það, er sú frétt barst hingað vestur, að Halldór Kiljan Laxness hefði hlotið bókmenntaverðlaun Nóbels fyrir skáldsagnagerð sína. Eins og öllum, sem lesa íslenzku er löngu kunnugt, er Laxness mög umdeildur rithöfundur. Engu að síður munu allir Íslendingar fagna því, að þessi mikli heiður féll í hlut manni af vorri þjóð. Í tilefni af þessum viðburði var efnt til Kiljansvöku hér í bæ 10. des. Voru lesnir kaflar úr bókum skáldsins, með skýringum. Mun prófessor Finnbogi hafa verið hvatamaðurinn að þessari viðleitni, og flutti hann skýringarnar og sagði ævisögu skáldsins í stórum dráttum. Var þetta mjög fróðleg og ánægjuleg kvöldstund. Þjóðræknisfélagið sendi skáldinu heillaóskaskeyti í tilefni af þeirri sæmd, er hann hlaut hjá hinni sænsku akademíu.

Þegar Finnbogi prófessor var á Íslandi seinast, sumarið 1954, skutu útgefendur þar, fyrir atbeina hans, saman í svo nefnt **Farandbókasafn Vestur-Íslendinga.** Eru í því um 80 úrvalsbækur, og hafa þær nú verið í umferð í Selkirk, Siglunesbyggð og Norður-Nýja-Íslandi. Hefir þessari nýjung verið vel tekið, og er í ráði að safnið haldi áfram ferðum sínum um byggðirnar.

Nýlega barst forseta bréf frá hr. Þorleifi Þórarsyni, forstjóra Ferðaskrifstofu ríkisins (íslenzka), þar sem hann getur þess, að Ferðaskrifstofan hafi í huga að efna til gagnkvæmrar hópferðar í næstkomandi júnímánuði. Telur hann að Þjóðleikhússtjóri hafi mikinn áhuga fyrir þessu máli, og ef til vill geti komið til greina að senda t. d. fimm manna leikflokk vestur, og aðra fagmenn og listamenn til samkomuhalda á meðal vor Vestur-Íslendinga. Óskar hann eftir áliti Þjóðræknisfélagsins á möguleikum um samvinnu um þetta mál.

Walter J. Líndal héraðsdómari gaf á árinu út merka bók, sem hann nefnir: "The Saskatchewan Icelanders, A Strand of the Canadian Fabric." Eins og nafnið bendir til, fjallar bókin um landnám Íslendinga í Saskatchewan-fylki, einkum í þeim héruðum, sem kennd eru við Churchbridge, Calder, Hólar, Foam Lake, Kristnes, Leslie, Elfros, Mozart, Wynyard Kandahar og Dafoe. Bókin er rúmlega 360 blaðsíður að stærð og hin prýðilegasta að öllum frágangi. George W. Simpson, prófessor í sagnfræði við háskólann í Saskatchewan, skrifar ítarlegan formála. Bókin hefir fengið mjög góða dóma bæði á Íslandi og í blöðum hér vestra, og á höfundurinn heiður og þakkir skilið fyrir merkilegt og nauðsynlegt verk, sem hann hefir leyst af hendi með sóma.

Í febrúar í fyrravetur voru sæmd riddarakrossi Fálkaorðunnar þau ungfrú Margrét Pétursson, Walter J. Lindal dómari og Lárus Sigurðsson læknir. Í júlímánuði voru sæmd á sama hátt þau John Y. Bearnson og frú Kate B. Carter í Salt Lake City, Utah; í sama mánuði var forseti Þjóðræknisfélagsins sæmdur stór-riddarakrossi Fálkaorðunnar, og nýlega hafa þeir próf. Thorbergur Thorvaldson og Oscar Finnbogason í Saskatoon verið sæmdir stórriddarakrossi.

Guttormur skáld Guttormsson var kjörinn heiðursmeðlimur í Rithöfundafélagi Íslands.

Dr. P. H. T. Thorlakson, M.D., LL.D., var kjörinn formaður í Manitoba Medical Service, og einnig formaður Alumni Association við Manitoba-háskólann.

Edward Vopni, forstjóri Art Press Ltd,, var kosinn forseti stjórnarnefndar Air Cadet League of Canada, og bróðir hans, Jón A. Vopni, ritstjóri The Davidson Leader, Davidson, Sask., var kosinn forseti Canadian Weekly Newspaper Association á þingi þess félagsskapar í Vancouver, B.C.

William (Bill) Finnbogason, sonur Guttorms og Ólafíu (Bardal) Finnbogason, var skipaður umferðastjóri Winnipeg-borgar (City Traffic Engineer).

Sveinbjörn Stefán Björnsson, M.D., sonur Sveins læknis og Maríu Björnsson, var á árinu ráðinn héraðslæknir (State Medical Examiner) í Delaware ríkinu.

Ungfrú Dorothy Jónasson frá Winnipeg hlaut styrk til hljómlistarnáms við Royal Conseravtory of Music í Toronto, Ont.

Mrs. B. Violet Ísfeld var kosin forseti Canadian Federation of Music Teacher's Association á tíunda ársfundi þess félagsskapar í Vancouver í júlímánuði s.l.; einnig var hún nýlega kosin forseti Jóns

Sigurðssonar félagsins, IODE, hér í fylkinu.

Nýlega hefir frétt borizt þess efnis að í Efri deild þingsins í Washington, D.C., hafi verið samþykkt frumvarp til laga, sem miðar að því að færa Leifs Eiríkssonar styttuna frá Marine Museum, New Port News, Virginia, þar sem hún hefir verið geymd um allmörg undanfarin ár og setja hana niður á tilhlýðilegum stað í höfuðborg Bandaríkjanna. Er búist við að frumvarp þetta verði einnig samþykkt í Neðri deild innan skamms og nái þannig fram að ganga. Standa vonir til, að Ameríkufundur Leifs verði opinberlega viðurkenndur og að sérstakur **Leifs dagur** verði ákveðinn til staðfestu og minningar um þann viðburð. Guðmundur Grímsson, hæstaréttardómari í Bismarck, hefir lengi unnið markvisst að þessu máli, en sá, sem einkum mun hafa beitt sér fyrir því á þinginu er Warren G. Magnússon, Senator frá Washington-ríkinu.

S.l. átján ár hefir Davíð Björnsson starfrækt íslenzka bókaverzlun og bókbandsstofu á Sargent Avenue. Hefir hann unnið mikið og þarft þjóðræknisverk með sölu íslenzkra bóka og viðhaldi þeirra. Rétt er að geta þess, að Davíð varð nýlega að flytja fyrirtæki þetta heim í íbúð sína á Banning St. Vonandi láta deildir og meðlimir félagsins hann njóta viðskipta sinna ekki síður en að undanförnu.

Hið síðasta, sem skeð hefir á vettvangi þjóðræknismála vorra hér í borginni, er heimsókn dr. Lee Hollander, en hann er prófessor í germönskum málum við háskólann í Austin, Texas. Flutti hann tvo fyrirlestra við háskólann hér á vegum íslenzkudeildarinnar, og erindi flutti hann einnig í Sambandskirkjunni fyrir beiðni Þjóðræknisfélagsins. Fjallaði fyrirlesturinn um Eddukvæðin, og var hinn fróðlegasti. Er próf. Hollander annar þeirra manna er standa að hinni nýju og ágætu þýðingu **Njáls sögu** á ensku. Hinn þýðandinn er Carl F. Bayerschmidt prófessor í germönskum fræðum við Columbia háskólann.

Af þessum langa lestri ætti það að vera ljóst, þeim sem á hafa hlýtt, að sitt af hverju hefir gerzt á umliðnu ári, bæði á starfssviði félagsins sjálfs, og á vettvangi íslenzkra félagsmála, og vantar þó mikið á að allt hafi verið talið, sem telja mætti. Enda þótt ýmislegt hafi verið nefnt hér, sem ekki kemur Þjóðræknisfélaginu beint við, má þó hins vegar með nokkrum rétti segja, að ekkert sem snertir Íslendinga hér vestan hafs sé því óviðkomandi. Þess vegna hefi ég leyft mér að nefna atriði, sem snerta einstaka menn.

Enn, sem á fyrri þingum, verða aðalmál þessa þings útbreiðslumál, fræðslumál, fjármál og samvinnumál við Ísland. Féhirðir mun að sálfsögðu gera grein fyrir fjárhag félagsins í skýrslu sinni. Þó er rétt að geta þess hér, að félagið veitti íslenzku blöðunum hvoru um sig $250.00 styrk á árinu; einnig veitti félagið deildinni **Frón** 2000.00 krónur til bókakaupa á Íslandi, og hefir sú upphæð verið greidd fulltrúa deildarinnar í Reykjavík; þá veitti félagið Arthur Reykdal $50.00 upp í ferðakostnað hans og glímuflokksins, sem fram kom á 100 ára landnámshátíðinni í Utah. Væntanlegri þingnefnd í samvinnumálum við Ísland vil ég leyfa mér að benda á það, að á sumri komanda verður hátíð mikil haldin að Skálholti til minningar um það að 900 ár verða þá liðin frá því er biskupsstóll var stofnsettur þar; var þar, sem kunnugt er, um aldaraðir síðan menntasetur og menningarmiðstöð sunnanlands. — Væri gott að athuga hvort að félag vort vill eða getur látið sig viðburð þennan nokkru skipta.

Að lokum vil ég þakka samnefndarfólki mínu í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins ágæta samvinnu á árinu. Í nafni félagsins og Vestur-Íslendinga vil ég einnig þakka íslenzku vikublöðunum hér fyrir að halda uppi menningarstarfi sínu á árinu og óska þeim langra lífdaga.

Skýrslur embættismanna, deilda og milliþinganefnda munu að öðru leyti skýra frá starfi félagsins og stefnumiðum. Öll munum vér óska þess nú, um leið og vér hefjum þessa samfundi til starfs og ráðagerða, að þetta þing megi bera ávöxt arfleifð vorri og íslenzkri menningu til gagns og sæmdar.

Forseti las skeyti er honum hafði borizt frá hera Ásmundi Guðmundssyni, biskupi yfir Íslandi; sendi hann blessunaróskir til þingsins frá þjóðkirkjunni og sér sjálfum persónulega. Ennfremur flutti forseti munnlegar árnaðaróskir og kveðjur frá Dr. Rúnólfi Marteinssyni, sem nýkominn var heim eftir spítalalegu og gat því ekki verið viðstaddur.

Dr. R. Beck las hlýja kveðju frá forseta Norður Dakota háskóla, Dr. G. W. Starcher; skýrði hann jafnframt vináttuhug forsetans og fyrverandi forseta, Dr. West, til Íslendinga og rakti hin nánu tengsli milli háskólans og Íslendinga. Var gerður góður rómur að öllum kveðjunum og þær þakkaðar.

### Kveðja ríkisháskólans í Norður-Dakota til þjóðræknisþingsins

Eftir dr. Richard Beck

Fyrir stuttu síðan urðu forsetaskipti við ríkisháskólann í Norður-Dakota (University of North Dakota). Hinn góðkunni vinur okkar Íslendinga, dr. John C. West, lét af forsetastörfum eftir meir en tuttugu ár í þeim virðingarsessi; en hann hafði að verðleikum verið kjörinn heiðursfélagi í Þjóðræknisfélaginu. Við forsetaembætt-

inu tók annar ágætismaður George W. Starcher, sem þegar hefir sýnt í verki mikinn góðhug í garð okkar Íslendinga. Átti hann meðal annars mikinn þátt í höfðinglegum viðtökum borgarstjórahjónanna í Reykjavík, Gunnars Thoroddsen og frú Völu, á ríkisháskólanum, því forsetahjónin höfðu veglega móttöku á heimili sínu til heiðurs hinum góðu gestum frá Íslandi. Sama máli gegnir um komu annars kærkomins gests heiman um haf til háskólans, Guðlaugs Rósinkranz Þjóðleikhússtjóra; honum til sæmdar efndi Starcher háskólaforseti til virðulegs hádegisverðar. Mætti fleira telja, en þetta nægir til þess að sýna, hvern hug hinn nýi háskólaforseti ber til okkar Íslendinga.

Um hitt er óþarft að fjölyrða, hvers virði það er Íslandi og Íslendingum, íslenzkum málstað og menningarmálum, að eiga sér að vinum og velunnurum forystumenn slíkra menntastofnana, hvort heldur er vestan hafs eða annars staðar út um lönd.

Það er einnig alkunnugt, hve fjölþættum böndum ríkisháskólinn í Norður-Dakota er tengdur Íslendingum, og þá sérstaklega vegna þess, að þar hafa stundað nám og þaðan hafa verið brautskráðir fleiri stúdentar af íslenzkum stofni en á nokkrum öðrum háskóla í Bandaríkjum Norður-Ameríku. Heimsóknir margra ágætis manna og kvenna frá Íslandi til háskólans á liðnum árum, eins og þeirra, er fyrr voru nefnd, hafa einnig treyst menningartengslin og vináttuböndin milli hans og Íslendinga.

Hins ber þó ekki sízt að geta, að frá því á allra fyrstu árum háskólans og fram á þennan dag hafa norræn og íslenzk fræði átt þar griðastað, og eiga enn. Á komandi hausti eru rétt 65 ár liðin síðan kennsla í Norðurlandamálum og bókmenntum hófst á ríkisháskólanum í Norður-Dakota, og það er frásagnarvert, að kennslustóllinn í þeim fræðum var stofnaður með sérstakri lagasamþykkt ríkisþingsins, er mælti svo fyrir, að á háskólanum skyldi vera kennari lærður í Norðurlandamálum. Eigi verður sú saga frekar rakin hér, en hitt er auðsætt, að kennslan í norrænum fræðum í þeirri menntastofnun stendur orðið djúpum rótum, og má því ætla, að hún eigi sér þar enn langan aldur í einhverri mynd.

Minnugur tengsla ríkisháskólans í Norður-Dakota við Ísland og önnur Norðurlönd, og þeirrar ræktar, sem hann hefir lagt og leggur enn við íslenzk og norræn fræði, er mér það sérstaklega ljúft að flytja þjóðræknisþinginu kveðju hans og þær óskir, að Þjóðræknisfélagið megi sem lengst og á sem áhrifamestan og heillaríkastan hátt bera fram til nýrra sigra merki íslenzks manndómsanda og menningarerfða hér í Vesturheimi.

**Bréf háskólaforsetans í Norður-Dakota í tilefni þjóðræknisþingsins**

Dr. Richard Beck
University of North Dakota
Grand Forks, North Dakota

Dear Dr. Beck:

It has come to my attention that you will be leaving for Winnipeg this weekend to attend the annual convention of the Icelandic National League of America. We of the University of North Dakota, where Icelandic and other Scandinavian studies have been pursued for 65 years, appreciate your long participation and leadership in the activities of the Icelandic National League, dedicated to the preservation of Icelandic cultural values in North America.

I am well aware of the fact that a large number of students of Icelandic origin have graduated from the University of North Dakota—a larger number than from any other university in the United States, and that among these are some of our most distinguished graduates.

Since coming to the University I have learned to know personally several of these, including the Supreme Court Justices Gudmundur Grimson and Nels G. Johnson, and Dr. A. F. Arnason, Commissioner of the State Board of Higher Education, as well as such other leaders in the State from the Icelandic national group as State Representative F. M. Einarson of Mountain.

It has alson been my privilege to welcome to the University such notable visitors from Iceland as the Honorable Gunnar Thoroddsen, Mayor of Reykjavík, and Mrs. Thoroddsen, and Mr. Guðlaugur Rósinkranz, Director of the National Theater of Iceland. Their visits were greatly appreciated.

With all these things in mind, I am very happy to ask you, Dr. Beck, to convey my warm personal greetings and those of the University of North Dakota to the convention of the Icelandic National League together with best wishes for its continued success.

Cordially yours,
**George W. Starcher**
President

Samþykkt var að forseti skipaði þrjá menn í hverja þessa nefnd: kjörbréfanefnd, dagskrárnefnd og allsherjarnefnd. Voru þessir skipaðir:

**Kjörbréfanefnd:** Ólafur Hallsson
Davíð Björnsson
Elín Hall.

**Dagskrárnefnd:** Eiríkur Brynjólfsson
Herdís Eiríksson
Hólmfríður Danielson.

**Allsherjarnefnd:** Finnb. Guðmundsson
Kristín Thorsteinsson
Lovísa Gíslason.

Féhirðir, Grettir L. Johannson las skýrslu sína, ennfremur skýrslur fjármálaritara og umsjónarmanns húss félagsins að 652 Home Street. Lagði féhirðir til að þessum skýrslum væri vísað til væntanlegrar fjármálanefndar. Dr. Beck studdi, samþykkt.

Fundi frestað til kl. 2 e. h.

**Reikningur féhirðis**

Yfir tekjur og útgjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 16 febr. 1955 til 16. febr. 1956.

TEKJUR:

| | | |
|---|---|---|
| Á Royal Bank Canada, 16. febr. 1955 | | $1,246.40 |
| Á Royal Bank of Canada, 16. febr. 1955, Fyrningarsjóður á eign, 652 Home St. | | 1,454.36 |
| Frá fjármálaritara fyrir meðlimagjöld | $ 660.24 | |
| Tillög styrktarmeðlima | 152.00 | |
| Fyrir seldar bækur | 5.00 | |
| Fyrir auglýsingar XXXVI. árg. Tímaritsins | 1,698.00 | |
| Fyrir auglýsingar XXXVII. árg. Tímaritsins | 65.00 | |
| 652 Home Street, Winnipeg | 1,598.19 | |
| Banka- og aðrir vextir | 62.37 | |
| Eldri reiknings innheimta | 12.45 | |
| Yfirfærsla á innstæðu á Íslandi | 240.00 | |
| Ágóði af þingsamkomu | 50.00 | |
| Allar tekjur á árinu | | $4,543.25 |
| Samtals | | $7,244.01 |
| Inneign á Íslandi, á Landsbanka Íslands Ísl. kr. | | 9,728.62 |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Árþingskostnaður, 1955 | | $ 53.40 |
| Ársþingskostnaður, 1956 | | 174.14 |
| **Tímarit XXXVI. árg.:** | | |
| Ritstjórn og ritlaun | $ 278.50 | |
| Prentun (áður $1,200.00) | 765.28 | |
| Auglýsingasöfnun | 424.50 | $1,468.28 |
| **Tímarit XXXVII. árg.:** | | |
| Prentun | $1,000.00 | |
| Auglýsingasöfnun | 7.50 | $1,007.50 |
| Bankagjöld | | 10.24 |
| Símskeyti og frímerki | | 33.68 |
| Ríkisgjöld | | 2.00 |
| Prentun | | 13.75 |
| Þóknun fjármálaritara | | 69.20 |
| Blómsveigur | | 10.00 |
| Styrkur til vikublaðsins Heimskringlu | | 250.00 |
| Styrkur til vikublaðsins Lögbergs | | 250.00 |
| Risna | | 318.79 |
| Styrkur til Art Reykdals og glímudrengja | | 50.00 |
| Styrkur til kvikmyndatöku | | 500.00 |
| Burðargjald á útsæði til Íslands | | 10.35 |
| Allur kostnaður á árinu 1955 | | $4,221.33 |
| Fyrning á 652 Home St. 1955 | $ 600.00 | |
| Fyrningarsjóður | 1,454.36 | |
| Á Royal Bank of Canada, 16. febr. 1956 | | $2,054.36 |
| 16. febr. 1956. Á Royal Bank of Canada, Innstæða | | $ 968.32 |
| Samtals | | $7,244.01 |

**Grettir Leo Johannson**, féhirðir

Framanritaðan reikning höfum við endurskoðað og höfum ekkert við hann að athuga.

Winnipeg, Canada, 16. febrúar 1956,

**Davíð Björnsson, Jóhann Th. Beck**

**Skýrsla fjármálaritara**

yfir árið 1955

INNTEKTIR:

| | | |
|---|---|---|
| Hjá fjármálaritara frá fyrra ári | $ 10.00 | |
| Frá meðlimum | 46.75 | |
| Frá deildum | 635.25 | |

ÚTGJÖLD:

| | | |
|---|---|---|
| Burðargjald undir Tímarit | | $ 31.76 |
| Afhent féhirði | | 660.24 |
| Alls | $692.00 | $692.00 |

**STATEMENT**

**652 Home Street, 1955**

| | | |
|---|---|---|
| **Total Receipts for 1955:** | | $3,228.00 |
| **Total Disbursements for 1955:** | | |
| Taxes | $ 520.19 | |
| Water | 71.51 | |
| Fuel | 489.11 | |
| Management | 120.00 | |
| Light & Power | 224.68 | |
| Decorating | 111.96 | |
| Sundries | 21.48 | |
| Supplies & Repairs | 43.76 | |
| Plumbing Repairs | 28.65 | |
| Electrical Repairs | 22.20 | |

| | | |
|---|---|---|
| Paid Icelandic National League | 332.19 | |
| Cheque attached: | 1,266.00 | |
| Balance on hand Jan. 1, 1956 | | 23.73 |
| | $3,251.73 | $3,251.73 |

The above statements have been audited and found correct.

**Davíð Björnsson, Jóhann Th. Beck,**
Auditors

## ANNAR FUNDUR

Kl. tvö e. h. á mánudaginn var tekið til starfa á ný. Fundarbók lesin og samþykkt. Mrs. Björg V. Ísfeld formaður milliþinganefndar í Byggingarmálinu las skýrslu nefndarinnar:

Milliþinganefndin, sem skipuð var á síðasta þingi til þess að athuga möguleika á byggingu samkomuhúss fyrir Íslendinga hér í borg, hélt með sér fimm fundi á árinu. Aðallega beindust störf hennar að því, að hafa upp á hæfilegri lóð undir samkomuhús, en það tókst ekki. Þegar fréttist, að hafin væri fjársöfnun í byggingarsjóð Betels taldi nefndin, að réttast væri að hafast ekki að meðan sú söfnun færi fram. Nefndin telur samt, að samkomuhússmálið ætti ekki að hverfa af starfsskrá Þjóðræknisfélagsins og æskilegt væri að skipa enn milliþinganefnd í þessu nauðsynjamáli.

Virðingarfylst,
Winnipeg, Manitoba, 20. febrúar 1956,
**Björg V. Ísfeld**, forseti
**Tryggvi J. Oleson**, skrifari
**Bragi Friðriksson**
**Lúðvík Kristjánsson**
**Jón Ásgeirsson**
**Erlingur Eggertsson**

Dr. R. Beck gerði tillögu um að skýrslan væri meðtekin með þakklæti, samþykkt. Próf. Finnbogi Guðmundsson lagði til að leitað væri til sömu nefndar aftur og henni falið að halda málinu vakandi og formanni gefin heimild til að bæta við nefndina eftir því sem hún teldi nauðsynlegt, samþykkt.

### Skýrsla kjörbréfanefndar

**Frón, Winnipeg:**

Oddný Ásgeirsson ....................18 atkv.
Guðbjörg Sigurðsson ....................18 —
Davíð Björnsson ....................18 —
Sigríður Jakobsson ....................18 —
Elín Hall ....................18 —
Hlaðgerður Kristjánsson ....................18 —
Rósa Jóhannsson ....................18 —
Jón Jónsson ....................18 —
Hólmfríður Danielson ....................18 —
Margrét Sigurðsson ....................18 —

**Esjan, Árborg:**

Páll Stefánsson ....................20 atkv.
Tímóteus Böðvarsson ....................20 —
Herdís Eiríksson ....................20 —
Gunnar Sæmundsson .................... 8 —

**Deildin, Gimli:**

Sigríður Sigurðsson ....................20 atkv.
Kristín Thorsteinsson ....................20 —
Hjálmur Thorsteinsson ....................20 —

**Báran, Mountain, N. Dak.:**

Haraldur Ólafsson ....................20 atkv.
Richard Beck ....................20 —
Magnús Byron ....................20 —
Séra Ólafur Skúlason .................... 6 —

**Ströndin, Vancouver:**

Séra Eiríkur S. Brynjólfsson 20 atkv.

**Deildin, Lundar:**

Ingibjörg Rafnkelsson ....................17 atkv.
Ólafur Hallsson ....................17 —

**Deildin Grund, Glenboro:**

Séra Jóhann Friðriksson ....................10 atkv.

**Brúin, Selkirk:**

Einar Thorwaldson ....................13 atkv.
Óli Magnússon ....................13 —
Ásta Eiríks ....................14 —

Ólafur Hallsson las skýrsluna. Voru á þingi 28 erindrekar frá átta deildum, er fóru með 473 atkvæði, auk þeirra félagsmanna er fóru með eigin atkvæði.

Séra Jóhann Friðriksson lagði til að fylgt væri dagskránni eins og hún birtist í blöðunum, þar til dagskrárnefnd hefði lokið skýrslu sinni, samþykkt.

### Þjóðræknisdeildin Frón

Skýrsla yfir starf deildarinnar árið 1955

Á ársfundi, sem haldinn var 29. nóvember 1954, varð sú ein breyting á stjórnarnefndinni að Valdimar Lárusson var kjörinn vara-gjaldkeri í stað Tryggva J. Oleson prófessors, sem baðst lausnar eftir 8 ára dygga þjónustu í þágu deildarinnar, en helming þess tímabils var hann forseti hennar.

Starf Fróns á árinu, svo sem að undanförnu, hefir verið að efla íslenzkan félagsskap hér í borg á þjóðernislegum grundvelli. Hver árangurinn hefir orðið skal látið ósagt en víst er um það, að hvað fjárhag og meðlimafölda snertir, hefir hagur deildarinnar blómgast. Í árslok 1955 voru rúmir $280.00 í sjóði og tala skuldlausra meðlima 237. En þessi ágæta afkoma tvímælalaust mest að þakka frábærri elju og ósérhlífni forseta deildarinnar.

Þrítugasta og sjötta Frónsmótið var haldið í Fyrstu lútersku kirkju, mánudags-

kveldið 21. febrúar. Aðsókn var með minna móti, eða um 250 manns, en annars tókst mótið vel. Þau frú Marja Björnsson og séra Valdimar J. Eylands fluttu erindi, Ragnar Stefánsson las upp kvæði Matthíasar, Bragarbót (eða Minni Vestmanna), frú Björg Ísfeld skemti með organleik, en þær ungfrúrnar Ingibjörg Bjarnason og Lilja Eylands með einsöng.

Önnur stór samkoma, sem deildin efndi til, fór fram í Sambandskirkjunni 17. júní síðastliðinn í tilefni af 10 ára afmæli íslenzka lýðveldisins. Þar flutti frú Ingibjörg Jónsson erindi um konu Jóns Sigurðssonar, frú Margrét Jónasdóttir Guðmundsson las upp hátíðarljóð, ort af þessu tilefni af Davíð Stefánssyni, en ungfrú Lilja Eylands, Joy Gíslason og Erlingur Eggertson sungu einsöngva.

Þá stóð Frón fyrir samkomu, sem haldin var í Sambandskirkjunni 10. desember s.l. í tilefni þess að þann dag var Halldóri Kiljan Laxness afhent bókmenntaverðlaun Nóbels af Svíakonungi. Allan veg og vanda af þessari samkomu átti Finnbogi Guðmundsson prófessor. Flutti hann erindi um skáldið, en þau Áskell Löve prófessor, Helga Sigurbjörnsson og Björn Sigurbjörnsson lásu kafla úr ritverkum skáldsins.

Fjórir almennir fundir voru haldnir á árinu. Sá fyrsti var í G. T. húsinu 17. jan. 1955 og flutti prófessor Finnbogi þar erindi um fornízlenzk handrit og sýndi nokkur sýnishorn af þeim í skuggamyndum. Á fundi þessum flutti Jón Kristgeirsson kennari frá Íslandi, sem hér var á ferð, deildinni kveðjur og árnaðaróskir að heiman. Næsti fundur var í Sambandskirkjunni 11. apríl, og sagði Jón Ásgeirsson, fyrverandi forseti Fróns, frá ferð sinni til Íslands haustið áður. Þriðji fundurinn fór fram í G. T. húsinu 3. október s.l., og var þar kapprætt málefnið: Æðsta hlutverk íslenzkrar þjóðrækni vestan hafs, er viðhald íslenzkrar tungu. Með jákvæðu hliðinni mæltu þau frú Ingibjörg Jónsson og Tryggvi J. Oleson prófessor, en á móti þau frú Hólmfríður Danielson og Heimir Thorgrímsson. Fjórði fundurinn var einnig í G. T. húsinu. Þetta var ársfundurinn og var hann haldinn 28. nóvember s.l. Þar flutti frú Marja Björnsson erindi um Háskóla Íslands.

Auk þeirra, er þegar eru taldir, skemti þetta fólk á fundum deildarinnar: Dianna Broadley, Carl Thorsteinsson og Arthur Reykdal og glímukappar hans. Öllum sem á þennan hátt hafa sýnt Frón hjálpsemi, er hér með innilega þakkað. Aðsókn að fundunum er þetta frá 40 til 120 manns, og að meðaltali um 50.

Fimm nefndarfundir voru haldnir á árinu, auk þeirra er aukanefndir héldu með sér í sambandi við undirbúning skemtana, bókakaupa o. s. frv. Nefndarfundir hafa til margra ára verið haldnir á skrifstofu The Electrician og ber að þakka eigendum þess fyrirtækis þeim Guðmann Levy og Jochum Ásgeyrssyni góðviljann og gestrisnina. Á ársfundinum 1954 skipaði Frón nefnd til að athuga möguleika á því að koma upp íslenzkri leiksýningu. Nefnd þessi, undir forystu frú Hólmfríðar Danielson, hélt nokkra fundi, en þegar víst var að yngra fólk, nýkomið að heiman, hefði í hyggju að stofna til leiksýningar, þá fanst nefndinni málinu borgið í bráð og hætti störfum. Síðastliðinn vetur sýndi svo „Leikflokkur landans" þætti úr Gullna hliðinu, fjölda fólks til ánægju og uppbyggingar.

Síðastliðið sumar sendi forseti Fróns heillaóskaskeyti til nefndar þeirrar í Spanish Fork er sá um hundrað ára afmælishátíð íslenzka landnámsins í Utah, sem haldin var dagana 15.—17 júní s.l. á nefndum stað.

Er það fréttist í sumar sem leið að ungfrú Lilja Eylands hefði hlotið styrk til náms við Háskóla Íslands, sendi nefndin henni $50.00 ávísun í þakkarskyni fyrir þá tryggð og velvild, er hún hafði margoft sýnt Fróni með því að skemta á samkomum deildarinnar.

Eins og verið hefir starfrækti deildin bókasafn Þjóðræknisfélagsins síðastliðið ár. Um 40 nýjar bækur voru keyptar og auk þess fékk safnið stóran bókakassa frá Lestrarfélaginu í Wynyard, Sask., sem nú er ekki lengur við lýði. Voru bækurnar gefnar en Frón greiddi burðargjald. Gjöf þessa þökkum við Wynyardbúum, Þjóðræknisfélaginu fyrir 2000 krónur íslenzkar til bókakaupa, blöðunum fyrir að prenta ókeypis s.l. haust lista yfir nýjar bækur, þeim Johannsonsbræðrum fyrir ritið „Foreldraminning" og öllum öðrum, sem að safninu hafa hlynt á einn eða annan hátt. Safnið telur nú um 4000 bindi og útlán nema því sem næst 5000 á ári, en safnið nota um 115 manns. Bókavörður er enn Jón Jónsson og er safninu borgið meðan hans nýtur við. Til bókbands og bókakaupa hefir deildin varið um $200.00 þetta ár.

Að endingu vil ég fyrir hönd Fróns biðja þjóðræknisþingið að veita skýrslu þessari móttöku og um leið óska stjórn félagsins, þingmönnum og gestum gæfu og gengis á velli þjóðrækninnar.

Winnipeg, 19. febr. 1956.

Virðingarfylst,

**Heimir Thorgrímsson,** ritari

Jón Jónsson forseti deildarinnar las skýrsluna. Elín Hall lagði til að þessi ýtarlega og góða skýrsla væri viðtekin með þakklæti, samþykkt.

**Deildin „Ísland"**

Mrs. Lovísa Gíslason frá Morden flutti

bráðabirgðarskýrslu; kvaðst hún vænta þess, að fulltrúi frá deildinni myndi koma seinna til þings; hefði deildin verið í fullu fjöri þegar hún fór að heiman fyrir jól. Minntist Mrs. Gíslason með þakklæti komu þeirra Kjartans Ó. Bjarnasonar og próf. Finnboga Guðmundssonar til byggðarinnar.

Dr. Beck kvað deildina „Ísland" vel lifandi grein á þjóðræknismeiðnum og lagði til að bráðabirgðarskýrslan væri viðtekin eins og hún var flutt, samþykkt.

**Ársskýrsla Þjóðræknisdeildarinnar Gimli**
fyrir árið 1955

Á síðastliðnu ári hafa verið haldnir fjórir starfs- og skemtifundir með góðri aðsókn. Þar hafa bæði ungir og eldri komið fram á skemtiskrá.

Deildin hafði þá ánægju að taka á móti hinum vinsælu borgarstjórahjónum Reykjavíkur, hr. Gunnari Thoroddsen og frú, 30. marz. Hélt borgarstjóri ræðu í samkomuhúsi bæjarins; einnig skemti unga fólkið með söng og framsögn. Eftir samkomuna bauð deildin 40 manns til kaffidrykkju á ‚Falcon Cafe." Yfir kaffibollum skemti fólkið sér við samræður og ræðuhöld til miðnættis. Kvöddu þá allir hin alúðlegu myndarhjón með hlýjum hug.

Lítið hefir verið um íslenzkukenslu í vetur. Deildin stóð þó fyrir því að kenna íslenzka sálma og söngva. Sungu nokkrar stúlkur við íslenzku jólamessuna.

Kvöldlestrarklúbburinn byrjaði að starfa 7. nóvember. Séra Bragi Friðriksson veitir þar tilsögn í íslenzkum bókmentum á hverju mánudagskveldi, er það bæði fróðlegt og skemtilegt.

Um fjárhagslegu hliðina er lítið að segja. Við höfum gefið $25.00 til bæjargrafreitsins eins og að undanförnu. $20.00 voru gefnir í sjóð fyrir "TV set" fyrir íslenzka konu. $10.00 til jólaglaðningar á Betel, og á síðasta fundi voru gefnir $100.00 í byggingarsjóð Betels.

Í sjóði um áramót ........................$178.23

Deildin telur 69 meðlimi.

Á ársfundi voru kosin í embætti:

Mrs. Kristín Thorsteinsson, forseti
Mrs. H. G. Sigurdson, vara-forseti
Mr. I. N. Bjarnason, ritari
Mrs. I. N. Bjarnason, vara-ritari
Mr. W. J. Árnason, féhirðir
Mr. Hjálmur Thorsteinsson, fjármálaritari
Mr. Sigurjón Jóhannsson, vara-fjármálaritari

Með beztu óskum til þjóðræknisþingsins.

Forseti, Mrs. Kristín Thorsteinsson
Ritari, Ingólfur N. Bjarnason

30. marz stóð deildin fyrir að taka á móti borgarstjórahjónunum frá Reykjavík, hr. Gunnari Thoroddsen og frú Völu Thoroddsen. Bæjarráðið á Gimli, sem var skipað Íslendingum, hjálpaði okkur vel og myndarlega með kveldverðarboði að Falcon's Cafe. Það voru um 30 manns, sem sátu þar að góðri máltíð og var skemt með ræðum.

Forseti deildarinnar, Mrs. Kristín Thorsteinsson las skýrsluna, er ásamt neðanmálsgrein var meðtekin með þakklæti.

**Skýrsla Lundar deildar 1955**

Lundar deildin hefir frekar lítið aðhafst á árinu. Almennar samkomur fórust fyrir vegna óhagstæðrar veðráttu og annarra ófyrirsjáanlegra atvika. Fjórir fundir voru haldnir á árinu, allir í heimahúsum félagsmanna, þar sem íslenzk gestrisni og rausn gerði þá mjög skemmtilega, aðsókn samt tæplega í meðallagi.

Tombóla var haldin til arðs fyrir bókasafn deildarinnar og nokkrar nýjar bækur keyptar. Til minnisvarða yfir landnámsfólk bygðarinnar gaf deildin $35.00. Deildin gaf lútersku kirkjunni á Lundar $25.00, sem varið skyldi til viðgerðar á kirkjunni. Deildin gaf séra Braga Friðrikssyni $25.00 í þakklætisskyni fyrir hans umhyggjusama og erfiða starf, er hann leysti svo dásamlega vel af hendi.

Við veikindi og lát frú Ljótunnar Sveinsson varð deildin skrifaralaus um tíma, hafði frú Ljótunn sint því starfi um margra ára skeið vel og dyggilega. Þess vegna er þetta samansett af féhirði deildarinnar, sem lítt er til starfsins hæfur, og verður því að taka viljann fyrir verkið.

**Daníel J. Líndal**

Ólafur Hallsson flutti skýrsluna, síðan minntist hann þess að deildin hefði haft hlutdeild í samkomunni í Ashern, sem haldin var í tilefni af komu borgarstjórahjónanna frá Reykjavík. Hefðu um 200 manns sótt þennan mannfagnað og þau samtök haft góð áhrif í hinum dreifðu byggðum. Var skýrslan þökkuð og meðtekin.

**Skýrsla Deildarinnar Báran**
fyrir árið 1955

Á ársfundi Báru 4. febrúar 1956 voru þessir kosnir í embætti fyrir árið 1956:

Forseti, H. B. Grimson
Vara-forseti, Steve Indriðason
Skrifari, Joseph Anderson
Vara-skrifari, V. A. Bjornson
Féhirðir, Haraldur Ólafsson
Vara-féhirðir, Mike Byron
Fjármálaritari, O. G. Johnson
Vara-fjármálaritari, P. B. Ólafsson
Skjalavörður, H. T. Hjaltalín.

Það hafa verið haldnir þrír almennir fundir og þrír nefndarfundir á árinu.

Báran hafði eina samkomu á árinu, 17. júní 1955 var hún haldin í samkomuhúsinu að Mountain kl. 2 e. h. Var það ágæt skemtun, tvær ræður og mikill söngur.

Var gerður góður rómur að þeirri samkomu.

Tveir meðlimir Báru hafa dáið á árinu, þau Anna Anderson, Mountain, og Árni Johannson, Akra.

Starfið hefir gengið bærilega; við vorum svo heppnir að fá tvo ágæta meðlimi í deildina á ársfundi 4. febrúar 1956, þá séra Ólaf Skúlason og Joseph Anderson.

Kær kveðja til þingheims, vonum að alt gangi að óskum.

**G. J. Jónasson**, forseti
**H. B. Grímson**, skrifari

Dr. Beck flutti skýrsluna og lagði til að hún væri meðtekin og var það gert með þökkum.

### Ársskýrsla Deildarinnar „Esjan"

Árborg, Man., 1955

Meðlimatala Deildarinnar „Esjan" fyrir síðastliðið ár er 68. Þrír almennir fundir hafa verið haldnir á árinu, og nefndarfundir eftir þörfum. Bækur voru keyptar fyrir $81.60. Bókasafn Víðisbyggðar var afhent deildinni til afnota og eru þar margar góðar bækur. Við viljum þakka Idu Swainson fyrir bækur, er hún gaf Esjunni úr bókasafni foreldra sinna. Faðir hennar, Swain Swainson, var áður búinn að gefa deildinni margar bækur. Esjan hefir nú með höndum umferðabókasafn, sem Próf. Finnbogi Guðmundsson útvegaði til að lána út um íslenzku byggðirnar. Í safninu eru margar góðar og dýrar bækur, sem almenningur og jafnvel lestrarfélög myndu ekki geta keypt. Þær hafa verið mikið lesnar hér. Við viljum þakka Próf. Finnboga fyrir að útvega okkur þetta safn, og einnig fyrir íslenzkar kennslubækur, sem hann útvegaði okkur endurgjaldslaust. Þeim hefir verið útbýtt til foreldra, sem hafa áhuga á að kenna börnum sínum íslenzku.

Bókasafn Esjunnar, sem nú á sér tryggt heimili í ráðhúsi Bifröst-sveitar, er nú í prýðilegu ásigkomulagi. Það útheimti mikla vinnu á síðastliðnu ári að fara yfir allt safnið, númera bækur og sjá um viðgerð á þeim eftir þörfum. Við viljum sérstaklega þakka Mr. og Mrs. Tímóteus Böðvarsson og Mr. og Mrs. Ingvi Eiríksson sem unnu að því endurgjaldslaust að koma þessu í framkvæmd. Einnig þökkum við Mr. Skúla Böðvarssyni, sem samdi og prentaði mjög fullkomna bókaskrá, sem ætlast er til að meðlimir Esjunnar kaupi. Þetta verk var líka unnið að mestu endurgjaldslaust. Var þetta mjög þarft verk, því nú eru nær 1800 bækur í safninu og hefir mikið verið lesið á þessu ári.

Deildin hafði umsjón með fjórum samkomum á árinu. Hin fyrsta var hér í Árborg 29. marz 1955 í tilefni af komu Gunnars Thoroddsen borgarstjóra Reykjavíkur og frú Völu. Var samkoman vel sótt, og höfðu allir ánægju af að kynnast þeim góðu hjónum. Íslenzk börn skemtu þar með framsögn og söng á íslenzku. Arður af samkomunni gekk til Þjóðræknisfélagsins. Deildin reyndi á allan hátt að gjöra komu þeirra, sem ánægjulegasta og greiddi veg þeirra eftir föngum með heimboðum og flutningi milli byggða.

23. apríl var haldin samkoma í samkomuhúsi Geysir-byggðar til arðs fyrir Esjuna og tókst það vel. — Í ágústmánuði heimsóttu okkur Kjartan Ó. Bjarnason og Próf. Finnbogi Guðmundsson. Tóku þeir myndir víðsvegar um byggðina, héldu svo samkomu í sambandskirkjunni í Árborg. Skýrði Finnbogi þar frá ferðalagi þeirra félaga um byggðir Íslendinga, og Kjartan sýndi kvikmyndir frá Íslandi. Var samkoman vel sótt og í alla staði hin ánægjulegasta.

Einnig er vert að minnast komu Björgvins Guðmundssonar tónskálds og frúar hans, ásamt gömlum kunningjum, frú Marju og dr. Sveini Björnsson. Héldu þau samkomur í Árborg og Geysir. Lék Björgvin þar af segulbandi mörg tónverk sín sungin af hinum kröftuga Akureyrar-kór. Var gerður að þessu góður rómur. Einnig sýndi frú Marja Björnsson nokkurn hluta hins mikla safns síns af íslenzkum hannyrðum og skrautmunum. Gerði hún grein fyrir hverjum hlut í safninu og dáðust allir að. Einnig gaf hún stutt ágrip af ferðalagi þeirra hjóna á Íslandi. Var það að vanda bæði skemmtilegt og fróðlegt erindi.

Í desember var haldin Laxness-vaka. Var komið saman og lesnir kaflar úr bókum hans, bæði í bundnu og óbundnu máli, og stutt ágrip gefið af starfi hans. Einnig sýndi Þorleifur Þórðarson þar íslenzkar kvikmyndir. Hann var hér á ferð á vegum Ferðaskrifstofu Íslands. Var samkoman í alla staði fróðleg og skemmtileg.

Á þessu ári varð „Esjan" að sjá á bak þremur meðlimum sínum. Þeir voru Guðmundur Vigfússon, Valdimar Sigvaldason og Guðmundur O. Einarsson, varaforseti Esjunnar. Hafði hann lengst af skipað embætti í starfsnefnd deildarinnar.

Vert er að geta þess að einn af okkar starfandi meðlimum, Sigurjón Þórðarson frá Nýhaga í Geysir-byggð, nú fullra 90 ára að aldri, var á síðasta fundi kjörinn heiðursmeðlimur. Hann er ern í bezta lagi, sækir flesta fundi, og tók til lesturs á síðasta ári yfir 90 bækur úr bókasafni deildarinnar.

Stjórnarnefnd skipa nú:
Forseti, Gunnar Sæmundsson
Vara-forseti, Guðni Sigvaldason
Ritari, Emily Vigfússon
Vara-ritari, Anna Austman
Féhirðir, Herdís Eiríksson
Vara-féhirðir, Aðalbjörg Sigvaldason
Skjalavörður, Tímóteus Böðvarsson.

**Fjárhagsskýrsla:**

| | | |
|---|---|---|
| Í sjóði um áramót | | $211.84 |
| Inntektir á árinu | | 325.76 |
| Útgjöld á árinu | $375.34 | |
| Í sjóði 31. des. 1955 | 162.26 | |
| | $537.60 | $537.60 |

Með beztu óskum til þjóðræknisþingsins,

Virðingarfylzt,
**Gunnar Sæmundsson,** forseti
**Emily Vigfússon,** ritari

Herdís Eiríksson flutti skýrsluna, sem var meðtekin með þökkum.

**Skýrslur Deildarinnar Ströndin**

Þrír almennir fundir voru haldnir, auk nokkurra stjórnarnefndarfunda. Voru þeir allvel sóttir, enda hafði félagsmönnum fjölgað úr 62 í 85 á árinu. Sex skemmtisamkomur hélt deildin á árinu.

Samkoma var haldin 23. febrúar. Sýndar myndir, og var hún allvel sótt.

Sumarmálasamkoma þann 21. apríl, var hún allvel sótt.

17. júní samkoma haldin á Hotel Georgia þ. 17. júní. Var hún hin bezta skemmtun, en ekki sótt nærri eins vel sem skyldi. Hafa ef til vill nokkrir verið í burtu úr borginni, og inngangur þótt of hár.

Skemmtisamkoma þ. 10. ágúst var allvel sótt. Þar flutti frú Hólmfríður Danielson langt erindi. Einnig var söngur.

Skemmtisamkoma 2. sept, var hún vel sótt. Þar skemmti tónskáldið Björgvin Guðmundsson með mörgum kór- og einsöngvum frá Íslandi.

Þann 2. nóv. var haldin hin árlega Tombóla Strandar, og dans stiginn á eftir. Var hún allvel sótt.

Stjórn deildarinnar skipa:

Forseti, Stefán Eymundsson
Féhirðir, C. H. Ísfjörð
Ritari, Gunnbjörn Stefánsson
Vara-ritari, E. S. Brynjólfsson.

Virðingarfylst,
**G. Stefánsson,** ritari

**The Icelandic National League,**
Winnipeg 10, Manitoba.

Samkvæmt boði forsetans, hef ég samið fjárhagsskýrslu yfir bankaeign, inntektir og útgjöld deildarinnar fyrir árið 1955. Er skýrsla þessi yður virðingarfylst afhent.

**Bankaeign og inntektir 1955:**

| | |
|---|---|
| Á banka 1. jan. 1955 | $ 325.61 |
| Inntektir fyrir árið 1955 | 756.90 |
| Peningar alls 1955 | $1,082.51 |

**Útgjöld 1955 (alls $906.75):**

| | |
|---|---|
| Borgað úr sjóði 1955 | $ 906.75 |
| Á banka 31. desember 1955 | 175.11 |
| Hjá féhirði, frímerki, 1955 | 0.65 |
| Alls | $1,082.51 |

Yfirfarið og rétt fundið.
**F. O. Lyngdal og O. Anderson**
yfirskoðunarmenn.

Aths. Útgjöld félagsins 1955 innifela $333.34 gjöf, sem er freklega einn þriðji af $1,000.00 peningaloforði deildarinnar til kirkjubyggingarinnar hér og prestsseturs-ins tilvonandi.

**C. H. Ísfjörð,** féhirðir

Séra Eiríkur Brynjólfsson las skýrsluna. Vék hann síðan að því að efla þyrfti þjóðræknisstarfið suður með ströndinni. Þar væri frjógur jarðvegur fyrir slíka starfsemi; í San Francisco væri íslenzkur karlakór, víst sá eini á þessu meginlandi, væri söngstjórinn Mrs. Louise Guðmunds. Ennfremur væru íslenzk kvenfélög starfandi í Blaine, Victoria og Bellingham, og svo íslenzku söfnuðirnir í Seattle, Blaine og Vancouver.

Dr. Beck tók í sama streng, að hér væri um starfssvið að ræða fyrir félagið, er vert væri að athuga. Var gerður góður rómur að máli ræðumanna og skýrsla Strandarinnar samþykkt og meðtekin með þökkum.

**— HLÉ —**

Samþykkt var hálftíma hlé og gæddu þingmenn sér á kaffi í neðri sal hússins, og að því loknu sungu þeir nokkur íslenzk lög undir fjörlegri forustu séra Eiríks Brynjólfssonar, en Mrs. Lovísa Gíslason var við hljóðfærið. Vakti það ánægju og glaðværð.

**Skýrsla dagskrárnefndar**

Dagskrárnefnd leggur til að dagskrá 37. ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi verði eins og hér segir:

1. Þingsetning
2. Ávarp forseta
3. Kosning allsherjarnefndar
4. Kosning kjörbréfanefndar
5. Kosning dagskrárnefndar
6. Skýrslur embættismanna
7. Skýrslur deilda
8. Skýrslur milliþinganefnda
9. Útbreiðslumál
10. Fjármál
11. Fræðslumál
12. Samvinnumál
13. Útgáfumál
14. Kosning embættismanna
15. Ný mál
16. Ólokin störf og þingslit.

**E. S. Brynjólfsson**
**Herdís Eiríksson**

Séra Eiríkur Brynjólfsson flutti skýrsluna; var niðurröðun dagskráratriða nokkuð öðruvísi en í skránni, sem birzt hafði í blöðunum, og var hún samþykkt með áorðnum breytingum.

**Ársskýrsla Deildarinnar Brúin**

Selkirk, Man., 1955

Þjóðræknisdeildin Brúin hefir haldið níu fundi á árinu og allir býsna vel sóttir; einnig hefir deildin komið á fjórum arðberandi samkomum. Svo þó að deildin hafi ekki séð sér fært að gera neitt viðvíkjandi íslenzkukennslu, hefir hún samt verið allvel starfandi.

Deildin hefir haft á bak að sjá tveimur meðlimum á þessu liðna ári, þeim Jóni Sigurdson, sem var forseti deildarinnar í mörg ár og heiðursmeðlimur seinustu árin, og Mrs. Júlíönu Johnson, sem var meðlimur deildarinnar í mörg ár. Þrír hafa gengið í félagið á árinu, og telur deildin nú 41 meðlim.

Með þakklæti og beztu óskum til þjóðræknisfélagsins og ársþings þess.

**Einar Magnússon**, forseti
**A. Goodbrandson**, skrifari

**Viðbætir við Brúar-skýrslu**

Inntektir á 4 samkomum ............$210.48
Gefið í sjóð, þegar safnað var fyrir "TV-set", sem gefið var einum meðlim deildarinnar, sem hefir átt við mikil veikindi að stríða ..............................................$75.00
Gefið í sjóð til Johnson family 25.00
Gefið í Hall sjóð ........................ 65.81
Blóm til veikra ........................ 13.50

Alls $179.31
Á banka ..........................................$118.76

Ritari las skýrsluna og var hún meðtekin með þökkum.

**Skýrsla Deildarinnar „Aldan"**

yfir árið 1955

Árið 1955 hefir deildin „Aldan" í Blaine, Wash. leitast við að starfa eftir getu, þó ef til vill fátt megi finnast um árangur. Þrír starfsfundir og tveir stjórnarnefndarfundir hafa verið haldnir. Eins og undanfarandi ár, síðan deildin var stofnuð, var almenn skemmtisamkoma haldin 17. júní, og eins og fyr stýrði forsetinn skemmtiskránni, sem var ágæt, en aðsókn léleg.

Í júlí komu til Blaine í skyndiheimsókn þeir Prófessor Finnbogi Guðmundsson og Kjartan Bjarnason ljósmyndari. Forseti Öldunnar, séra A. E. Kristjánsson, greiddi fyrir þeim á ýmsan hátt og nokkrir af meðlimum deildarinnar, sem náðist til í snatri, höfðu samverustund með þeim í landamæra-listigarðinum, þar sem K. B. tók kvikmyndir.

Þann 8. september stóð Aldan fyrir hljómleika-samkomu Björgvins Guðmunds sonar, sem var vel sótt og vel rómuð.

$1,000.00 voru gefnir elliheimilinu Stafholti á árinu.

Aldan tók að sér að sjá um kosningu Íslendingadagsnefndar fyrir þetta umhverfi.

Smám saman hverfur einn og einn samferðamaður úr lestinni og skörðin sem eftir eru skilin, eru auð. Við, sem eftir erum, söknum og blessum minningu þeirra allra. Ein félagssystir, Helga Júlíus búsett á Point Roberts, var kölluð burt á árinu.

Meðlimatala nú 36.

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

KVEÐJUR

Þjóðræknisdeildin Aldan í Blaine, Wash. sendir hinu þrítugasta og sjöunda ársþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðar kveðjur og einlæga ósk um ánægjulegt þing og heppilega úrlausn allra mála.

**A. E. Kristjánsson**, forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**, ritari

Ritari las skýrsluna, er var viðtekin með þökkum, ennfremur kveðjur, er var vísað til allsherjarnefndar.

Forseti vakti máls á kennslubókarmálinu. Sagði Dr. Beck að frétzt hefði að verið væri að semja kennslubók í íslenzku við háskólann í London á Englandi. Útskýrði hann síðan að nokkru þetta mál og sagði að slík kennslubók yrði að vera þannig úr garði gerð að hún væri við hæfi barna og unglinga.

**Milliþinganefnd í minjasafnsmálinu**

Ritari las skýrsluna í fjarveru formanns nefndarinnar, frú Marju Björnsson. Ennfremur fylgdi önnur nefndarkona, frú Herdís Eiríksson, skýrslunni úr hlaði með nokkrum orðum.

Mrs. Ingibjörg Jónsson,
Winnipeg.

Marja bað mig að senda þér meðfylgjandi skýrslu um starf minjasafnsnefndar á árinu og er þetta það helzta sem hún mundi eftir að hefði verið gert:

1. Nefndin hefir vakið máls á málinu í báðum blöðunum.
2. Prívat bréf verið send út til málsmetandi kvenna, þar sem þær hafa verið beðnar um aðstoð í málinu.
3. Bréf voru samin af Mrs. Jónsson og Mrs. Björnsson og send til Mrs. Erickson í Árborg til fjölritunar og útbýtingar til deilda Þjóðræknisfélagsins í byggðum úti.
4. Minnst á málið á samkomu í Nýja-Íslandi síðastl. sumar af Mrs. Björnsson.
5. Nokkrir munir hafa nú þegar fengist.

Mrs. Björnsson biður þess getið, að af óviðráðanlegum ástæðum geti hún ekki verið á því þingi sem nú situr og sendir því kveðju sína og árnaðaróskir.

Þinn einl.
**S. E. Björnsson**

Þá var Ragnar Stefánsson skjalavörður beðinn að taka til máls. Var lýsing hans á þeim munum, sem þegar eru til í safninu fremur ófögur en skopleg. Fannst séra Eiríki það ekki auka á hróður Íslendinga, ef verið væri að safna og hafa til sýnis slíkt rusl. Ingibjörg Jónsson fullvissaði hann um að slíkt myndi ekki vera tilgangur nefndarinnar, og jafnframt að til væri nú öruggur geymslustaður.

Dr. Beck lagði til að nefndin væri beðin að halda áfram starfi sínu, var tillagan studd af mörgum og samþykkt.

Farið var fram á, að nefndin tæki jafnframt að sér að safna gömlum ljósmyndum og öðrum sögulegum gögnum um Íslendinga hér í álfu.

Séra Bragi Friðriksson skilaði kveðju til þingsins frá Betel og flutti jafnframt drengilega þjóðræknishugvekju, er þingheimur tók með þökkum.

Fundi frestað til kl. 10 á þriðjudagsmorgun.

## ÞRIÐJI FUNDUR

Fundur settur á ný þriðjudagsmorguninn 21. febrúar kl. 10 f. h.

### Útbreiðslumál

Til máls tóku margir. Ræddu málin á víð og dreif, einkum um það, hvernig hægt væri að koma á sambandi við fjarlægustu byggðirnar og efla starfsemi félagsins bæði nær og fjær.

Samkvæmt tillögu R. Becks skipaði forseti eftirtalda menn í útbreiðslumálanefnd:

Eirík Brynjólfsson
Ástu Eiríksson
Tímóteus Böðvarsson
Jóhann Friðriksson
Hjálm Þorsteinsson.

### Fjármál

Grettir Jóhannsson féhirðir skýrði ýmis atriði fjárhagsskýrslunnar og tókust um hana nokkrar umræður.

R. Beck lagði til, að skipuð yrði 5 manna fjármálanefnd, og skipaði forseti eftirfarandi menn:

Philip M. Pétursson
Gretti L. Jóhannsson
Magnús Byron
Kristínu Thorsteinsson
Pál Stefánsson.

### Samvinnumál við Ísland

Samkvæmt tillögu Eiríks Brynjólfssonar skipaði forseti eftirfarandi menn í samvinnumálanefnd:

Richard Beck,
Finnboga Guðmundsson
Rósu Jóhannsson
Ingibjörgu Rafnkelsson
Ólaf Hallsson.

### Útgáfumál

Eftir nokkrar umræður skipaði forseti eftirfarandi 5 menn í útgáfumálanefnd:

Davíð Björnsson,
Elínu Hall
Jón Jónsson
Harald Ólafsson
Oddnýju Ásgeirsson.

### Fræðslumál

Samþykkt var tillaga um skipun 5 manna fræðslumálanefndar, en skipun hennar frestað fram yfir hádegi.

Fundi slitið kl. 12.

## FJÓRÐI FUNDUR

### Skógræktarmálið

Lesið var bréf frá Hákoni Bjarnasyni skógræktarstjóra; því næst flutti Dr. R. Beck skýrslu milliþinganefndarinnar.

### Skýrsla milliþinganefndar í skógræktarmáli Íslands

Dr. Beck flutti ítarlega munnlega skýrslu um málið, las upp bréf því viðvíkjandi, og fara aðalatriði greinargerðar hans hér á eftir.

Á síðastliðnu þjóðræknisþingi vorum við frú Marja Björnsson, prófessor Finnbogi Guðmundsson og undirritaður skipuð í milliþinganefnd í skógræktarmáli Íslands. Því miður gat frú Marja ekki verið á þinginu að þessu sinni, en henni ber sérstök þökk fyrir það, sem unnið hefir verið málinu til framgangs á árinu.

Hefir hún, í umboði nefndarinnar, staðið í bréfasambandi við Hákon Bjarnason skógræktarstjóra í Reykjavík og fengið frá honum ítarlegar upplýsingar um þær tegundir trjáfræs, sem líklegastar eru til að koma að notkum á Íslandi. Jafnframt lét Hákon í ljósi ánægju sína yfir hverri þeirri aðstoð, sem Vestur-Íslendingar gætu veitt þessu máli, og þakkaði áhuga þeirra á því.

Kom nefndin sér saman um að senda nokkuð af trjáfræi heim til Íslands; var það sent með flugpósti, og stóð Þjóðræknisfélagið straum af þeim kostnaði. Þá hefir nefndin reynt að komast að raun um það, hvort fræ það, sem Hákon minnist á í bréfi sínu, frá fjöllum í Kína, myndi fáanlegt í trjáræktarstöðinni í Morden, Man. Skrifaði Helgi Austman þeim þar, og fékk það svar, að þeir hefðu ekki þá tegund fræs. Frú Marja bað Helga Austman þvínæst að skrifa til Ottawa og komast að, hvort þar væri hægt að fá þetta fræ frá Kína, og eins, hvort þeir þar myndu verða hjálplegir við að útvega fræ frá fjöllunum í British Columbia og Alberta, sem Hákon getur um í bréfi sínu, að hægt muni að rækta á Íslandi. Eigi mun svar komið frá Ottawa.

Nefndin hafði í huga að hvetja fólk,

með ávarpi í blöðunum, til þess að styðja skógræktarmálið fjárhagslega, en féll frá því, er hafin var hin mikla fjársöfnun til elliheimilisins „Betel.“

Eigi að síður vil ég, í nafni nefndarinnar, eindregið leggja það til, að skipuð verði ný milliþinganefnd til þess að halda áfram a vinna að málinu á þeim grundvelli, sem lagður hefir verið. Einnig vil ég hvetja aðrar deildir félagsins til þess að fara að dæmi deildarinnar að Gimli og gerast félagar í Skógræktarfélagi Íslands. Það var bæði fögur ræktarsemi til ættjarðarinnar og stuðningur við gott og þarft mál.

**Richard Beck**

Skýrslan viðtekin með sérstakri þökk til Mrs. Marju Björnsson; hún beðin að taka forsæti í nefndinni og heimilað að bæta við hana, ef hún teldi það nauðsynlegt.

Fræðslumálin voru tekin til umræðu. Var tekið heldur dauflega í að hægt væri að stofna íslenzkuskóla fyrir börn. Herdís Eiríksson kvað litlar líkur til að hægt væri að stofna skóla í sinni byggð, því byggðin væri nú svo dreifð; hins vegar myndi það bera meiri árangur að senda kennslubækur til heimilanna. Próf. Finnbogi Guðmundsson kvað kennslubókasendingu frá Íslandi vera á leiðinni. Mrs. G. Polson flutti þakkarávarp til kennara undanfarinna ára.

**Álit útgáfumálanefndar**

1. Að þar sem ritstjóri Tímaritsins Gísli Jónsson hefir nú aftur, eins og að undanförnu, leyst af hendi ritstjórn Tímaritsins með ágætum, þá vottar þjóðræknisþingið honum þakkir og vonar að hann haldi áfram því verki.

2. Að þingið votti einnig Mrs. Björgu Einarsson þakklæti fyrir starf hennar við auglýsingasöfnun í ritið.

3. Að þingið þakki Þjóðræknisfélaginu á Íslandi góða samvinnu á undanförnum árum og góðar undirtektir á Tímariti Þjóðræknisfélagsins í Vesturheimi.

4. Að þingið feli væntanlegri stjórnarnefnd að sjá um útgáfu Tímaritsins á komandi ári og ráði ritstjóra.

5. liður. Nefndin æskir þess að allir sem áhuga hafi á starfi voru leggi hug og hönd að verki og gefi góðar upplýsingar og ábendingar um allt það, sem verða má útgáfumálum vorum til stuðnings, styrktar og ávinnings á komandi ári, bæði í sambandi við störf deilda og ýmiskonar öryggi þeirra.

**Oddný Ásgeirsson**
**Ella Hall**
**Haraldur Ólafsson**
**Jón Jónsson**
**H. Bjarnason.**

Allir liðir nefndarálitsins voru samþykktir.

**Skýrsla útbreiðslumálanefndar**

1. Öllum þeim, sem á einn eða annan hátt hafa unnið að útbreiðslumálum á síðastliðnu starfsári Þjóðræknisfélagsins, vottar þingið þakkir sínar. —

2. Nefndin telur það mjög mikils virði, að sem bezt samvinna og sem nánast samstarf sé milli stjórnar Þjóðræknisfélagsins og hinna ýmsu deilda þess. — Þar sem oft reynist nú orðið erfitt að afla heima í byggðum og bæjum góðra dagskráratriða er vekja áhuga, eftirtekt og athygli fólks væntir nefndin þess, að stjórn Þjóðræknisfélagsins aðstoði deildirnar eftir föngum í þessum efnum, t. d. með öflun kvikmynda frá Íslandi úr íslenzkri sögu og þjóðlífi, því slíkar kvikmyndir virðast ætíð vera hið ákjósanlegasta og eftirsóknarverðasta dagskráratriði, og að öðru leyti á hvern þann hátt, er stjórn Þjóðræknisfélagsins telur heppilegast. —

3. Nefndin leggur eindregið til, samkvæmt ábendingu forseta í ársskýrslu hans , að á þessu ári eða svo fljótt sem fjárhagsástæður leyfa og fé er veitt til þess á fjárhagsáætlun Þjóðræknisfélagsins, að skipaður verði sérstakur útbreiðslustjóri fyrir félagið. Ferðist hann um meðal deildanna, vinni að útbreiðslu íslenzkra blaða og bóka jafnframt því að endurreisa deildir þær, sem lítt eða ekki hafa starfað að undanförnu, og vinni að stofnun deilda þar sem möguleikar kunna að vera fyrir hendi og útlit fyrir að þær eigi sér nokkra framtíð.

4. Að stjórnin athugi hvort ekki sé æskilegt að bjóða og veita nokkurn ferðastyrk manni eða konu úr þeim borgum og byggðum þar sem Íslendingar búa og áhugi virðist fyrir samtökum eða félagsskap meðal þeirra til setu á ársþingi Þjóðræknisfélagsins til að kynnast starfsemi félagsins og verði síðan þjóðræknisstarfsemi hafin í heimabyggðum gestanna ef tiltök þykja. —

5. Í þessu sambandi vill nefndin sérstaklega benda á Kyrrahafsströndina sem mikið og merkilegt svæði fyrir þjóðræknisstarf og felur stjórninni til athugunar hvort ekki sé tiltækilegt að skipa fulltrúa fyrir félagið úr hópi áhugamanna þar, er vinni að útbreiðslustarfsemi þar og verði nokkur styrkur veittur til starfseminnar úr sjóði Þjóðræknisfélagsins, ef þörf gerist.

**E. S. Brynjólfsson**
**Jóhann Fredriksson**
**Ásta Erickson**
**Hjálmur Thorsteinsson**
**T. Böðvarsson.**

Nefndarálitið var samþykkt í heild sinni.

